#

# KVÆÐI

EPTIR

# BJARNA THÓRARENSEN.



GEFIN ÚT AF HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFJELAGI.



KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ BIANCO LUNO.

1884.

Kvæði Bjarna Thórarensens voru gefin út af hinu íslenzka bókmenntafjelagi sama ár og ljóðmæli Jónasar Hallgrímssonar eða árið 1847. Ljóðmæli Jónasar voru gefin út aptur á næstliðnu ári og önnur rit hans. Í fyrra vor var og ráðið á bókmenntafjelagsfundi 19. maí að gefa út í ár kvæði Bjarna að nýju, og var þá þegar á fundinum valin fimm manna nefnd til þess að sjá um undirbúning kvæðanna. Í nefndina voru kosnir Bogi Melsteð, Einar Hjörleifsson, Finnur Jónsson, Hannes Hafsteinn og Jón Þorkelsson.

Hið fyrsta verk nefndarinnar var að skora á menn á Íslandi að láta henni í tje öll óprentuð kvæði eptir Bjarna og upplýsingar um þau og hann, sem fengizt gætu. Árangurinn af því varð sá, að nefndin hefur fengið sumpart kvæði, sem eigi hafa verið áður prentuð, sumpart handrit af prentuðum kvæðum, sem notuð hafa verið til samanburðar, og sumpart ýmislegt, sem komið hefur að haldi við skýringar og athugasemdir við kvæðin, og er það frá þessum mönnum:

1. Dr. Grími Thomsen á Bessastöðum.
2. Páli málaflutningsmanni Melsteð í Reykjavík.
3. Guðmundi lækni Guðmundssyni á Laugardælum.
4. Sjera þorvaldi Bjarnarsyni á Melstað.
5. Sjera þórhalli Bjarnarsyni í Reykholti.
6. Sighvati Grímssyni úr Borgarfirði.

Auk þess hefur nefndin fengið ýmislegt úr ýmsum söfnum, svo sem handritasafni hins íslenzka bókmenntafjelags, safni Rasks á háskólabókhlöðunni í Kaupmannahöfn og handritasafni Jóns Sigurðssonar á Landsbókahlöðunni í Reykjavík, og hefur það verið drjúgast, sem þaðan kom af óprentuðum kvæðum, og hefur nefndin haft fyrir sjer afskrift Hannesar Hafsteins af þeim. Einn nefndarmanna, Bogi Melsteð, hefur og undir höndum allmikið safn af kvæðum Bjarna í eiginhandarriti, og nokkuð með hendi Boga sonar hans, og kallar Bjarni það «Syrpa mín», og hefur hann ritað nokkuð af henni. Hitt hefur Bogi sonur hans skrifað. Aðalsafn það, sem er með hendi Bjarna, er að mestu frumrit á lausum blöðum og brjefaumslögum. þessi eiginhandarrit hafa alstaðar verið borin saman við prentuðu kvæðin og er leiðrjett ýmislegt í þeim, sem voru augljósar villur. Einstöku sinnum er og breytt eptir öðrum handritum, svo sem Boga, ef þau hafa það, sem auðsjáanlega fer betur á, og er þess getið í athugasemdum aptan við, eptir

hverju handriti breytingar sjeu á gjörðar, og auk þess tilfærður hinn verulegasti orðamunur úr eiginhandarritum Bjarna, að svo miklu leyti, sem hann hefur eigi verið tekinn upp í textann. Auk þess hefur nefndin leyft sjer að breyta einstaka orðum í fyrirsögnum eptir því, sem henni þótti viðkunnanlegra. Hins vegar hefur eigi þótt þurfa að prenta upp, hvað stæði í fyrri útgáfunni, þar sem breytt var. Bogi Melsteð hefur og undir höndum nokkur kvæði og vísur eptir Bjarna með hendi sjera Jóns Sveinssonar á Mælifelli frá yngri árum, og hefur það og verið notað til samanburðar. Vísur og kvæði, sem eigi hafa verið prentuð áður, eru hjer prentuð eins og líklegast þótti, að þau myndu rjettust vera, en allur verulegur orðamunur tilfærður með athugasemdunum, og þótti það vissast, þar sem flest handritin voru sitt úr hverri áttinni og að mestu eptir minni.

Ekkert gat nefndin komizt yfir í óbundnu máli eptir Bjarna á íslenzku, nema eitt örstutt brjef til Rasks, sem lítið er á að græða.

Nefndin kom sjer saman um að taka ekkert af því, sem væri á dönsku, en hins vegar allt það á íslenzku, sem með nokkru móti væri takandi, og áleit alveg þýðingarlaust að sleppa ýmsum vísum um einstaka menn, þar sem menn út um

allt land kunna þær og vita hvernig á þeim stendur, en slíkar vísur færa menn þó opt úr lagi, og var það hvöt fyrir nefndina til þess að prenta þær, svo að menn fengju þær þó nokkurn veginn rjettar. Nefndin hefur því engu slept af því, sem henni barst í hendur, nema einstaka klúrum vísum.

Kvæðin eru nú prentuð í annari röð en áður, og er þeim nú raðað eptir aldri. Það hefur Bogi Melsteð gjört. Samskonar vísnaflokkar, svo sem Kláusarvísur, Aravísur o. s. fr., eru þó látnir standa sem heild, en eigi á víð og dreif, þótt þeir sjeu ortir á ýmsum tímum, og eru þá settir miðja vega á það tímabil, sem þeir eru ortir á. Seinast eru þýdd kvæði, en næst á undan þeim eru kvæði frá óvissum tíma. Finnur Jónsson og Bogi Melsteð hafa borið saman handritin við fyrri útg. og Jón Þorkelsson að nokkru.

Einar Hjörleifsson hefur samið æfisöguna.

Að öðru leyti hefur Jón Þorkelsson að mestu sjeð um útgáfuna og lesið prófarkir og samið allar athugasemdir, nema þær, sem eru merktar með B. Th. M. Þær hefur Bogi Melsteð gjört. Forseti hefur litið yfir aðra prófórk.

Myndin er eptir þeirri, sem er með ferðasögu Páls Gaimards. Nafnritið er tekið eptir byggingarbrjefi frá 1833.

# Um Bjarna Thórarensen

*eptir Einar Hjörleifsson.*

— — .

Því er miður að jeg hef ekki eiginlega neina æfisögu að bjóða, eða neitt það, sem vant er að kalla því nafni. Um einstök atriði í æfi Bjarna veit jeg mjög lítið annað en það sem stendur í Árbókum Espólíns og lögfræðingatali Magnúsar yfirdómara Stephensens í Tímariti Bókmenntafjelagsins. Þegar jeg í vetur tók að mjer að skrifa æfisöguna, af því að sá sem meiri hluti útgáfunefndarinnar helzt vildi fá til þess, var með öllu ófáanlegur, þá gerði jeg mjer von um, að fá eitthvað meira og glöggvara að vita um Bjarna Thórarensen. Einn af nefndarmönnunum er Bjarna ekki með öllu óskyldur, eins og mörgum mun kunnugt, og hafði auk þess, að sjálfs hans sögn, um margra ára tíma fengizt við að safna öllu því, sem hann gat upp grafið um Bjarna. Jeg gerði mjer því beztu vonir um að verða allra þeirra góðu skýrslna um Bjarna aðnjótandi, sem

jeg þóttist viss um að mundu vera samankomnar hjá þessum háttvirta nefndarmanni; jeg byggði vonir mínar á því, að bæði hafði hann, alveg eins og við hinir nefndarmennirnir, verið kosinn til þess að sjá um að bókin yrði gerð svo sómasamlega úr garði sem unnt var, og svo hugði jeg að honum mundi renna blóðið til skyldunnar, svo að hann ekkert ljeti ógert, sem gæti stuðlað að því, að útgáfa bókarinnar gæti orðið sem fegurstur vottur um lotningu þá, sem Bókmenntafjelagið ber fyrir afa hans. Hinn háttvirti nefndarmaður hefur litið öðruvísi á þetta mál. Hann hefur hreint og beint neitað að láta mig fá að vita nokkurn skapaðan hlut skriflega eða munnlega um Bjarna Thórarensen, og höfum við þó hinir nefndarmennirnir reynt til, bæði með illu og góðu, að fá það hjá honum, sem hann vissi. Þar á móti hefur herra docent Gísli Brynjúlfsson gefið mjer þær bendingar, sem hann gat, og kann jeg honum beztu þakkir fyrir. Hjá öðrum mönnum hef jeg engar verulegar upplýsingar fengið. Þar sem jeg tek eitthvað upp úr prentuðum bókum, mun jeg geta þess um leið hvaðan það sje.

---

# I.

Bjarni Vigfússon Thórarensen er fæddur að Lágafelli[1]) í Kjósarsýslu 30. dag desembermánaðar 1786. Faðir hans var Vigfús þórarinsson sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu og síðar í Rangárvallasýslu, albróðir Stefáns amtmanns þórarinssonar og hálfbróðir Jóns Espólíns. Espólín segir svo um hann í árbókum sínum XI. deild 35. bls.: „gjörðist Vigfús brátt málafylgismaður mikill; hann var einarður maður, grannlegur og óholdugur, ekki var hann fríður maður sýnum, stirðtalaður nokkuð, en lagði vigt á orðin“. Móðir hans var Steinunn, dóttir Bjarna Pálssonar landlæknis og dótturdóttir Skúla Magnússonar landfógeta. Bjarni átti því til viturra manna og góðra að telja, og ekki lá það í ætt hans að láta hlut sinn fyrir öðrum, enda varð hann ekki eptirbátur forfeðra sinna að neinu þessu.

þegar í barnæsku Bjarna fjekk faðir hans Rangárvallasýslu, og þá fluttu foreldrar hans að Hlíðarenda í Fljótshlíð. þar ólst Bjarni upp, og því er það, að hann jafnan síðan unni Fljótshlíðinni mest af öllum sveitum á Íslandi.

---

[1]) þeir Dr. Grímur Thomsen og Dr. Rosenberg segja báðir (í „Gæu“ og „Illustreret Tidende“) að hann sje fæddur á Hlíðarenda, en það er vafalaust rangt.

Almannarómurinn sem um tíma skipti sjer svo mikið af Bjarna, eins og jeg síðar mun drepa á, hefur þegar búið til sögu um hann frá bernskuárum hans á Hlíðarenda. þegar hann var lítill drengur, hvarf hann einu sinni, og fannst ekki 3 eða 4 daga. Loksins fannst hann langt uppi á heiði, upp með Merkjá; því hann hafði farið upp frá bænum á Hlíðarenda. Sat hann þar uppi á hárri klettasnös með rauða húfu á höfði. Fyrst hjeldu menn að þetta væri örn; svo hátt var upp þangað er hann sat. þegar búið var að ná honum þar ofan af með mikilli fyrirhöfn, sagði hann að hún móðir sín hefði farið þangað upp með sig[1]). Hvað sem satt kann að vera um þessa villu barnsins, þá er þessi saga meðal margra fleiri vottur um það, hve gjarnt Íslendingum er til að bendla gáfumenn sína eitthvað við hindurvitni. þeir hafa haldið um flesta þeirra, að þeir hafi annaðhvort verið göldróttir, eða haft mök við huldufólk, eða hvorttveggja; enda Jónas Hallgrímsson hefur ekki sloppið við slíkan orðróm, eins og mörgum mun kunnugt. En einkum get jeg þessarar sögu vegna þess, að Dr. Rosenberg hefur minnzt á hana í grein sinni um Bjarna, sem stóð í „Illustreret Tidende“ í fyrra. Hann telur hana þar ekki ómerkilega, því hún virðist benda á það, að sál

[1]) Ísl. þjóðsögur og æfintýri I, 215.

þessa litla drengs hafi snemma svo að segja sogið í sig anda hinnar íslenzku náttúrufegurðar[1]). Jeg mun síðar minnast á, í hverju sambandi þessi skoðun Dr. Rosenbergs á þjóðsögunni stendur við kvæði Bjarna.

Bjarni var mjög ungur, þegar hann var settur til náms. Honum var komið fyrir hjá sjera Þorvaldi Böðvarssyni, og frá honum útskrifaðist hann 17 ára gamall vorið 1803. Hann fór utan samsumars til háskólans í Kaupmannahöfn, fjekk ágætiseinkunn við stúdentspróf þar, og sömuleiðis við examen philologico-philosophicum, sem hann tók árið eptir, 1804. Árið 1806 tók hann fyrra hlut embættisprófs í lögum, 1807 þann síðari, og fjekk fyrstu einkunn í báðum. Þegar hann hafði lokið námi sínu, gekk hann í þjónustu danska kancellísins; fyrst var hann „volontör". 25. ágúst varð hann „undirkancellisti" og 22. febrúar 1811 „kancellísekreteri". En þá var hann rjett á eptir, 19. marz s. á., skipaður aukaassessor í yfirrjettinum í Reykjavík. Hann fór þá um vorið út til Íslands, og hafði þá dvalið í Kaupmannahöfn í 8 ár. Benedikt Gröndal, sem var fyrsti dómari í landsyfirrjettinum, var allajafna sjúkur mjög frá því árið 1809, að hann hafði lent í Jörgensensmálinu. Bjarni var þá settur auka-

---

[1]) Sagnet synes at pege paa det Sande, at denne lille Drengs Sjæl tidlig indsugede saa at sige den islandske Naturskjönheds Aand. (Illustr. Tid. 1883, bls. 415.)

assessor í stað hans. Árið 1814 var han settur stiptamtmaður. Svo stóð á því, að Castenskjold, sem þá var stiptamtmaður, átti í deilum við Magnús Stephensen. Hafði hann viljað ná Viðey, og byggði Magnúsi Stephensen út þaðan, en hann ljezt mundu sitja að svo búnu, kvað Castenskjold það vanrækt hafa, er honum var um boðið, að bjóða Viðey upp; það hafði stiptamtmaður ei viljað gera fyrir þá sök, að hann uggði Magnús mundu mest bjóða, en hann hafði kært það áður, að stofan í Viðey væri mjög hrörnuð. Bjuggust þeir nú til að bera hvor sök á annan, en áður Castenskjold færi utan, setti hann Bjarna Thórarensen assessor fyrir sitt umdæmi[1]). Löngum var fátt með þeim Bjarna og Magnúsi Stephensen, og má vel vera, að það hafi ekki bætt um, að Bjarni tók að sjer embætti Castenskjolds meðan hann var erlendis að bera sakir á Magnús. Jeg mun síðar minnast á deilur þeirra nokkru greinilegar, en skal að eins geta þess hjer, að Bjarni átti engan þátt í að ófrægja Magnús, þegar heldur tók að kreppa að honum og vinsældir hans tóku að minnka erlendis. Bjarni tekur það sjálfur skýrt fram í brjefi til Rasks, sem jeg hef sjeð, og það er engin minnsta ástæða til að efast um að svo hafi verið, því Bjarni var of góður drengur til að sæta lagi,

---

[1]) Ísl. Árb. XII. d. bls. 75.

að ná sjer niðri á óvinum sínum, þegar þeir stóðu varnarminnstir fyrir. Fyrir andlát Magnúsar sættust þeir Bjarni heilum sáttum, enda hefur Bjarni viljað sýna það, að hann bæri engan kala til Magnúsar, þar sem hann orti erfiljóð eptir hann, þó að hann aldrei lyki við það kvæði. — Bjarni gegndi í þetta sinn stiptamtmannsstörfum þangað til árið eptir, að Castenskjold var vikið frá embætti um stundarsakir og Ísleifur Einarsson var settur í hans stað. Árið 1817 var hann aptur settur fyrir stiptamtmannsembættið þangað til Castenskjold sleppti því embætti að fullu og öllu og Moltke tók við 1819. Árið 1817 fjekk og Benedikt Gröndal lausn frá assessorsembættinu, en Ísleifur Einarsson varð þá fyrsti yfirdómari, og Bjarni Thórarensen annar. 1820 varð hann sýslumaður í Árnessýslu. Þar var hann tvö ár, og sat að Hjálmholti. Sama árið sem hann fjekk Árnessýslu losnaði og Rangárvallasýsla. Hún var þá talin bezta sýslan á landinu, með því að Vestmannaeyjar fylgdu henni. Bjarni vildi hana því heldur, og sótti um hana, enda voru þar æskustöðvar hans, sem hann unni svo mjög. Hana fjekk hann ekki, en þar á móti fjekk hann aptur yfirdómaraembættið árið 1822 með betri launum en áður. Hann flutti sig þá aptur vestur, og bjó að Gufunesi. Því embætti hjelt hann þangað til árið 1833, að hann varð amtmaður yfir norður- og austuramtinu. Það var

hann þangað til hann andaðist af slagi 24. d. ágústmánaðar 1841. Hann var gerður að „virkilegu jústizráði“ 1829, og riddara af dannebroge 10. júni 1841. Hann sat og á nefndarfundum íslenzkra embættismanna í Reykjavík 1839 og 1841.

Meðan Bjarni var syðra, átti hann í brösum allmiklum við ýmsa höfðingja þar, en jafnan var embættisfærsla hans í bezta lagi. Eptir að hann kom norður, var hann einkar vel látinn bæði af alþýðu manna, og eins embættismönnum þeim sem hann átti yfir að segja. Veturinn 1839—40 stóðu í dönskum blöðum hörð ummæli um danska sýslumenn, sem þá voru í norður- og austuramtinu. Það var eignað Bjarna, en í blaði, sem þá kom út í Kaupmannahöfn og hjet „Dagen“, ber hann það af sjer. Hann segir þar að bæði sæti það illa á sjer, yfirvaldi þeirra, að fara að níða þá erlendis, enda sjeu það heiðvirðir menn og standi vel í stöðu sinni. Annars segist hann helzt óska þess, að embættismenn á Íslandi sjeu íslenzkir, ekki að eins Íslands vegna, heldur líka vegna Dana sjálfra, með því að það sje hægra að komast þangað út í embættisstöðu, en að komast þaðan aptur með heiðri og sóma[1]).

Útlit Bjarna geta menn talsvert ráðið í af mynd-

---

[1]) „Dagen“ 1. april 1840.

inni, sem er framan við bókina, því hún kvað vera dáindis vel lík. Annars var hann þrekinn um herðar og allur þrýstinn vel, góður meðalmaður á hæð, útlimalítill mjög, hafði einkum einkar litlar og fallegar hendur, eins og föðurfrændur hans annars höfðu. Hann steig þungt til jarðar, og staldraði opt við í miðju kafi, þegar honum datt eitthvað í hug, þó hann væri einn á gangi. Fastmæltur var hann sem faðir hans. Bjarni var skrautmaður, barst ekki alllítið á í klæðaburði. Docent Gísli Brynjúlfsson hefur sagt mjer frá því, að þegar hann sá hann á öðrum höfðingjafundinum syðra, hafi sjer virzt sem Bjarna þætti gaman að, að láta sporana glymja við götusteinana. Dr. Grímur Thomsen segir um hann í „Gæu“: „Í samkvæmi var hann kátur og skemmtinn og sló ekki hendinni á móti gjöfum Bakkusar. Glaðlyndi hans varð þá stundum að gáska, en svo mikið eldfjör var í honum, að allir, sem með honum voru, komust í sama skap. Þó varð hann stundum nokkuð hávær eptir fornum hætti norðurlandabúa, og vildi þá sem mest láta heyra til sín sjálfs. Aptur var hann stundum þungbúinn og angurvær, einkum kvað að því eptir því sem hann eltist... þegar menn sáu þetta hálfsára, hálfhæðna bros, sem ljek um varir hans, þegar menn virtu fyrir sjer þetta einkennilega andlit, þar sem sorg og gleði og öll völd lífsins höfðu rist á rúnir sínar, þá komust menn ekki hjá því, að

heimfæra upp á sjálfan hann það sem hann hefur sagt í erfiljóðum eptir einn æskuvin sinn:

„Undrist enginn
upp þó vaxi
kvistir kynlegir,
þá koma úr jörðu
harma funa
hitaðri að neðan
og ofan vökvaðri
eldregni tára."

Allra manna var Bjarni tryggastur og vinfastastur, þar sem hann tók því. Beztu vinir hans syðra munu hafa verið þeir Oddur Hjaltalín, Þorgrímur Tómasson og Hallgrímur Scheving [1]). — Það var ekkert oflof, þar sem Bjarni sagði um sjálfan sig:

[1]) Ein saga er sögð um þá Bjarna og Scheving, sem lýsir þeim báðum nokkuð. Skólapiltar á Bessastöðum höfðu tínt saman steina kringum túnið á Bessastöðum og hlaðið úr þeim stjett eða öllu heldur stillur út að kirkjunni. Eitt sumar höfðu bændur rifið þessar stillur upp og notað steinana til kirkjugarðshleðslu. Skólapiltar undu því illa, er þeir fengu eigi að halda steinum sínum, og eina nótt hurfu steinarnir úr kirkjugarðinum og stillurnar voru komnar í samt lag aptur um morguninn. Sagan segir að piltar hafi þekkt sína steina í garðinum og ekki tekið aðra, en þeir þóttust eiga. Þetta þótti spellvirki mikið, er kirkjugarðurinn var skemmdur, og sá, eða þeir, sem gert höfðu, áttu að sæta refsingu fyrir. Piltar þóttust allir gert hafa. Bjarni hefur þá líklegast verið settur stiptamtmaður, og ætlaði að „decimera". „Þú verður að taka mig fyrst, Bjarni", sagði Scheving þá. Það var ekki decimerað.

Ungur þótti eg með söng
yndi vekja' í sveina glaumi,

því hann var söngmaður hinn bezti, eins og ýmsir föðurfrændur hans. Sjera Friðrik á Breiðabólstað, föðurbróðir hans, var t. a. m. orðlagður söngmaður.

Bjarni var og smiður ágætur; smíðaði einkum og gróf signet, sem hann gaf ættmönnum sínum.

## II.

Bjarni Thórarensen kom heim til Íslands árið 1811, eins og áður er sagt, og þess var þá ekki lengi að bíða að óvingaðist með Bjarna og höfðingjum syðra, enda var það engin furða. Þeir Magnús Stephensen og Bjarni gátu ekki komizt fyrir svo nærri hvor öðrum, og það var heldur ekki von. Magnús drottnunargjarn og ráðríkur ákaflega, svo að segja einvaldur, rótgróinn í valdinu, vanur við að bjóða öllu byrginn og bera hærra hlut. Hann er þurskynsamur embættismaður, duglegur júristi, ísmeigilegur samningamaður, ótrauður að halda fram sínum eigin hagsmunum, og gætinn mjög.

Bjarni framgjarn og fullhugi mikill, ungur og óþreyttur, gáfurnar eldfjörugar, þrekið svo að segja titrar í hverri taug af glímuskjálpta; allt hafði leikið honum í lyndi, heimurinn liggur opinn fyrir, hvers vegna

ekki leggja hann undir sig? En hann er enginn samningamaður, ákafur í lund, ógætinn og óvæginn við sjer voldugri menn.

„Væri' eg bara orðinn áll
og með kroppinn mjóa,
smjúga skyldi heldur háll
hvern um leðjuflóa",

segir hann á einum stað. En hann hafði ekkert sameiginlegt við álinn. Hann var eins og laxinn,

„sem leitar móti
straumi sterklega
og stiklar fossa".

En auk þess er andastefna þessara manna með öllu óskyld. Magnús Stephensen er í húð og hár barn 18. aldarinnar. Hann er einn af hennar „upplýsingarmönnum". Alþýðan verður um fram allt að fá þekking. Sú þekking verður að koma frá öðrum löndum, og hann er alls ekki hræddur við, að opna Ísland fyrir straumum utan úr þeim menntaða heimi. Þjóðernistilfinningin er lítil eða engin hjá honum; þjóðernið gjörir minnst til, bara að mönnunum líði vel. Hann er enn fremur hreinn og beinn skynsemistrúarmaður, eins og átjándu aldar mennirnir voru; trúin er einkum nauðsynlig vegna siðferðisins, til að halda dónunum í skefjum, en hún er ekki til neins, ef hún verður ekki til einhvers gagns fyrir lífið. Magnús Stephensen mundi

ekki hafa verið fjarri uppástungunni þýzku, að hafa kirkjuturna fyrir vindmyllur, hefðu svo að segja nokkrir turnar verið til á Íslandi. Öll hjátrú og öll oftrú á að uppræetast, og með þeim djöflatrúin. Þess vegna býr hann sálmabókina svo úr garði að Jón Þorláksson gat ort um hana:

„Esters bók nefnir aldrei guð
en þótt í ritning standi,
en þú af sálmum uppstoppuð
ei greinir neinn sje fjandi.“

Öll trúarbrögð skoðar hann sem alveg sama tóbakið, að svo miklu leyti sem þau uppfylla siðferðiskröfur þeirra tíma, sem þau eru á. Til annars eru þau í rauninni ekki. Þess vegna gat han byrjað sálm með þessari línu:

„Vor guð, Jehóva, Júppíter!“

Bjarni fær nú einmitt sína menntun, þegar stríðið stendur í Danmörku milli 18. aldarinnar og hins nýja tíma, og þegar hugmyndir átjándu aldarinnar verða svo algjörlega undir; hann skoðar sig nátturlega sem sjálfsagðan til að standa á móti því gamla og úrelta heima á Íslandi, og hefur víst aldrei getað litið hýru auga til neins af því, sem Magnús vildi fram koma, hvað þarflegt sem það var. Bjarna er innilega illa við 18. öldina, og það er auðsjeð að það er af því að hann er nauðbeygður til þess, þar sem hann er að

yrkja eptir Magnús Stephensen, að hann segir það lof um hana, að hún sje móðir 19. aldarinnar. Meira segir hann ekki — getur hann ekki fengið af sjer að segja. Uppfræðing alþýðu virðist alls ekki að hafa legið honum á hjarta, og það virðist enda opt sem honum sje ekkert sjerlega mikið um hana gefið. Höfðingjar hinnar nýju stefnu í Danmörk skiptu sjer heldur ekki það allra minnsta af henni. það eru lyndiseinkunnir einstaklinganna, sem hann leggur mesta áherzlu á, en ekki sú almenna þekking. Bjarni var rammíslenzkur í anda, unni öllu íslenzku, en hataði allt útlent, sem gæti komið inn í íslenzkt þjóðlíf. Að því leyti er hann að nokkru áframhald af Eggert Ólafssyni og bændasonaflokknum, sem svo var kallaður, þó andastefna þeirra Eggerts og Bjarna annars væri mjög ólík. Annars fylgdi það alstaðar á Norðurlöndum hinni nýju stefnu, að þjóðernistilfinningin vaknaði, og var eðlilegt að Bjarni yrði hennar talsmaður heima fyrir. Bjarni var enn fremur fölskvalaus trúmaður, og að því er sjeð verður, enda hreinn og beinn kirkjutrúarmaður. það á náttúrlega fyrst og fremst rót sína að rekja til trúarhylli þjóðar hans, og svo fylgdi „rómantíkinni“ almennt apturhvarf til trúarinnar.

þegar það nú bættist ofan á, að Magnús hafði ekki andríki til að fylgja fram skoðunum sínum eins vel, eins og þær í rauninni að flestu leyti voru hollar

og góðar, að Magnús yrkir — enda dregst á það í Klausturpóstinum, að gefa mönnum recept fyrir, hvernig eigi að yrkja erfiljóð — og tekst ljóðagjörð óheppilega, en Bjarni með jafnmiklum andlegum eldi og hann hafði — þá er það í raun og veru mjög skiljanlegt, þó það væri illa farið, að hann aldrei skildi Magnús Stephensen. Samvinna þeirra gat aldrei komið að neinu haldi, af því að þeir byggðu hvor á sínum grundvelli, og hvor um sig hafði sitt mark og mið.

Nú er ekki svo sem að þeir Bjarni og Magnús Stephensen hæðu stríð hvor við annan um lífsskoðanir sínar og andastefnu. Það var hvorttveggja að þeir höfðu við mörgu öðru að snúast, og svo er það eitt af því marga þungbæra við þjóðfjelög, sem skammt eru á veg komin, og auk þess fámenn, að persónurnar koma jafnaðarlega í staðinn fyrir málstaðinn, í staðinn fyrir skoðanirnar. Það þykir brenna við enn á Íslandi, og í byrjun aldarinnar var enn meiri ástæða til þess. Þá var að öllu leyti erviðara að koma skoðunum sínum fyrir almenningssjónir en nú, og þá var líka alþýðumenntun minni, svo að slíku hefði verið minni gaumur gefinn en nú mun vera almennt, og það hefði síður skilizt.

Allt þetta varð til þess að megn óvinátta kom upp og hjelzt lengst af við með þeim Magnúsi og Bjarna. Magnús átti mikinn flokk vina, vandamanna

og undirtyllna, sem ávallt fylgdi honum, og þetta urðu nú allt óvinir Bjarna, og margir þeirra gerðu sitt til að gera Bjarna lífið svo súrt sem þeir gátu. Af vandamönnum Magnúsar veit jeg að eins um einn, sem aldrei fyllti flokk óvina Bjarna. Það var Björn Stephensen, bróðir Magnúsar og faðir Oddgeirs Stephensens. Þeir Bjarni voru allt af góðir vinir.

Óvinir Bjarna — náttúrlega einkum undirtyllurnar, þeir sem aptan í hjengu, og minnst kom deilan við — tóku það ráð, sem sá andlegi aumingjaskapur jafnan grípur til, að sverta Bjarna á bak og tala um hann flestar þær skammir, sem annars er mögulegt að segja um menn. Honum var brugðið um drykkjuskap og svolaskap allan, ósæmilegt athæfi við konur o. s. frv., o. s. frv. Níðkviðlingum rigndi niður um hann, sem voru hver öðrum ósæmilegri og nærgöngulli, og sumir af þeim, sem jeg hef heyrt, eru naumast hafandi eptir. Þegar svo Bjarni reiddist og svaraði níðinu, þá þótti það enn óhæfilegra en allt annað, sem hann hafði gjört, eða, rjettara sagt, var borið á brýn. Það er auðvitað, að Bjarni mun hafa verið ógætinn í orðum, því hann var æfinlega hreinn og beinn, nefndi hlutina með þeirra rjettu nöfnum, og brúkaði líka þau lýsingarorð um þá, sem honum fundust við eiga í það og það skiptið; en að hann hafi verið að öllu hinn heiðarlegasti og samvizkusamasti maður og bezti drengur, það munu

ekki einu sinni hans verstu óvinir nokkurn tíma hafa efazt um.

En — eins og gengur — þessi rógur og illmæli gekk mann frá manni, læsti sig frá sveit til sveitar, fjórðungi til fjórðungs, eins og eldur í sinu, og hafði, auk þess að þreyta hann og særa, sjerstök áhrif á eitt atriði í lífi hans.

Stephán amtmaður Þórarinsson á Möðruvöllum var föðurbróðir Bjarna, eins og kunnugt er, og unni frænda sínum mjög. Guðrún dóttir hans, sú er síðar giptist Dr. Gísla Brynjúlfssyni, var þá nýorðin gjafvaxta, og þótti einhver beztur kvennkostur norðanlands. Bjarni bað frændkonu sinnar, og faðir hennar var þess mjög fýsandi að þau ráð tækjust. Það var og um tíma hálft í hvoru að ráði gert, og Bjarni gerði sjer fastlega von um að fá hennar. Á þeim málum stóð eitthvað tvö ár, en einmitt á þeim árum fóru að berast norður níðvísurnar og óhróðurinn um svolaskap Bjarna, svo að Guðrún treystist eigi að bindast honum, enda var hún þá nýkomin af barnsaldri, og þekkti Bjarna lítið af öðru en ljótum og ósönnum sögusögnum, og faðir hennar vildi þá ekki neyða hana. Bjarni fjekk brjef um þessi úrslit konumálanna, þegar hann var ferðbúinn norður til Möðruvalla, til þess að ráða máli þessu til lykta, og þá er sagt að hann hafi ort kvæðið: „Gamall mjöður gleður þjóð“. Bjarni bað og Elínar,

dóttur Stepháns amtmanns Stephensens, bróður Magnúsar Stephensens. Espólín segir um það: „Var mælt að föðurbróðir hennar hafi spillt, en amtmaður iðrazt síðan eptir, sem fleiru af ráðum þaðan“ [1]). Hvað satt er í því læt jeg með öllu ósagt. Loks bað Bjarni Hildar Bogadóttur Benediktssonar og var það að ráði gert, og fjekk hann hennar, og fje mikið, er Bogi gaf þeim [2]). Hann gekk að eiga hana árið 1820 og átti fjölda barna með henni. Um sambúð þeirra og heimilislíf Bjarna veit jeg ekkert, nema hvað ekki verður annað sjeð af kvæðum hans, en að það hafi verið gott.

En deilur Bjarna við höfðingja syðra mörkuðu sjer víðara svið, en það er til kvennamála kom. Flestu af því, er Bjarni vildi fram koma meðan hann var syðra, var tálmað fram að ganga, sumt komst á eptir langa mæðu, sumt aldrei. En á þeirri mótspyrnu verður að gera glöggan greinarmun, því stundum er hún af óvild, en stundum er hún komin af hreinni sannfæringu, af „princip“mun. Jeg skal nefna tvö hin helztu af þeim málum; það eru vegabótamálið og hegningarlagamálið.

Á síðustu blaðsíðunni á Klausturpóstinum 1823 stendur merkilegt þakkarávarp. Það er svona:

---

[1]) Íslands Árbækur. XII. d. bls. 113.
[2]) Ísl. Árb. XII. d. bls. 116.

„Loksins lýsir Klausturpóstur þessi, að bón Sýslumannanna HHra. Jóns Espólíns og Blondal, þeirra opinberri þökk til Hra. Assessors B. Thórarensens, vegna sýslubúa þeirra, sem ferðast kunna um Kaldadals veg, fyrir góða vegarbót, er hann á egin kostnað hefir látið gjöra með ruðníngi á þessa Dals lakasta óvegis parti, Skúla-skeiði nefndum“.

þetta — að byrja með því tilraunir sínar til að koma á vegabótum, að láta á eigin kostnað ryðja versta óveginn, sem til er á landinu — það stendur, að því er jeg bezt veit, alveg einstakt í embættismannasögu Íslands. Menn skyldu halda að vel hefði verið tekið undir þetta fyrirtæki af höfðingjum syðra, jafnþarft og það var að ryðja fjallvegina á Íslandi. þó náðu fjallvegabæturnar ekki fram að ganga fyrr en 1831. þá voru hlaðnar 110 vörður á Holtavörðuheiði og sæluhús var byggt í Fornahvammi í Norðurárdal; svo var og Sandur ruddur og þorvaldsháls. Bjarni hafði þá fengið vin sinn þorgrím Tómasson til að standa fyrir fjallvegafjelaginu með sjer. Hann fjekk þá í það marga syðra, og þar á meðal Krieger stiptamtmann og Magnús Stephensen, og segir Espólín, að þeim hafi þó ekki verið allljúft í fyrstu. Ástæðan til þess er ekki gott að sjá að hafi verið önnur en sú, að það var Bjarni Thórarensen, sem fyrstur hóf máls á og gekkst fyrir þessu fyrirtæki.

Allt öðru máli var að gegna með hegningarlagamálið. Bjarni lagði sig allan fram um að fá hegningarlögin skerpt, bæði fór hann opinberlega fram á það hvað eptir annað, og svo má þess víða sjá merki í kvæðum hans, hve þungt honum hefur legið það á hjarta. Í eptirmælunum eptir Ísleif Einarsson segir hann t. a. m.

„sá hann: við skálka miskun mest
við menn er fróma grimmdin verst“,

og í kvæðinu eptir Stephán föðurbróður sinn segir hann:

„Skýldi hann aldrei skálkum
undir skjaldarrönd tignar,
því miskunn slíka
mat hann jafna
gjöf af þjófstolnu
þjófi veittri“.

það er líklegt, að siðferðisóöld sú, sem var á Íslandi framan af öldinni, hafi ýtt undir Bjarna með að fá hegningarlögunum breytt í harðari stefnu. En annars sýnir þetta eitt með öðru, hvað lítið honum var um 18. öldina gefið. Hann sem var jafnmannúðlegur maður og hann var, og hældi Ísleifi Einarssyni fyrir að hann þekkti bresti og dæmdi þá með blíðu, hann getur ekki einu sinni aðhyllzt mannúðarhugmyndir 18. aldarinnar. Á móti þessum tilraunum snerust þeir einkum Magnús Stephensen, Bjarni þorsteinsson og

Krieger stiptamtmaður, og það er í fyllstu samkvæmni við þann tíma, sem þeir heyrðu til. Sú mótspyrna þeirra átti alls ekkert skylt við óvild við Bjarna. Þeir hefðu ekki getað farið öðruvísi að.

Á höfðingjafundinum 1841 var rætt um fyrirkomulag hins fyrirhugaða alþingis á Íslandi, og þá var það einkum þingstaðurinn, sem mönnum kom eigi saman um. Bjarni lagði, eins og kunnugt er, allt kapp á, að þingið yrði haldið á Þingvelli. Landar hans í Kaupmannahöfn, sem andlega voru honum skýldastir, Fjölnismennirnir, tóku og í sama strenginn, enda gjörir Jónas það að einu af aðalatriðunum í eptirmælum sínum eptir Bjarna, að það hlægi sig, að Bjarni hafi ekki lifað úrslit þess máls. Ástæður þær, sem Bjarni ber fram í þessu máli á höfðingjafundinum, eru harla ljettvægar, næstum því barnalegar; aðalástæðuna telur hann þá, að þingmenn af bændaflokki muni ekki geta notið sín í Reykjavík, af því að kaupmenn muni líta svo mjög niður á þá. En hjer kemur einmitt þjóðernis hugmyndin, sem var svo rík í Bjarna og Fjölnismönnunum, fram á sínu hæsta stigi; hjer kemur hún í bága við alla haganlega tilhögun — og þó á hún að sitja fyrir! Alþing hið forna þótti þeim sem fyrirmynd, ímynd allrar þjóðlegrar sjálfstæði, og því vildu þeir láta alþing hið nýja líkjast því sem mest. Það átti reyndar að verða að öllu verulegu allt annað

en það gamla, og því vildu þeir að minnsta kosti halda í forna þingstaðinn. En auk þess þótti þeim Reykjavík óþjóðlegur staður mjög, enda var hún það þá. Þeir vildu helzt láta Íslendinga sneiða sem mest hjá henni, en hitt kom þeim ekki til hugar, að einmitt með því að þjóðin gæfi sig sjálf sem mest við höfuðstað sínum, þá yrði hann þjóðlegur, og með engu öðru móti.

## III.

En þó að ástæður hans í þessu máli sjeu ekki mikilsverðar í sjálfu sjer, þá er það einkennilegt og merkilegt, hvernig þær eru settar fram. Jón sýslumaður Jónsson var honum reyndar samdóma í þessu máli, og nefndarálit minni hlutans er talið að vera frá þeim báðum, en það getur enginn vafi leikið á því, að Bjarni hefur samið það. Hann hrekur t. a. m. þá mótbáru meiri hlutans móti því að hafa þingið á Þingvöllum, að það verði að reisa þar sómasamlegt hús handa þinginu, því það sje ekki samboðið virðingu þingsins, að þingmenn búi í tjöldum eða moldarkofum — þessa mótbáru hrekur hann, segi jeg, með þessum orðum: „Þegar menn eru í leiðangri, hefur aldrei þótt nein niðurlæging að liggja í tjöldum, og á Þingvöllum vita ekki að eins fulltrúarnir, heldur hver maður, að þeir eru komnir á vígvöllinn“. Ef þetta er kancellí-

stíll, þá getur hreppstjórainstrúxið eins verið skáldskapur. Líkt þessu er allt þetta nefndarálit minni hlutans. Bjarni á að skrifa um „praktiskt" þjóðmálefni, og það verður að skáldskap í huga hans og í höndunum á honum.

En það er víðar en hjer að menn verða varir við þessar mótsagnir milli efnis og forms, og ekki að eins milli efnis og forms, heldur og í lífi Bjarna og framkomu. það kveður enda opt svo mikið að þeim, að örðugt er að átta sig á þeim í fyrstu.

Dr. Gr. Thomsen segir í „Gæu": Í einu af brjefum sínum skrifar hann meðal annars um einn ungan landa sinn — það mun hafa verið Dr. Gr. Th. sjálfur — sem gaf sig við skáldskap í stað þess að stunda lögvísi: Jeg álít það ills vita. þegar ungir stúdentar fara að yrkja áður en þeir hafa lokið prófi, það er eins og ef blómknappurinn færi að springa út, áður en stöngullinn hefði náð fullum þroska[1]).

Líkingin er nú skökk, því að embættisexamen stendur alls ekki í sama sambandi við skáldskapinn, sem stöngullinn við blómknappinn. Margir hafa náð miklum þroska sem skáld, án þess að það hafi getað komið til nokkurra mála að þeir gætu náð prófi í lögum, og það eru fæstir af þeim sem exameni ná,

---

[1]) „Gæa". 1845, bls. 196.

sem eru, eða nokkurn tíma verða skáld. En þetta er í rauninni alveg það sama, sem flestallir Íslendingar hafa sagt, og segja enn í dag; því að þó að Bjarni væri spekingur að viti, þá var hann þó barn sinnar þjóðar, og það ekki síður en aðrir. Af því að svo er ástatt hjá oss, að enginn getur verið að eins skáld, þá fer hann á hreppinn, þá hefur sú skoðun komizt inn hjá mönnum, að skáldskapurinn væri nokkurs konar andleg munaðarvara, óendanlega fallegt glingur, en þó ekki annað en glingur, og það gæti því ekki komið til nokkurra mála að nokkur maður gerði hann að aðal-lífsstarfi sínu. Að skáldskapurinn sje eitt af aðal-öflum þeim, sem ber mannkynið áfram á leið til full-komnunarinnar, að hann flytji hugsjónir vísindanna út til almennings, út í sjálft lífið, að hann eigi því full-kominn rjett á að vera talinn meira en glingur, allt annað en glingur — það vita fæstir á Íslandi þann dag í dag, eða þeir láta þá sem þeir viti það ekki. En þess verður líka að gæta, að Íslendingum er þar almennt mikil vorkun. Það er sjaldgæft, að skáld þeirra hafi verið gagntekin af straumum tímans, hug-sjónir vísindanna hafa sjaldan orðið þeirra hugsjónir, þeir hafa optast nær haft heldur litlar frjettir að segja, ef svo mætti að orði komast; þeir hafa ekki haft mikil áhrif á þjóð vora, nema að því er snertir mál vort, og þau áhrif hafa verið misjöfn, stundum mjög

góð, og stundum lakari. Önnur skáld en þau íslenzku þekkja Íslendingar ekki almennt, sem enginn getur heldur ætlazt til, en þessa afsökun hefur Bjarni Thórarensen ekki.

En vjer megum ekki gleyma því, hvernig þetta um examen og skáldskap er sagt. Bjarni hugsar þarna eins og aumasti oddborgari, en hann setur það fram eins og skáld.

Embættismaðurinn, sem gerir sjer allt far um að skerpa hegningarlögin, yrkir þessa vísu til Jóns Þorlákssonar:

Heill sjertu mikli
Milton Íslenzkra;
fyr jeg aldregi
fátækt reiddist
en hún angrar þig
ellihruman
og hindrar mig
hjálp þjer veita;
gulli gæddi' eg þig
ef jeg gull ætti.

Aðalstarf Jóns Þorlákssonar var, eins og allir vita, að yrkja og hlaða niður ómegð í nágrenninu; betri borgari en hann var, getur því vel hugsazt eptir almennum hugsunarhætti.

Það hefur almennt verið gert talsvert orð á því, hvað Bjarni hafi verið grobbinn, eins og það um tíma var alls ekki látið liggja í láginni, sem honum þótti heldur til hneysu vera. Dr. Gr. Th. drepur og á það

í „Gæu“. Jeg leyfi mjer að þýða lauslega dálítinn kafla. Hann segir þar: „En þó að hann hvorki vantaði smekk nje menntun til að meta kvæði sín, þá var það þó einkennilegt við hann, að það var eins og hann vissi ekki, hvert skáld hann var. Hann kom að staðaldri í hús foreldra minna, og þar var opt talað um hann sjálfan og ýmislegt, sem hann var við riðinn, og jeg man greinilega að hann hrósaði aldrei kvæðum sínum, og hafði þau sjaldan yfir, en þar á móti hældi hann sjer opt af ýmsu öðru, sagði frá sinni háskólaveru, hvað sjer hefði gengið vel við próf sín o. s. frv., svo að það leit opt svo út, þó ótrúlegt virðist, sem hann metti það meira, að hafa verið „kallaður inn“ við artium og annað examen, eða að fá fyrstu einkunn við lögfræðispróf sitt, en að hafa ort sín fegurstu kvæði. Líka sýndi hann opt, hve geysiminnugur hann var, t. a. m. með því að lesa upp úr sjer heil blöð úr mannkynssögu Abrahams Kalls, sem faðir hans hafði látið hann læra utan að, þegar hann var á 13. árinu, eða með því að lesa löng kvæði, 9—10 erindi, einu sinni yfir og svo að lesa þau orðrjett upp utanbókar. Eina sögu sagði hann líka opt frá stúdentsárum sínum, um það, hvernig hann og Rimestað heitinn júztizráð hafi á stúdentaárum þeirra lært auglýsingablað eitt utan að á morgnana; þeir lásu blaðið einu sinni yfir, svo áttu þeir að reyna með sjer, hvor betur stæði sig

í þessari leksíu, og sá sem undir varð, átti að veita hinum allan daginn; sjerstök verðlaun voru fyrir það, að geta þulið blaðið upp utanbókar aptur á bak. Þess-háttar yfirburði þótti Bjarna gaman að tala um, og var þá ekki laus við að henda gaman að slíkum listum, sem ekki gæfu meira af sjer. En ef farið var að tala um skáldskap hans, þá fór han helzt að tala um eitthvað annað, eða leiddi samræðuna að öðrum skáldum og skáldverkum, einkum Eddukvæðunum fornu, Shakespeare, Oehlenschlæger, Schiller, eða þá J. L. Heiberg, þó hann væri honum allólíkur sem skáld. En þó að hann þannig með vilja forðaðist að láta kalla sig skáld, þá kom það á margan hátt ósjálfrátt fram: þegar hann gekk hugsandi um í herberginu, sló takt á húsgögnin og raulaði með sinni djúpu, hljóm-fögru rödd uppáhaldslög sín: „Kung Karl den unga hjelte“, „Draum Rousseaus“, og gamalt íslenzkt þjóðlag, sem ýms af hans eigin kvæðum eru ort undir — þegar hann talaði um mikilmenni sögunnar með hálf-votum augum, og gat varla stillt sig um að tala í ljóðum (Heu mihi, quid dixi, nescio versus erat), og þegar honum loksins ósjálfrátt urðu ljóð á munni, þá kom eins vel fram hjá honum skáldið, sem í honum bjó, eins og þó hann hefði haldið langar lofræður um sjálfan sig og lesið upp kvæði sín.“ Jeg held að hjer megi taka dýpra í árinni. Einmitt það að hann, sem

annars var ekki laus við sjálfhælni, ekki hafði ljóð sín á hraðbergi, bendir á það, að skáldskapargáfa hans var það, sem hann fann að sjer var innilegast og bezt gefið. Í sálum allra manna er einhver friðaður blettur, einhver helgaður staður, sem vjer ekki þolum að mikill umgangur sje hafður um, ef svo mætti að orði komast. Það er eins og vjer sjeum hræddir um, að vjer missum það allrabezta, sem vjer eigum, ef vjer förum að flíka því, enda mun opt verða sú reyndin á; og kvæði Bjarna eru einmitt ávöxtur af hans innsta, dýpsta og bezta eðli. En auk þess er skáldskapargáfan hið ríkasta afl í sálu hans; skáldið í honum ber jafnan hærra hlut, og það opt þar, sem menn almennt mundu ekki hafa búizt við að það kæmist að til að láta neitt til sín taka.

## IV.

Þegar vjer þá fyrir fullt og allt snúum oss að skáldskap Bjarna, þá verður ættjarðarástin fyrst fyrir oss; fyrsta kvæðið í bókinni er lofsöngur um Ísland; það má enda vel vera að það sje fyrsta kvæðið, sem hann orti af þeim, sem prentuð hafa verið; kvæði þau flest, sem hann hefur um Ísland ort, hafa komizt svo inn í þjóðina, að þau eru á hvers manns vörum. En það er eptirtektavert, hvernig ættjarðarástin kemur

fram í ljóðum hans, hvað það er, sem hann gerir að yrkisefni, hvað mest kemur fram í þeim kvæðum.

Það er þá fyrst náttúra Íslands. Vjer skulum þá virða fyrir oss náttúruskáldskap Bjarna, um leið og vjer lítum stuttlega yfir, hvernig náttúruskáldskapur annars kemur fram.

Skáldin geta litið á náttúruna frá ýmsu sjónarmiði, allt eptir því hvar þeir eru sjálfir, hvað vel þeir skilja náttúruna, hve samgrónir þeir eru henni. Ljóð þeirra verða svo að meðvitund þjóðarinnar um fegurð síns lands, þau verða mælikvarðinn á hið andlega samlíf þjóðarinnar við náttúruna, hve innilegt það er.

Skáldin geta litið á náttúruna með augum trúarinnar. Náttúran sjálf verður ekki það eiginlega yrkisefni, þó að þessi skáld geti vel sjeð fegurð hennar, en hún gefur þeim að eins tilefni til að lofa þann, sem hefur skapað náttúruna og viðheldur henni. Þeir geta aldrei framleitt neitt málverk af náttúrunni, af því að þeir eru áður en nokkurn varir farnir að yrkja sálm. Sem dæmi upp á þann náttúruskáldskap skal jeg nefna kvæðin, sem Jónas Hallgrímsson hefur þýtt eptir Addison og Frimann.

Festingin víða, hrein og há,
og himinbjörtu skýin blá
og logandi hvelfing ljósum skírð!
þið lofið skaparans miklu dýrð;

og þrautgóða sól! er dag frá degi
drottins talar um máttarvegi,
ávallt birtir þú öll um lönd
almættisverk úr styrkri hönd, o. s. fr.

og svo

Líti jeg um loptin blá
— — — — — — — —
þú ert mikill, hrópa eg hátt,
himna guð! eg sje þinn mátt:
fyrir þinni hægri hönd
hnígur auðmjúk í duptið mín önd.

Svona er og náttúruskáldskapur Bjarnar Gunnlaugssonar, en með nokkrum heimspekilegum blendingi.

Frá náttúrufræðislegu sjónarmiði yrkir Jónas kvæðið „Fjallið Skjaldbreiður“. Gamla eldfjallið Skjaldbreiður og þingvallahraunið verður honum tilefni til að lýsa umbrotum þeim, sem þar hafa orðið endur fyrir löngu, þó hann geti ekki með öllu losað sig við trúar-hugleiðingar þar sem hann segir:

Hver vann hjer svo að með orku?
Aldrei neinn svo vígi hlóð:
búinn er úr bála-storku
bergkastali frjálsri þjóð.
Drottins hönd þeim vörnum veldur,
vittu barn! sú hönd er sterk;
gat ei nema guð og eldur
gjört svo dýrðlegt furðuverk.

Eins fagurt og vel ort erindi eins og þetta er í sjálfu sjer, gerir það þó ekki annað á þessum stað en trufla listaverkið.

þá geta skáldin enn fremur litið á náttúruna bæði sögulega og frá sjónarmiði hinnar sýnilegu fegurðar. Hjer er það, sem þá einkum skilur á Bjarna og Jónas, að því er náttúruskáldskap þeirra viðvíkur. þar sem Jónas opt nær sjer svo niðri, að ekkert truflar fyrir honum og lesaranum nautnina af unaðsleik náttúrunnar, eins og hann sjer hana, eins og t. a. m. í „Dalvísunum“: „Fífilbrekka! gróin grund!“ „Vorkvæðinu“: „Tinda fjalla áður alla undir snjá“ og „Sláttuvísunum“: „Fellur vel á velli verkið karli sterkum“, þá nær náttúran aldrei þannig rjetti sínum hjá Bjarna. það er þó ekki svo sem Bjarni, eins og Oehlenschlæger, sjái hina fornu náttúru landsins í þeirri, sem hann hefur fyrir augum, og gjöri hana að yrkisefni sínu. En þegar hann yrkir um fegurð landsins eða rjettara sagt þeirrar sveitar, sem hann þekkti bezt og unni mest, Fljótshlíðarinnar, þá vaknar hjá honum söknuður eptir horfnu ágæti mannanna, fornkappanna. þessi söknuður brýst fram í miðjum náttúrulýsingunum og áður en hann veit af, er hann orðinn að aðalefni kvæðisins, eins og t. a. m. í kvæðinu Fljótshlíð:

— — — — — — — — —
sólgylltan man jeg Múla
mæna þar völlu' of græna,
Merkjá, er bregður í bugður
bláar, fegurst áa.

Sat jeg opt þar sjer ypptir
undir hlíðum fríðum,
hóli' á byggður háum,
haugur Gunnars þjóðkunna.
Æ var mjer þá sem eg sæi
segginn í örva hreggi
þrjátíu einan ýtum
ótrauðan rísa móti.

Haus man eg háan reisa
Hlíðar við norðursíðu
þrákynntan þjóð í hróðrum
þríhyrning, ofar skýjum.
Leitandi, gamall grætur,
garpa forgefins snarpra;
glitfat grænt fyrir lítum
grástakk og höttinn blakkan.

Hvað mjer í huga færist
Hlíðar af stöðvum fríðum
liðinna alda áður
allt minnir mig svinnra.

Tökum „Vísurnar um Fljótshlíð“. Hlíðin er allt af að skemmast af vatnagangi á hverju ári. Bjarna tekur það sárt, sem von er, og margir mundu halda að hann einkum saknaði annaðhvort fegurðarinnar, sem er að eyðileggjast, eða gagnsins, sem hlíðin gerir mönnunum. En hann fer lengra. Jafnvel ástin á Fljótshlíðinni, æskusveit hans og uppáhaldi, er svo bundin við fornöldina, að hann getur varla minnzt ófara hennar án þess að minnast Gunnars um leið:

Gunnar hám
af haugi lítur
slóðir, fagrar fyr,
fölar orðnar,
og iðrast nú
að aptur hvarf,
að bera bein
blá við hrjóstur.

Það er ekki af neinni hendingu að lofsöngur hans um Ísland, fyrsta kvæðið í bókinni, byrjar með orðunum „Eldgamla Ísafold“, þó að hann geti annars ekki vel farið fram á, að Ísland sje eldra en önnur lönd t. a. m. Danmörk, sem þar er borin saman við Ísland, að minnsta kosti ekki sem byggt land; því að það er einmitt „gamla“ landið, sem hann elskar, eða landið að því leyti sem það heldur sjer í fornaldarhorfinu. Það er andi fornaldarinnar, sem Bjarni hefur „sogið í sig“ eins og Dr. Rosenberg kemst að orði, en ekki andi hinnar íslenzku náttúrufegurðar. Þar sem hann lýsir íslenzkri náttúrufegurð, þar getur það eins vel átt við fegurð margra annara landa, því að *hár hvítfaldur við heiðhimin*, *kristallsár*, sem *sólin gljár á*, *himinblár heiðar* og *hájökla rið* bæði geta önnur lönd haft og hafa það líka.

En það er líka annað, sem er einkennilegt við Bjarna, og sem veldur því að náttúruskáldskapur hans getur ekki orðið fastlega bundinn við neinn sjerstakan

stað, ekki getur orðið lýsing á neinu sjerstöku, sem ekki geti átt annars staðar við. Það er það, hvað gjarnt honum er til að gera yrkisefni sín úr náttúrunni að persónum. Gætum að, hvernig hann einkennir Fljótshlíðina; í stað þess að lýsa henni eins og hún í raun og veru er, þá tekur hann samlíkinguna frá mönnunum og lofið verður svona:

Á vori vænust meyja,
vafin öll í skart:
á sumri fríð húsfreyja,
flest hjá þjer er þarft;
á hausti blíð sem móðir mæt;
á vetri fegurst línklætt lík,
lífs og dauð ágæt.

En skarpast kemur þetta fram í hinu aðdáanlega fagra kvæði: „Veturinn“. Í stað þess að lýsa íslenzkum vetri með dýrð hans og dapurleik, hörku og hlákum, ánægju og ógnum, þá gerir hann veturinn að glæsilegum kappa — allt af heldur hann sjer við fornöldina! —, sem er klæddur í grásteinda brynju, hefur ísskjöld á öxlunum og norðljósa brúsk á hjálminum. Hann getur sumarið við jörðunni og hefur vorið að ljósmóður. Eins fagurt og þetta er, þá er það hreint og beint goðfræðisleg framsetning á náttúrufegurðinni, og á ekkert fremur við Ísland en önnur lönd, þar sem menn verða nokkurs vetrar varir. — Jeg læt

með öllu ósagt, hvaðan Dr. Rosenberg hefur þetta, að sál hans hafi „sogið í sig“ o. s. frv. en úr kvæðum Bjarna getur hann ekki haft það[1]).

Ættjarðarást Bjarna kemur því einkum fram sem ást til sögulandsins, sem ást á fornri hreysti, fornri manndyggð, dáð og dugnaði. Ísland á að vera vörður þess,

En megnirðu' ei börn þín frá voðu að vara,
og vesöld með ódyggðum þróast þeim hjá,
aptur í legið þitt forna þá fara,
föðurland, áttu og hníga í sjá.

„Bjarni er skáld hins innra“ [2]). Vjer höfum sjeð, hve það sannast á ættjarðarkvæðum Bjarna, þar sem hin ytri náttúra verður honum svo lítið að yrkisefni, en hinn innri kjarni er honum allt. Það sama kemur

---

[1]) Sem dæmi um skilning Dr. Rosenbergs á íslenzkum skáldskap skal jeg annars benda mönnum á, að hann hefur auk margra annara íslenzkra kvæða þýtt „Ísland farsælda frón“ eptir Jónas Hallgrímsson. Þar verður „sælunnar reitur“, „Sælernes Vang“. Sömuleiðis hefur hann þýtt „Odd Hjaltalín“ og þar lætur hann „skóga hugmynda“ þýða „Skovbilleder“! Skyldi ekki mega segja eitthvað svipað um Dr. Rosenberg, þegar hann er að fást við íslenzkan skáldskap, eins og bóndinn sagði: „Þóttust menn — og vóru ekki, vildu glíma — og gátu ekki“?

[2]) „Ljóðmæli og önnur rit eptir Jónas Hallgrímsson“, bls. XLI.

fram í þessum fáu ástarkvæðum, sem eptir hann liggja. Eins og hann hefur ekkert sagt um íslenzka náttúru, sem ekki má heimfæra upp á önnur lönd, eins og menn eru engu nær um, hvernig Fljótshlíð lítur út, af því sem hann hefur um hana ort — eins vita menn ekkert um hans kvennlega „ideal“, hvernig það hefur átt að vera; hann hefur yfir höfuð ekki í þeim kvæðum fremur en öðrum lýst neinni sýnilegri mynd. En það má segja enn meira. Öllu holdlegu er vikið til hliðar, eða algjörlega numið á brott. Það er alsendis ómögulegt, að hugsa sjer hreinni ástarljóð, eða með meira skírlífi í sjer en þessi kvæði Bjarna. En þar sem slík ástarkvæði, þar sem skáldin forðast allt jarðneskt og holdlegt, eins og heitan eldinn, optast verða hjá smáskáldum vorum að hálfvelgjulegu viðkvæmnisgutli eða meiningarlausu flangsi við mannlegar tilfinningar, þá er sá munurinn á Bjarna og þeim, að í þessum kvæðum hans kemur fram innilegasta tilfinning og dýrðlegt hugmyndaflug. Ástin milli karls og konu verður hjá honum að eins andlegt samband; enda í kvæðinu „Kysstu mig aptur“ er það sál hans, sem fjötrast við að kyssa stúlkuna, ekki andlegri athöfn en það annars er að kyssa stúlkur. Og það er enda ekki nautn jarðnesks lífs með unnustunni, sem hann yrkir um, eða óskar eptir í sínu langfrægasta og stórkostlega

ástarkvæði „Sigrúnarljóð“ eða í vísunni „Kysstu mig“, heldur er það nautn dauðans og nautn andanna, þegar þeir hafa losazt við jarðneska náttúru. Í „Sigrúnarljóðum“ hugsar hann sjer, eins og alkunnugt er, að unnustan sje dáin, og hann fylgir því fast fram að hún sje eins fögur, enda fegri, þegar hún er dauð, en hún hafi verið meðan hún var lifandi. Það getur því ekki komið til neinna mála að hann vilji skilja við hana, þó að hún sje liðin, og hann biður hana að koma um vetrarnótt og vekja sig. Þegar hann sje vaknaður, þá á hún að snúa snjóköldum faðmi að hjarta hans, kreista fast brjóst að brjósti honum, þangað til hann losist líka úr fjötrum líkamans, svo hann megi fylgja henni. Svo eiga þau að dansa á vetrarbrautinni og blunda á snjóskýja bólstrunum! — Lengra verður ekki komizt — og þetta er þó eitt af langbeztu kvæðum Bjarna Thórarensens.

En einmitt þessi innilegleiki, þessi eptirgröptur inn á við, inn að því andlega eðli mannsins gerði það, að Bjarni orti önnur eins erfiljóð og hann gerði, orti betri erfiljóð en Íslendingar hafa nokkurn tíma fengið að sjá fyrr eða síðar. Þar söknum vjer heldur ekki, eins og í hinum kvæðaflokkunum, sem jeg hef minnzt á, hins sýnilega, vjer þráum þar ekkert málverk nje myndasmíði. Dauðinn þurkar hvort

sem er drættina út, og gröfin felur „formurnar". Ekkert skáld vort virðist heldur að hafa getað eins vel sætt sig við dauðahugsunina eins og Bjarni, engum verið eins mikil alvara, eins og Bjarna, þegar þeir hafa talað vel um dauðann. Jeg veit það mjög vel að erfiljóð Bjarna standa langt ofar mínu lofi. Ef það væru milliónir manna, sem læsu kvæði hans í staðinn fyrir nokkrar þúsundir, þá mundu líka milliónir manna vera samdóma um það, að kvæði eins og „Oddur Hjaltalín" og þá ekki síður „Sæmundur Holm" væru ein af perlunum í ljóðaskáldskap nítjándu aldarinnar. Jeg skal því að eins leyfa mjer að benda mönnum á tvennt, sem er einkennilegt við hin beztu erfiljóð hans. Eptir hvaða menn eru þessi erfiljóð ort? Eptir þá menn, sem voru sjálfum sjer verstir, ef það er vont að „binda ekki bagga sína sömu hnútum og samferðamenn", ef það er vont að láta ekki kúgast af oddborgaraskapnum, sem hvervetna er umhverfis mann í heiminum, en leyfa sjer að lifa eins og manni er eðlilegast, ef það er vont, að láta ekki steypa sig um og gjöra allt annað úr sjer, en maður er eptir eðlisfari sínu. Það er ekki mikill vandi að sjá, hvernig á þessu stendur. Bjarni var sjálfur einn af þessum mönnum; hann gat þar trútt um talað, því hann þekkti slíkt af eigin reynslu. Sum af þeim kvæðum gat hann líka eins kallað erfiljóð eptir sig sjálfan, eins og eptir

aðra. Hve hætt Bjarna er við að miða við sjálfan sig og sitt líf, þegar hann ætlar að einkenna líf annara manna, sjezt bezt á erfiljóðum hans eptir Magnús Stephensen, því áin, sem hann þar dregur líkinguna af, á miklu fremur við sjálfan hann en Magnús Stephensen.

Og hitt er þetta: Í stað þess að vera skáld hins sýnilega, í stað þess að leiða myndir fram fyrir augu lesarans, er Bjarni skáld sálarlífsins, skáld mannlegrar sálar, þar sem hún er í baráttu við veröldina fyrir utan sig. Þetta kemur skarpast fram í erfiljóðum hans, eins og eðlilegt er. En vegna þess hefur hann þar, meir en nokkurt annað íslenzkt skáld, komið að ýmsum sannleik, sem hefur ævarandi almennt gildi. Kvæðið eptir Sæmund Holm er nær því eintóm spakmæli, líklegast hin dýpsta speki, sem enn hefur komið frá penna nokkurs Íslendings.

Bjarni er um fram allt skáld, en hann er ekki listamaður að sama skapi. Jeg vonast eptir að það sje mönnum þegar ljóst af því, sem jeg hef sagt um hann, að hann sje skáld hins innra, ekki hins ytra, sýnilega. Það kemur og fram í kvæðum hans, að því er til kveðandi kemur. Hann yrkir optast undir fornyrðalagi, og það allopt nokkuð óreglulega. Að því leyti hefur hann engar nýjar brautir rutt, en skilið það alveg eptir handa Jónasi Hallgrímssyni. Hann

kann ekki einu sinni að yrkja undir hexametri á íslenzku, og það hefur enginn Íslendingur gert, svo jeg viti til, fyr en Jónas Hallgrímsson gerði það. Hvað kveðandi viðvíkur, er ekki heldur neitt af kvæðum hans snilldarverk, nema kvæðið „Sortanum birta bregður frí“.

---

## ÍSLANDS MINNI.

(1. útg. bls. 1—2.)

---

Eldgamla Ísafold,
ástkæra fósturmold,
fjallkonan fríð,
mögum þín muntu kær,
meðan lönd gyrðir sær
og gumar girnast mær,
gljár sól á hlíð.

Hafnar úr gufu hjer
heim allir girnumst vjer
þig þekka' að sjá;
glepur oss glaumurinn,
ginnir oss sollurinn,
hlær að oss heimskinginn
Hafnar slóð á.

Leiðist oss fjalllaust frón,
fær oss opt heilsu tjón
þokulopt ljeð;
svipljótt land sýnist mjer
sífellt að vera hjer,
sem neflaus ásýnd er
augnalaus með.

Öðruvís er að sjá
á þjer hvítfaldinn há
heiðhimin við;
eða þær krystallsár,
á hverjar sólin gljár,
og heiðar himinblár,
hájökla rið.

Eldgamla Ísafold,
ástkæra fósturmold,
fjallkonan fríð,
ágætust auðnan þjer
upp lypti, biðjum vjer,
meðan að uppi er
öll heimsins tíð.

## Sólaruppkoman.

(1. útg. bls. 3—4.)

Roða þá sólar ríða
rósfögru sje jeg ljósi
háa turns á húnu,
hringlóttri' að entri nóttu,
og sjer flýta' í fljótri
fagurreið um leiðir
austurs allt til vesturs,
yndis mjer vakna stundir.

Flýgur mjer fljótt í huga,
fjalls hve tindar allir
heiðbláan himin viður
háskörum sólu fáðum
aldinni' á Ísafoldu
yppta snævi typptum,
og sól á Seljalandsmúla
sjóvi náinn glóir.

Fljótshlíð fagra síðan
finnur, og við hana minnist,

þríhyrning þeygi nýjan
þjóðum í gömlum hróðrum;
blöndnum hætti blandar
blátinda málmi Sindra,
og fríðu fjöllin syðri
fögrum blossa kyssir.

---

## Fljótshlíð.

(1. útg. bls. 4—5.)

---

Enn eru mjer í minni
merkur fríðar, er lýðir
áður yrktu miðli
ár Grjóts og Markarfljótsins;
sólgylltan man jeg Múla
mæna þar völlu' of græna,
Merkjá, er bregður í bugður
bláar, fegurst áa.

Sat jeg opt þar sjer ypptir
undir hlíðum fríðum,
hóli' á byggður háum,
haugur Gunnars þjóðkunna.

Æ var mjer þá sem jeg sæi
segginn í örva hreggi
þrjátíu einan ýtum
ótrauðan rísa móti.

Haus man jeg háan reisa
Hlíðar við norðursíðu
þrákynntan þjóð í hróðrum
þríhyrning, ofar skýjum.
Leitandi gamall grætur
garpa forgefins snarpra;
glitfat grænt fyrir lítum
grástakk og höttinn blakkan.

Hvað mjer í huga færist
Hlíðar af stöðvum fríðum
liðinna alda áður
allt minnir mig svinnra.
En þeir lækir, hvar ljek jeg,
lágar, hólar og bólin,
ungdóms, um of ei langar,
endursýna mjer stundir,
bezt þá allt gegn mjer brosti
brosti' eg svo aptr hins vegar.

Tvisvar segja týrar vísir
(trúi' eg) börn vera fíra,

í æsku' og elli breyzkri;
óska' eg mjer svo verði;
heilsaði' eg heimi glaður
og hann með ást þá kyssti,
eilífur guð mjer gefi
geði með sama að kveðja.

---

## Drykkjuvísa.

(1. útg. bls. 160—161.)

---

Biðillinn hleypir hart á stað,
hól og grund sem fugl yfir líður,
hýbýlum sinnar unnustu að
elding skjótar þjótandi ríður.
En fyrir slíkan óþarfnað
aldrei skal jeg hvíld minni raska;
því hjá mjer kúrir æ í hverjum stað
:|: mín hjartans ástarkærasta flaska. :|:

Hlaðið þá kominn í hann er,
öllum gleymir hann svaðilförum,
launin hyggur beztu búin sjer
blossa meyjar skínandi' á vörum.

Kosti svo þurrum eptir eg
aldrei held að sækist í fjarska:
svörtum því úr munni um sætan lög
:|: synja mun mjer varla mín flaska. :|:

En þegar kominn er hann í rann
á öllu sjónar, nema henni, missir,
af gleði' og ást á milli heima hann
hýra meyju faðmar og kyssir.
Eg þori játa eins mitt geð,
því annað ei í nánd eða' í fjarska,
tár þá víns úr pyttlu jeg totta, fæ sjeð,
til að muni, nema mín flaska.
Til er ekkert, nema mín flaska.

---

## TILSKIPAN 11. MARZ 1633.

(1. útg. bls. 6—7.)

---

Áður en afi Skjaldar
og Óðins faðir lifðu,
stálbúnir fóru fírar
að finna Suðurheima.

Hrímið þá hittir sólu,
hjaðnar það og eyðist;
allteins hreystin harra
hlánaði' af kulda ráni.

Í silfurfjölluðum feldi
fögrum hrímsteinum settum
vísirinn Norðurvega,
sem Vetur hjer nefnum,
ísspjóti íturhvössu
ónýta seggi bítur,
málmskjaldar menn ógilda
mundriða slær að grundu.

Röðull þá líður um leiðir
ljósar stjarnaheima,
foldin barminn breiðir
blíðlega þá á móti,
ótal hana út um
alla sjer fljótlega skjóta
sólar börn feikna fögur,
en föst þó við grundu.

En næturstillir sterkur,
er stýrir Norðurvegum,
buri sjer mý sem marga
í manns huga elur,

og dætur hans um himna
svo hraðfluga þjóta,
fullt svo fagrar að líta
sem foldar börn og röðuls.

Hvorn skal nú meta meira,
manns huga, ver eður jarðar?
skulum vjer rækja ríkar
rós, en norðurljósin?
eða virða meir vísi
vellystar eður hreysti?
Hún oss heldur í gildi,
hin oss linar til bana.

---

## Kveðja

til Árna Helgasonar, er hann fór alfarinn frá Kaupmannahöfn til Íslands 1808.

(1. útg. bls. 64—66.)

---

Hvort eru Hafnar
hallir þjer leiðar?
Skulum við, vinur,
skildir að öllu?
Eru þjer jöklar
inndælli vorðnir

blíðum Dana
blómsturvöllum?
Ætlar þú Íslands
aptur að vitja?

Hafa oss skilnað
skapað nornir,
óvíst er hvenær
aptur hittumst.
Læt jeg þig, halur,
ljóðum kvaddan
meður ummælum
allskyns heilla.

Flytji þig Rán
í faðmi mjúkum;
hallkvæmir vindar
hlaup þjer greiði.
Ísland óskaddan
upp þig taki
í mjallhvíta
móður arma.
Lif þú þar lengi,
láni gæddur,
að gagni gumum,
en gleði þjer sjálfum.

Mæli jeg um,
að morgunröðull,
hvert sinn, er Ísa
heim upp lýsir,
grafnar þjer mínar
á gullinhveli
ljómandi færi
lukku óskir.

Mundu því, halur
er himin of morgna
glæðir Skinfaxi
geislavöndum,
að ljóni bitils
á leiptranda makka
brennur ástkærust
kveðja frá Bjarna.

— —

## Skóggangan.

(1. útg. bls. 62—64.)

---

Á mildri morgunstund
af mjúkum vakinn blund
hryggðum dagsins hugði' eg að lóga.

Af bingi brátt jeg steig,
búinn að taka leið
út í fagurfrævaða skóga.

Mjer hvarf í huga þá,
hvað Hrólfur innti frá:
„Farið ei, farið ei í koldimma skóga.“
Aðvörun ekki sú
eg trúði gilti nú,
því blika dags gaf birtuna nóga.

Og síðan út jeg fór —
í fögrum sungu kór
fjaðurskreyttir fuglar á kvistum,
svo nefin settu snögg
í sæta hunangs dögg,
nærðust hreinir á hreinustu vistum.

Jeg fremur lagði leið —
úr limi á fögrum meið
silfurlitir sigu þá hnappar,
þó sífellt þessa á
þúshundruð litum frá
sem bogi regns í bláfossi vappar.

Um himins austurveg
öll skýin fagurleg
Dellings vanga dreyrðu af roða;

öll skógar ilmablóm
upp fögrum luku góm
mæran dags að minnast við boða.

Til vesturvegs jeg sá,
varð mjer þar litið á
sólu fagra svífa með runni,
með hvítu mjalla hrein
mjúkt blönduð rauða skein
sem vestanröðull vingist með unni.

Rauðhvít frá runni gekk
rósfögur sólin þekk,
áfram hjelt svo austur mót roða,
sem á sólar yndisbraut
enn fleiri geislum skaut,
fagran girntist fagra að skoða.

Sem fram gekk sólin skær,
svo færðist mjer hún nær,
glatt hún skein, en glapti ei augu;
mynd hennar man jeg þá
í meyjarlíki brá,
sem stigi Venus vatns upp úr laugu.

Þá fuglar fagran róm
fjölguðu, dögg um blóm
þúsundlitum þusti nú bogum,

ilmrósir uku þá
angan; um loptið brá
miklu fegri morgunkongs logum.

Allt heims og himins bjart
hneppt leit jeg saman skart
blossa meyjar á mjallhvítum barmi,
mig heima millum þá,
man jeg að segja frá,
sprundið óður spennti' eg mjer að armi.

---

## HERHVÖT.

(1. útg. bls. 31—33.)

---

Skalat halur hræðast dauða
helgan fyrir föðurláð,
afla geði ei skal nauða,
að aldri gamals fær ei náð.
Halur lifað hefir nóg
hver, sá föðurlandi dó;
minning hans hjá mönnum lifir,
þá mold er komin bein hans yfir.

Ei er sorgar efni' að fara
frá eymd og vonzku það í land,
þar heiðri vafins hetju skara
hittum fyrir stórt samband,
röskvan *Tell* og *Regúlus*,
Ragnar, *Kódrus*, *Decius*,
og alla finnum ýta góða,
sem allra voru prýði þjóða.

Betra' er ei á beð að síga
og bíða sóttu kvalinn hel,
en í val með hraustum hníga
harmalaust við kúlna jel;
bitur er dauði sóttar seinn,
sjest hann aldrei koma einn,
fylgja' honum hræðsla, hrelling, pína,
herdauði' aleinn tekur sína.

Frægur er sá fremstur gengur
feigðar út í jelin hörð
og, þá vinnst ei lífið lengur,
litar blóði græna jörð.
En sá huglaus undan snýr
ógn sjer dauða þyngri býr,
aldraðir munu' að honum glotta,
ungbörn hann og konur spotta.

Út bjó drottinn ægishjálmi
augu prúðra, svo að þá
dauða þýtur ör af álmi
af ótta stundum fer hún hjá,
leitar hún ætíð fremst og fyrst,
að fái' hún einhvern hræddan nist;
brjóst ódeigt við hættu harðnar,
huglaust bak er æ án varnar.

Sá í stríði líf sitt lætur
langa' og hrausta eptir vörn,
öllum heitir hann ágætur,
hann munu lofa barnabörn;
lifi' inn hrausti, hann mun fá
heiðraðan sig af öllum sjá,
geta svo fyllt gamals vetra
gott er víst, en ekki betra.

Fram því, bræður, förum teitir
fram í geysta oddahríð,
dauðans eða lífs á leitir —
lífið sjálft er eintómt stríð.
Halur lifað hefir nóg
hver, sá föðurlandi dó,
minning hans hjá mönnum lifir,
þá mold er komin bein hans yfir.

---

## Herganga.

(1. útg. bls. 34—35.)

---

Sortanum birta bregður frí,
brýzt í austri roði' um ský,
fagur um haga
dregur dagur,
dynur hanafjöðrum í;
vakið ósmeikir, vinir, því,
vakið og takið stál og blý;
mál er óveilum
hölum heilum
harða' í sverða rimmu' á ný.

Vek jeg ei mjúka mey að sjá,
mjaðar eður að glaðri lá,
heldur hildar
halda ómildan
hrikaleik yfir bleikum ná;
þá er spúir blýi blá
brúður óprúð úr munni grá,
senn munum finna
og sennu kanna
svangra stingja byssum á.

Dragið óragir bitran brand,
boðið nú fjendum andar grand,
greiðið ótrauðir
dauða mót dauða,
dauðir áður en kyssum sand.
Hefðarlegt er hermanns stand.
Hreysti ei bresti vort samband.
Heiður er fríður,
bræður blíðir,
blóði föður- vernda -land.

---

## Sjáland og Ísland.

(1. útg. bls. 8—10.)

---

Þegar hárri höllu í
heyri' eg söngva gjalla
og bæði dans og gígna gný
til gleði oss að kalla —

Þegar lít jeg fögur fley
flýta rás með ströndum
og í hægum hlaupa þey
að Hafnar þreyðum löndum —

þegar lopt og hauðrið hlær
hýrum þakið blóma
og sæla unun sjónum fær
sunnu fegrað ljóma —

þegar ljósar líða' um grund
liljum fegri sætur
og, gyðjum líkar, glansa sprund
í guðvefsklæðum mætum,

yndi þess'ra ekkert mjer
orkar neitt að gefa;
því með glaumi þrungnar hjer
þjóðir hryggðir sefa.

Skipin fögru færa sótt,
fyllt með eitri sætu,
frá eystri heimsins álfum skjótt,
auðgum gulli mætu.

Blómgan Sjálands víðan völl
vænni hygg jeg ekki,
en Íslands háu, helgu fjöll,
hulin silfurmekki. .

þetta held jeg: Fróni fjöll
fegurð sömu veita,
sem nef og augu' á auðarþöll
andlit fagurt skreyta.

Fegurð neita fljóða hjer
ferst mjer ekki' að gera,
en hjarta þeirra' og hendur mjer
hyggst nær ískalt vera.

Sæmri mun ei sínum ver
silkiklæddur sprakki,
en meyja hrein og hýrlynd er,
hulin vaðmálsstakki.

Af rökum þessum hygg jeg, hjer
hlýði' ei frónskum vera;
bezt mun þó, hver sjálfum sjer
segi, hvað skal gera.

---

## ÍSLENZKT *FATIS AGIMUR.*

(1. útg. bls. 137.)

---

Eru oss öllum
í árdaga
ill eða góð
örlög sköpuð.
Væla oss forlög
sem flugu ljós,

er hún um flöktir
og ekki finnur
fyr hana funi hefir
fjörvi rænta.

---

## SAKNAÐARSTEF
við för Hallgríms Schevings til Íslands 7. júní 1810.

(1. útg. bls. 66—69.)

---

Inni' og á brautum
yndis jeg leita,
og það hvergi hitti,
sízt Scheving skildist
skjótt mjer frá sjónum,
þá bar hann alda til Íslands.

Dellingur aldrei
dyra fagrahvels
trúi' eg tvisvar vitjaði,
að jeg ei hefði
við Hallgrím rætt
þrisvar þess í millum.

Ráða hann æskti
og ráða hann knátti
rúnar Rögnahropts;
reist jeg og fáði,
því ráða jeg nje kunni
ginnmæli goða.

Þá jeg á kvöldum
þreyttur af störfum
Hallgrím fór að hitta,
óþreyttur jeg gjörðist,
sem endurvaknaður,
af ens hyggna manns hjali.

Sem vatn firrist eldur
vjelræði fjónaði
sá inn horski halur;
hugprúðum manni
hugði' hann smán vera
að liggja' í læskorum.

Fósturjörð sína
frjáði hann, sem jeg,
öllum huga af.
Í dönskum Íslending
dug um fólginn
hugði' hann ei heldur en jeg.

Fátt er þetta
af fjölmörgu góðu
þess ins mæta manns.
Mart er annað,
mjer sem veldur,
að sakna jeg seimnjarðar.

Fátt jeg freistaði,
fátt jeg hugsaði,
fátt mjer unan ók,
að hefði' 'eg ei áður
hann til kvaddan
á mín einkamál.

Við hvern skal jeg ræða,
við hvern skal jeg rynda,
eður einkamálum etja?
Hvar má jeg una
að mjer fránumdum
míns yndis aðila?

Fjallgirð fósturjörð,
frá mjer þú nemur
þriðjung þess, er gafstu.
Sjálfan mig taktu,
og svo mig færðu
nær málvini mínum.

---

## Björn að baki Kára.

Úr brjefi til Geirs biskups Vídalíns og Sigurðar Pjeturssonar, ort 3. dag júní 1812.

(1. útg. bls. 166—168.)

---

Víst hefur Birni, veit jeg, drótt
valið löstun sára,
að hann í sennu skjalda skjótt
skauzt að baki Kára.

En rekkar mega ráða beint
af reynslu margra ára,
að margur hefir raumur reynt
að renna' að baki Kára.

Þó Bessa væri minna magn
mundar, heldur en vára,
principalnum gjörði' hann gagn,
þá gekk að baki Kára.

Farin týra trúi' eg sjest
tryggðin fyrri ára,
því rekkar sumir reynast verst
þeim renna að baki Kára.

þykir sumum mönnum mest
  mótgangs vera bára,
að þeir ekki fá sinn fest
  fót að baki Kára.

því afla vissi' eg margan mann
  metorðanna hárra,
er öðlazt hefði aldrei hann
  utan að baki Kára.

En gleymdur síðan velta vann
  í virða tölu smárra,
óðar en herrann aptur rann
  út frá baki Kára.

Bessa tel jeg helzt í hag,
  að hetjan vorra ára
Bóni sjálfur berst í dag
  að baki Sluddu-Kára.

Líka munum *Holbergs* hjal,
  að hver einn stórra og smárra
í geira sennu *general*
  gengur að baki Kára.

*Quicquid sit* — jeg man ei meir
af mælgi slíkri' að pára;
búi Sigurður, Bjarni' og Geir
að baki guðs og Kára.

---

## Pensill minn.

(1. útg. bls. 151—153.)

---

Skáldið:

Heyrðu, minn pensill, hönd í komdu' á mjer,
því hefi' eg þjer
verkið nú hugað vandasamast allra,
það, að mála þá, er sástu ei,
en það er mey,
sem meyja Íslands mjúk er fegurst snjallra.

Pensill:

Hvernig þess sprunds jeg litum sýna ásjón á,
sem aldrei sá?
Menn slíks af pensli aldrei kröfðu áður.

Skáldið:

Ljúfur minn, pensill, láttu eptir mjer;
það lukkast þjer,
ef verkið gjöra vilt að mínum ráðum.

Hafa fyrst láta hana skaltu arm
og herðar, barm,
meiri' en Venus, minni en Kybebe,
en útlit, vöxt og andlitisins lag
þjer áttu í hag
velja hjá gyðjum: Venus, Júnó, Hebe.

Svo skaltu ennið, augun snör og blá
þjer einni hjá
fríðeygðri Júnó fá að eptirmynda,
en nefið, höku henni skaltu á
og hlýra smá
Venus og Hebe vænar saman binda.

En þegar munninn mynda hennar skalt,
þá mun þjer allt
forgefins reynast, færð sem í að velja,
þó skaltu líkan Hebar mynda hann,
en hvar jeg fann
varanna lit, jeg verð þjer nú að telja.

Hamförum þá minn hugur áðan reið,
hann herti skeið
sólbrunnum Afra suðurlands með ströndum
kórall í fjöru þar jeg sandi sá
að svalur lá,
kvöldsólar rjóður roðagylltur bröndum.

En svo að fagran farfann kinna sett
þú fáir rjett,
að líkan segi lýðir þeir, er skoða,
þá júnídrykkinn drekkur röðull sjer
svo dýfðu þjer
í samankveyktan kvöld- og morgun-roða.

---

## Vísa.

(1. útg. bls. 180.)

---

Eggert skaltu hjálpa —
annars hinn gamli
jötunn Skúli skal
þjer skella' um eyru,
og heimakoma
og hverskyns plágur
út þjer andskota.
Eggert skaltu hjálpa.

---

## Staka.

---

Á nóttu niðmyrkri
náfölum draugum

leit jeg lönd
og lá um fyllt —
glóandi þeirra
glyrnur tindra,
og ógna mjer
ámátkum hnefum.

---

## Til Jóns Þorlákssonar.

(1. útg. bl. 140.)

---

Heill sjertu mikli
Milton Íslenzkra;
fyr jeg aldregi
fátækt reiddist
en hún angrar þig
ellihruman
og hindrar mig
hjálp þjer veita;
gulli gæddi' eg þig
ef jeg gull ætti.

---

VIGFÚS „FÓTUR“ KVAÐ:

Líf er æðum flúið frá,
farinn líkamskraptur.

*Bjarni svaraði:*

Skrokknum lifir ekkert á,
utan tómur kjaptur.

---

## LAUSAVÍSUR.

---

I.

(1. útg. bls. 181.)

Upplýsing hálfgjör utan við manninn
ítroðin gikki, sem stælir þá frekt,
lausingja meðhald og þjófnaðar, þanninn
þrældómur, stýrenda smáfjas óþekkt,
oflæti tignað og eigingagns prís
okkar er helvíti, sagt paradís.

---

II.

(1. útg. bls. 179.)

Konungs þeim, er kross á brjósti klár sjer hreykir
óska jeg að enginn þjaki
og ekki drottins kross að baki.

Öðruvísi óskin getur orðið varla;
bakkrossinn því beri' hann illa,
brjóstkrossinn mun sæmd hans spilla.

## Sálmur,

á fagnaðarhátíðinni 1817.

(1. útg. bls. 98—100.)

---

Drottinn guð, það þá
þinna fyrst var boða:
„Verði ljós.“ — Brátt brá
blæju myrkra voða;
náði þá fold fá
fyrsta morgunroða
skæran að skoða.

Á sinni kvað lof leið
lífleg morgunstjarna,
ungra sóla' um háheið
hjörð nýskaptra barna
ókennt þá um þaut skeið,
þinn veg samdi gjarna,
himnar við hjarna.

Samt þjer nóg ei er
augum holds að lýsa,
gneista frá gafst þjer
guðdómseldsins vísa
skepnu, þá skært sjer
skin í öndu rísa,
hold sem fjekk hýsa

En það skýlu upp dró
opt fyrir ljósið þetta,
eigi vildir þú þó
þinni miskunn ljetta;
son þinn, guð, er sál bjó
sælu himins stjetta,
leið lærði' oss rjetta.

Af henni öld þá
að öllu náði skeika,
ljósið jörð enn á
orðsins ljeztu kveykja,
þurfum því ei fet frá
ferli þínum reika,
þó vitum oss veika.

Lát oss það ljós frítt
lengi veginn sýna,

að það megi æ nýtt
oss í myrkri skína,
og oss loksins það þýtt,
þá hjervistir dvína,
hefja' í höll þína.

Ljóssins faðir, lof þjer
lönd og vötnin inni,
og allt, hvað um fold fer,
fagni miskunn þinni,
engla' og stjarna hátt her
hljóminn saman tvinni.
Lof þitt ei linni.

-- -- -- --

## Sálmur Davíðs
tuttugasti og þriðji.

(1. útg. bls. 94—95.)

---

Herrann er minn hirðir,
hvergi mun mig bresta,
lætur á grænum grundum
mig ganga til beitar

og mig leiðir ljúfur
lind að rennandi drottinn,
velur mjer svo vökvann
að vatnsbóli hreinu.

Endur- hann -hressir minn anda
og á rjetta leið færir
drottinn mig sjer til dýrðar,
og í dimmum þó væri' eg
ráfandi dal, ei dimmu
nje dauða jeg óttast,
því jeg veit þú ert hjá mjer,
þín mig aðstoð hughreystir.

Á borð fyrir mig breiðir
og býr mjer svo dagverð
öndverðum fyrir augum
óvina minna;
hóglega mjer þú um höfuð
hreinu viðsmjöri rjóðrar
og bráðlega byrlar
bikar minn fullan.

Mun, það eptir er æfi
ólifað minnar,
gæzka góð og miskunn
ganga mjer í sporum.

Mun jeg æ, unz aldir
allar af jörðu hverfa,
í höllu drottins hárri
heimili eiga.

---

## Kvæði Davíðs,

eptir Sál og Jónatan.

(1. útg. bls. 95—98.)

---

Ýtar hinir æðstu
Ísraels barna
hnigu til heljar
á hæðum þínum.
Hvernig eru voldugir
að velli lagðir?

Látið ei guma
í Gað það frjetta,
hermið það ei
á Askalons strætum,
að dætrum Fílista
ei dátt það verði,
eður að gamni
óumskornum.

Verðið að hrjóstrum
hálsar Gilbóa;
njótið aldrei regns
nje daggar.
Gefist þaðan aldrei
gróði til fórnar,
því þar voru skildir
skornir hermanna,
og skjöldur Sáls
í sundur höggvinn,
sem væri hann aldrei
viðsmjöri seigður.

Aldrei missti
álmur Jónatans
harðskeytur þess,
er hæfa skyldi.
Stakkst aldrei Sáls
sverð í slíður,
að það ei drypi
dauðablóði
og feiti frá hermanna
hjartarótum.

Voru þeir Sál
og son hans Jónatan

ljúfir og ástgir,
meðan lifðu báðir.
Skildust ei heldur
skatnar í dauða,
örnum ljettfærri,
ljónum sterkari.

Syrgið Sál,
svannar Ísraels.
Yður hann ríklega
rósalit klæddi
og gæddi gulli
og gersimum.

Hversu eru voldugir
í val fallnir?
Hversu mátti
á hæðum Gilbóa
hníga til heljar
hraustur Jónatan?

Sárt jeg þig harma,
hlýri Jónatan;
ætíð mjer að gleði
og unaði varstu.

Elska þín var mjer
ætíð meiri
en meyjarinnar
mjúkar ástir.

. .

Hversu eru voldugir
í val fallnir,
og hermenn hraustir
hnignir til moldar?

---

## JÓN JÓNSSON,

aðjúnkt við Bessastaðaskóla. † 1817.

(1. útg. bls. 77—81.)

---

Heyri' eg hljóm
í húmi lágan
áttu úr
aldurtila,
sunna hvar
svefns of leitar,
og dagur deyr,
en drottnar nótt.

Er sem á
útsynningsklökkum
leiki náklukkur
á loptramböldum.
Unnir blár
ómi dimmum
flytja feigðarljóð
fjarðar skerjum.

Er sem mjer
í eyra hvísli
dauðafrjett
dapur hljómur.
Andar kalt
útsynningur,
sem yfir lík
liðið hafi.

Kveður hann
sig kominn vera
snjófgum frá
Snæfellsströndum
og Ægi þar
undir hömrum
fjörvi Jóns
of farið hafa.

Var hans önd,
viðjum meðan
líkams var reyrð,
lausnar biðjandi;
því mörgum meir
moldar fjötrum
ánauðug hjelzt,
svo ei sín naut.

Var hún sjálf
af sínu eðli
fljótskyggn og
fröm til góðverka,
hreinlynd og
hugarprúð,
guð og allt
gott elskandi.

Er hún nú frjáls
farin að hitta
ljóss og lífs
lávarð helgan.
Í vilja hrein,
viti algjörðu,
í sælu sjer
sjálf hún stýrir.

Er hún nú laus
líkams mála,
saklaus og góð
fyrir sínum drottni,
um aldir sem
engum manna
á ósjálfráðu
sök mun gefa.

Bíður hún hrein
unz hitta fær
bústaðinn forna
betri og fegri,
frá unnum blám
endurrisin,
sem veröld fyrst
úr vatni reis.

En hann mun,
unz það verður,
blunda mjúkt
á mararbotni,
fótum hjá
fósturjarðar,
er í dauða hann
umfaðmaði.

Sje jeg rof
á svörtu skýi,
en stjörnu staka
standa' í rofi,
eins og dag
eilífðar sjái
glugga gegnum
grafar skína.

---

## ÞJÓFABÆN.

(1. útg. bls. 165—166.)

Veit, að jeg sje, faðir, frí
frá því heimskupari' að stela;
annars hlytist illt af því,
ef mistakast kynni' að fela;
og þó máske þetta tækist,
þá í sturlun samt jeg rækist.

Samvizkan, það segja menn,
sefur opt hjá gömlum þjófum,
svefnstyggari er hún enn
óvönum hjá drísilbófum.
Lát mig aldrei læra' að stela,
svo læra þurfi' eg ei að fela.

Áður var fyrir ýtum brýnt,
eilífð hörð að þjófum væri,
nú er oss það sjaldnar sýnt,
samt jeg tek því ekki fjærri,
óráð nefnast mönnum mega
mikið undir henni' að eiga.

Eg það heyri, ei til neins
á þig sje, minn drottinn, kalla;
það jeg gjöri því að eins,
það að gjöra sje jeg alla.
Einhver kynni yfir því dylgja,
ef jeg landssið vildi' ei fylgja.

---

## ÍSLAND.

(1. útg. bls. 60—61.)

---

Þú nafnkunna landið, sem lífið oss veittir,
landið, sem aldregi skemmdir þín börn,
hvert þinnar fjærstöðu hingað til neyttir,
hún sje þjer ódugnaðs framvegis vörn.

Undarlegt sambland af frosti og funa,
fjöllum og sljettum og hraunum og sjá,
fagurt og ógurlegt ertu, þá brunar
eldur að fótum þín jöklunum frá.

Fjör kenni' oss eldurinn, frostið oss herði,
fjöll sýni torsóttum gæðum að ná,
bægi, sem kerúb með sveipanda sverði,
silfurblár ægir oss kveifarskap frá.

Þó vellyst í skipsförmum völskunum meður
vafri að landi, jeg skaða ei tel,
því út fyrir kaupstaði íslenzkt í veður
ef hún sjer vogar, þá frýs hún í hel.

Ef læpuskaps ódyggðir eykjum með flæða
út yfir haf vilja læðast þjer að,
með geigvænum logbröndum Heklu þær hræða
hratt skaltu aptur að snáfa af stað.

En megnirðu' ei börn þín frá vondu að vara,
og vesöld með ódyggðum þróast þeim hjá,
aptur í legið þitt forna þá fara,
föðurland, áttu og hníga í sjá.

---

## Delavísur.

### I.

Mig í fyrra maður bað
mat fyrir sig að stela,
en jeg gjörði ekki það,
því örðugt þótti' að fela.

Maðurinn reiddist þá við það
og þandi' út víðan bela,
síðan nam mjer siga að
sínum kontórdela.

---

## II.

### *Delaóður.*

Oss að nefi illum þefi
eitt sinn brá,
þar í sefi seppi lá,
rann honum slefa kvöldum kvefi
kjapti gráum frá
deladögum á.

Hrygginn sveigir hann og teygir
hauðri frá,
rakkabeygjan þyrst var þá,
vill samt eigi vatnið greyið,
vappaði þar til á
fötu fjekk að sjá.

Hafði' hana setta Gunnlöð glettin
grasið á,
Suttungs mett af mærri lá;

í hana detta apturþjetta
enda sín ljet, þá
laust hún líf nam fá.

Svo Gunnlaðar setti glaður
seppi þá
kollujaðar kjaptinn á,
hugði mjaðarfylli flaðurs-
fýlan þar af ná,
en þar út af brá.

Suttungs blandið selju hlandið
seppa þá
verkaði grandið greylegt á,
sígeltandi var hans vandi
vera þaðan í frá,
ef hann einhvern sá.

Samt í skotum saur umflotinn
síðan lá
rófubrotinn rakkinn sá;
tannaþrotinn, tíkargotinn
tíðkar geltið há,
menn ei bíta má.

Hundadaga heyrist bragur
honum frá,
greyið raga geltir þá;

koma dagar, að hann agað
einhver kann að fá —
sæll er maður sá.

---

### III.

Tannlaus hundur skot í skýzt,
skitinn kjaptinn glennir,
en hans gjálfri ýta víst
enginn svara nennir.

Með nafni þótt hann nefni menn,
nadda enginn þundur
seppanum öðru svarar enn:
Svei þjer, fjandans hundur.

---

## Um málaferli
sjera Sæmundar Hólms.
(Sbr. 1. útg. bls. 168—169.)

---

Sæmundur Magnússonur Hólm
vindanna væengjum á
vatt sjer málunum frá.

Forlög þó hann ásækti ólm,
aurinn hann óð í kvið;
óvinir skelfdust við.

Sæmundi Magnússyni Hólm
hamingjan hrynji' í skaut,
hverfi ólán í braut.

Prósessalystin linni ólm;
rósemdar reyni' hann kost
rjett eins og maur í ost.

---

## LAUSAVÍSUR.

---

I.

(1. útg. bls. 179.)

Skálkaföður í skætingi
skatnar munu kalla
mig valla;
fantanna því faðerni
fjandans sjálfs er embætti,
og inn í það jeg ekki þori falla.

---

II.

(1. útg. bls. 178.)

Hart er að líða
vont mjög víða,
verra' er samt
lygasmíð sjer láta tamt,
það óprýðir
þjóð og níðir,
þó hún fái í skamt
bezta ostaamt.

## TIL DR. HALLGRÍMS SCHEVINGS.

Átti' eg ei betri bróður
und Baldurs túnum
nje hreinni' í hug og lundu
en Hallgrím Scheving,
mínu' af máttarleysi
möglaði' hann aldrei,
heldur virti' hann vilja góðan
verki nauðgu framar.

## TIL KUNNINGJA MÍNS.

(1. útg. bls. 69—72.)

---

Fengið hef jeg brjef
frá þjer af vegum
hinna náköldu
norðanvinda.
Fylgdi því sem þeim
þurt og hreint veður.

Segja mjer ljóðar,
að sjeu þar norður
á mjallar fósturjörð
mjalllitar konur.
Horskar ganga fram
hýrleitar meyjar,
sem bragi norðurljós
um bláhvolf himna.

Hvað mun þig dvelja
eða hvað þig glepur
ganganda fram
í görðum Freyju,
þar blóm þúshundruð
brosa þjer móti,

að ekkert þú handfestir,
og þó ekkert þú tækir,
að þú þó ekki
við einhverju lítur?

Veit jeg hvað þig dvelur,
veit jeg hvað þig glepur.
Menn eru það,
hverra margir heima,
og niðjar aptur
niðja þeirra,
lofstírsvön yfir
leiði stigu;
en við vitum ei
hvort virða þess'ra,
eða hölda annara
hauga troðum.

Trúðu mjer, frændi,
að tekur þjer varla
Brynhildur, þó þú nú
beiddir hennar;
munat þjer Guðrún
Gjúkadóttir
samvistar unna,
nje Sigrún heldur;

og þó Hallgerður
þjer hnigi' að armi,
banaráð búin þjer
þú bráðlega hyggðir.

Hví viltu syrgja
það syrgðu aldir
umliðnar, mörgum
öldum fyrri
en áar fæddust
áa vorra?
eða fagnaðar leita
í fögnuði manna,
þeim mold í munni lá
miklu áður
en höldar heyrðu
Heklu getið?

Eins mun ungleg,
þá í ægi sígur,
sól í dag
og þá Sigrún fæddist,
og eins hýrlega
á himna stöðvum
blika stjörnur,
sem þá Brynhildur lifði.

Ei munu meyjum nú
miður skína
skrautskriður úr
skararfjöllum.

Söm er hún Esja,
samur er Keilir,
eins er Skjaldbreið
og á Íngólfs dögum. —
En þegiðu, vinur,
þó jeg segi,
að mý nú mori þar
milli fjalla,
hvar skatnar skjaldbúnir
skálmir hristu.

## SIGRÍÐUR THÓRARENSEN,
systir Bjarna.

I.
(1. útg. bls. 87—88.)

Ei sá drottinn,
þá of Ísland leit,
betri mey
en mína Sigríði;

hugði þá heilagur
hana' að nema
rógheimi frá
til ríkis himna.

En hann áleit
áður rjett vera
þjáning meður
af þungri veiki
sál hennar færa
sjer enn nær,
og fagurt hugarhús
hrörlegt gjöra.

Möglaði' ei mærin,
en meður elsku
kyssti helga hönd,
er hana þjáði.
„Blessað sjertu, barn mitt,"
kvað hinn blíði drottinn,
„nú skaltu' ei framar
„nauða kenna."

Brá hann þá hreinni
hennar öndu
stjörnum ofar
til endalausrar

sælu með siálfum sjer
og sálum helgra;
en faðir, móðir,
frændur og systkin
augum störðu grátandi
eptir henni.

---

II.

(1. útg. bls. 89—91.)

Þar sem fjall rjeð falla
og funi jörðu alla
  að einni gjörði glóð
uxu eikur fríðar —
aptur haf varð síðar
  eik þar áður stóð.
Hverfist allt
heitt og svalt,
  allt, sem heimur
  gjörvallur geymir,
    gjörir að fúna' og líða.

Þó höldum eitthvað eyðist,
í aðra mynd það leiðist,
  eyðist aldrei það.

Duptgjört strá er duptið,
af dupti aptur lyptist
urt í urtar stað.
Orminn, sjá,
dottinn í dá;
af ham hans fúnum
hið fagurbúna
fiðrildið vængjum lyptir.

Þannig þá vjer sjáum
af þela skapta lágum
hluti eyðast ei;
mun und lok þá líða
loksins sálin fríða,
þó hold sje mold eða hey?
Nei, hún fljótt
flýgur of nótt
myrkva dauða
hátt til hæða
höfundar ljóssins blíða.

Svo sem önd er andi,
til anda kongs að bandi
líkams leystu' hún fer,
svo fer jörð til jarðar,
þá jarðlífs eru varðar
sálu samvister.

Hvað er þitt?
því heimta sitt —
moldu fold,
en mildingur alda
frá mæðu sálir sparðar.

Grátur geð þó bítur,
þá ganga vini lítum
myrkvar dauða dyr,
líf og ljós að finna,
at liðna mæðu stinna
í jarðarfjötrum fyr.
Svo jeg veit,
sút mig beit,
þá mín fór systir
Sigríður bezta
til sinna feðra' og minna.

Af góðrar aldrei gleði
gráta' eg meyjar rjeði
fyrri fara' en þá —
en jeg sá ei annað
yndi' en mjer sem bannað
með henni hvarf þá frá;
því jeg einn
ei átti neinn

vininn betri
á veraldar setri
en vænan þenna svanna.

Frómasta fegruð geði,
foreldra sinna gleði,
öllum ástsæl var;
frjáls og frár var andi
sem firrtur væri bandi
moldar mannlegrar ...

---

III.

Guð sá af hám
himni ofan
Sigríði liggja
sóttu þjáða;
minntist hann þá,
miskunn eilífa,
að sitt bezta barn
var böli kramið.

Sendi' hann ofan
engil dauða,
er mjúkt bar svefngras
á meyjaraugu;

fór þá heilbrigð sál
úr hami sjúkum
og ljómandi flaug
til ljóss uppsprettu.

Skín hún þar sæl
og af syndum hreinsuð,
fögur og ung
í faðmi Kristí;
með sínum bræðrum
og systur eldri
á sína hjer
hún ástvini lítur.

---

## VIGFÚS THÓRARENSEN,

faðir Bjarna. † 13. apr. 1819.

(1. útg. bls. 91—92.)

---

### I.

Hælislaus á hóli
hrísla stend jeg sendnum,
autt á alla síður
er fyrir stormi' og frerum,

síðan mæta meiðinn,
mjer sem reyndist verja,
sótti sá, er átti,
að setja' í jarðveg betri.

---

## II.

Enn er mjer í minni,
minn þegar hinsta sinni
föður jeg fann á láði
og föður við skildi;
mjöllu frá landnorðri leiddi
í lopti frerastormur
móðurlands brá yfir breiða
og byrgði fyr sólu.

---

## III.

Enn er mjer í minni,
minn þá síðast fann jeg
föður lífs á láði
og leit hann ei síðan.
Æfi hans jörðu yfir
eptir lifðu þá nætur
þrjár, en þegar kom fjórða
þá nákaldur lá hann.

Saman síðast í heimi
sonur og faðir gistum
vænsta' í húsum vinar
og vildum að morgni
leita brott um brautir ...

---

## Dauðinn.

(1. útg. bls. 81—82.)

---

Erat harmur að hugsa
hýði sleppa jarðar,
og á stjörnu standa,
strax og þangað hugsum,
en í mána miðjum
munni sjá hvað liggur,
og sjálfur kanna sólu
sínum huga fljótar.

Trauðla mun angurs efni
í einu' að vita meira,
en um lífstundir lærðu
*Leibnitz*, *Kant* og *Fichte*,
eður fara' að finna
fjölvitringa dána,
og hjá þeim ná að nema
það numdu þeir síðar.

Erat grátsefni góðum
að ganga að dæmast,
vor hvar vinur hinn bezti
verður sá, er dæmir,
og sá einn, sjeð er getur,
hvað sjálfrátt var eður eigi.
Magnleysis mun sá ei hegna,
er magnið gaf sjálfur.

Kvíð ei að deyja frá dauða
og dag sjá kvöldlausan,
eður svo að sýkjast,
að sýkist þú ei optar.

---

## JÓNAS STEPHENSEN,

sonur Stefáns amtmanns Stephensens. † 1820.
(1. útg. bls. 104—108.)

---

Móðir dags er myrkva nóttin,
myrkurs birtan sjálf er dóttir,
    sólu fyrri sóllaust var;
Adam af jörðunni fyrri' en að færi
foldar hann sjálfur að dautt stykki væri,
hann og allt annað, sem af henni nærist,
efumst ei, gjörvallt er dautt fyr en bærist.

Sjá, í moldu maðkur bíður,
mjög í dupti seint hann skríður,
jörðu bundinn allur að;
en þegar stuttar hann lagt hefir leiðir
langri á ferðinni' og deyr, sig þá greiðir
fiðrildi' úr haminum fúna, sem eyðist,
en fagurgullna vængi mót sólu það breiðir;
syrgir það hvergi, að lengur það ei lá
í líki maðksins kaldri jörðu á;
gleðst það, að henni gat það komizt frá
og geta setið rósaknöppum á.

Þegar svo ljóslega lítum
líf koma betra af dauða,
skyldi ei geigvæn að ganga
gatan hin myrkva til ljóssins.
Leiðin er lengri' eða skemmri,
liggur að stigi þó sama,
bættur er hver sá, sem bíður
bezta veginn og skemmsta.

Veröld veitir ætíð
vel nýkomnum gestum,
mjúklega móti þeim tekur
í móður og föður líki.

En ef alllengi dveljum
atlætið verður misjafnt.
Gott er ei hennar gestum
að gista of lengi.

Á lengstu leið til dauða
lýðir þar samferða
opt hver öðrum gjöra
örðug að verði ferðin;
hin skemmsta gegnum grænar
grundir inndæl liggur,
þjóðir þar ei stríða,
og þá gekk vor Jónas.

Engill einn,
allra vinur,
sá aldrei bregzt
aldasonum,
sveininn tók
sjer í arma
og breiddi' um hann myrkva
og breiða vængi.

Ekki hræddist ungur
hinn alvörugefna,
nje dapraðist
í dauða örmum.

Afhenti sveininn
hinn alvörugefni
öðrum hýrleitum
engli ljósklæddum.

Þá andlit sá þessa
engils, kvað Jónas:
„Hversu fagur ertu, minn faðir.“
Engill brosandi
aptur mælti:
„Eg em faðir þíns föðurs.“
Tók þá Ólafur
ungan Jónas
og sýndi hann
sínum drottni:
„Hjer færi' eg önd
„eins míns niðja,
„jafnhreina sem
„frá höndum þínum.“

Var þá sveinninn
settur í skóla
himinungmenna,
þar var Hans fyrir —
samfagnar Jónas þar
sínum bróður,

5

og upp elst grátlaust
með englum nýsköptum..

Ef vjer kviðum ekki dauða
endir hver sjer gjörði nauða
fyr en enti skipað skeið.
Leiðin er skömmtuð, vjer skulum þá ganga,
þó ske megi' að hittum mjög klungrótta' og langa;
en samgleðjumst öðrum, ef auðnast þeim fanga
inndælli' og skemmri að takmarki leið.

---

## Til Finns Magnússonar.

(1. útg. bls. 190—191.)

---

Í Freyjukatta klær
kominn þá heyrða' eg Finn,
sagði' eg: „Hver frelsast fær,
fyrst þessi mæringinn
og mikli bróðir Braga
í klærnar þeirra' er kominn inn?"

Þegar jeg þannig kvað,
þrengra mjer varð um háls,
og svo mjer sverfðist að,

að synjað varð mjer máls;
varð jeg á barkann bitinn
af sömu köttum, sveigir stáls.

Hreinlífur veiztu víst
verið jeg hefi' og er,
eins og þú, það en sízt
þjer gagnar eða mjer.
Þeir fjandans Freyjukettir
gjöra ei mannamuninn sjer.

---

TIL HINS SAMA.

(1. útg. bls. 189.)

Frýsandi dragi þig
Freyju kettir
of Kjöl norður
til Eyjafjarðar;
bríma í brjóst þjer
blási hún ástar,
endurblossi hann
hjá unnustu þinni.

---

## SIGRÚNARLJÓÐ.

(1. útg. bls. 144—146.)

---

Þú angraðir mig áðan
með orðum þínum, Sigrún.
Eg bað þig aptur mig hitta,
ef andaðist þú fyrri.
Kvaðst þú ei trúa, að kalda
jeg kyssa þig vildi,
nje hjúpaða hvítbleika
þig höndum um spenna.

Mín trúir þá ei meyja
að muni' eg sjer unna.
ef hún eigi trúir
jeg unni sjer fölri.
Þínar það víst eru varir,
þó verði þær kaldar;
kinnar jeg sje þær sömu,
þó sjái' eg þær hvítar.

Kyssir ei á köldum
kalda mjöllu vetri
röðull jafnt sem rauðar
rósir á sumrum?

Hvít er hreinust lilja,
hvít ertu sjálf sem mjöllin,
muntu þá miður skarta
þó munnur og kinnar hvítni?

Þó heimsdvalar dreyrinn
deyi þjer af vörum,
blærinn þær blíðlega skreytir
blásala' eilífðar.
Engilhvítt formið hið fagra
finnast mun óskert kinna,
jafnfrítt og jafngott rauðu,
þó jarðblysin slokkni.

Mærin mín hin skæra,
mig ei láttu því einan,
mjer þó að farir þú fyrri
til friðsala himna.
Kom þú þegar kólgur
á köldu ganga hausti
og um miðnætti máni
í mökkva sig hylur.

Mun þá fölur máni
af meðaumkvan bregða
blæju sinni, svo bjarta
jeg brosa þig sjái.

Farðu þá, mín fagra,
fljótlega mjer að bólstri
og hendi hvítri' og mjúkri
mig hóglega snertu.

Svo, þegar bregð jeg blundi
og breiði faðm þjer móti,
snjóköldum barmi snúðu
snarlega mjer að hjarta.
Fast kreistu brjóst mjer að brjósti
og bíddu' unz máttu lausan
fá mig úr líkams fjötrum,
svo fylgja þjer megi' eg.

Glöð skulum bæði við brott síðan halda
brennandi' í faðmlögum loptvegu kalda
á gullreiðum norðljósa þjóta um þá.
Væn svo þá smáblys í vindheimum glansa
um vetrarbraut skulum í tunglsljósi dansa
og snjóskýja bólstrunum blunda svo á.

---

## Kvæði til Sigrúnar.

(1. útg. bls. 147.)

—

Skrafar þú, mín Sigrún,
að skrifir þú illa,
og forláts biður, að brautir
bleks ei sjer hrósi á pappír.
Nær bað rós, þá risti
rún, af vindi skekin,
nauðug á sjávarsandi,
sjer að fyrirgefa?

Þó blaðaför ei færi
svo föst rás á strykum
sem járnkarls stryk af sterkum
stirðhöndum jötna,
bágara' er broddi fjaðrar
með blómtöngum stýra,
en með harðhnúum karla
hreifa vængstilkinn breyzka.

## Kossar.

(1. útg. bls. 149—150.)

Örvast elskublossar
æ þá mjúkir kossar
manns og konu mætast fyrst á vörum,
snertir sálu sál,
sjest því elskubál
brjótast upp í blossanum snörum.

En það þó illa fer,
út þegar brunnið er
ástar það hið eldfima tundur,
ekkert sjest eptir þá
nema' askan föl og grá,
og bogi Amors brostinn er í sundur.

## Grautarhalli.

(1. útg. bls. 185.)

Hljóp að kaupum Halli skyrs frá hallardyrum,
fallega dallinn fullan allan
fljótur sötrar grautarjötunn.

Sá alvaldur sig þá skáldið svíkja' í leiki;
bræðis galdri falldur fylldist
fljótur klóta ljótur brjótur.

Árni' í klambri greitt nam gambrast gullinkamba,
að augum títt í arnarhaugum
anaði raninn sorpi vanur.

## VÍSUR UM FLJÓTSHLÍÐ.

(1. útg. bls. 57—58.)

### I.

(1821.)

Nú er flag.
Fljótshlíð orðin,
íturvæn
er áður þótti,
í fjallaaur
fætur hyljast,
á grænum fyr
sem grundum stóðu.

Gunnar hám
af haugi lítur

slóðir, fagrar fyr,
fölar orðnar,
og iðrast nú
að aptur hvarf,
að bera bein
blá við hrjóstur.

---

## II.

Til móður Bjarna, er hún skrifaði honum, að þverá væri
að brjóta af Hlíðarenda landi.

Bágt er að heyra,
ef brýtur meira
bannsett á,
og gjörir eyri
gras þar lá;
ef spillist fleira,
Gunnar geiri
úr gröfinni' ofra má,
og bægja fljóti frá.

---

## Sæmundur Magnússon Hólm.

† 5. apr. 1821.

(1. útg. bls. 108—114.)

———

Heyri jeg vera
hniginn að foldu
og lúin bein
að beði lagt hafa,
mjúkum, upp reiddum
mönnum öllum,
Sæmund Hólm
son Magnúsar.

Hjartahreinn —
í huga duldust
guðdómsljós, optla
glýju þó hulin.
Og, þó hugvit hans
höndum þreifði,
honum hinn heimskasti
hyggnari þóttist.

Fjör sitt og lán
fósturjörðu
glaður gefið hefði.
Vann hann flestum meir,
vann til lítils —
en sjer spott og óþökk.

Hvern hann góðan ætlaði
elskaði hann,
sem bur sinn eða bróður.
Sjálfur hann elsku
nær engra hlaut,
meðaumkun mjög fárra.

Af gjöfum margur sjer,
þó gefi annara,
orðstír ærinn getur.
Gaf hann af sjálfs síns,
og gaf óspart —
gleymdar eru hans gjafir.

Leitaði á engvann,
en á hann leituðu
halir heldur margir.
Opt var þó nefndur
óróamaður,
ef hljóðaði' undir höggum.

Hví var hugvitsmaður
heimskur talinn,
og aðra elskandi
unnt af svo fáum?

Hví var hann hrekkvísra
og heimskra skotmál,
og fal að hjarta snúið,
þá faðm hann bauð?

Á lestaferð fjölmennri
að líkstaða tjaldstað
ferðamenn fjóna
förunauta,
búi þeir ekki
bagga sína,
sjálfir þó þeir eigi,
svo sem aðrir.

Margur í mannslíki
moldvörpu andi
sig einn sjenan fær —
hann sjer ekki lengra.
Nærsýnni skepnu
nærri það stendur
sýnist sjer smærra,
því sjálf er hún nær.

En hún óttast þó
það ytra hrærist,
á sig áður rak hún.

Og hvað flestir gjöra
gjörir hún eins,
svo viti aðrir
hún ei vitlaus sje.

Hægast er öðrum
að herma eptir
í vætkisverðu.
það hún gjörir,
og gjörir þú ei sama
hún hyggur þú getir ei gjört það.

Og þó alheims eðli
þjer eins væri kunnugt
sem henni samþykkta heimskan,
heimskan hún þig telur,
því henni er kunnug
engin æðri vizka.

Moldvörpuandinn
mun þjer ei unna
óttist hann þig eigi.
Gagns hann leitar,
en gagns hann ei væntir
af manni, sem máttlausan hyggur.

Hati þig öflgir,
hatur er þjer búið
æ af heimskum hölum;
með þessu móti
sjá þeir sjer duga
menn að fá með sjer í fylgi.

Magnlítinn sá jeg
margan heigul
vega, hvar hann vissi
vörn fyrir litla,
og yfir saklausum
sigri hrósa,
að afl hann hafði
til illverka,
ef hann að eins vissi
að engi mundi
hefnda' á hendur sjer
eptir hinn leita.
Hrósar margur hins vegar
þeim hatar sjálfur,
ef hann þann vinsælan veit.

Eru enn fleiri,
sem ekki lofa
lastaða lýðum af heimskum.

Heimskan vita þeir
í veröldu drottnar,
og hræðast það öflgast er allra.

Því var Sæmundur,
á sinni jarðreisu,
opt í urð hrakinn
út úr götu,
að hann batt eigi
bagga sína
sömu hnútum
og samferðamenn.

Nú er hann ei lengur
lýða fótskör,
veitt er honum allt
það hann vantaði.
Ekkert sjálfrátt gott
Sæmund skorti,
hefir því umbun þess,
sem á lítur viljann.

Og þú Íslendingur,
sem elskar fósturláð,
seint munt Sæmund spotta.

Móður ykkar beggja
maðurinn unni;
grjet hann og gat henni' ei bjargað

Sje jeg síltorfu,
sje jeg þorska
taka síl úr torfu,
ásækja síli
aðrir stærri
fiskar og fylgja torfu.

Allt fer sömu leið,
og ásækja smærri
fiska stærri fiskar,
sílum samferða
að sama náttstað
náhvals í gapanda gini.

Torfu sje jeg aðra,
torfu sje jeg þriðju
leggja leið þá sömu;
golþorskar ginstærstir
gleymdir eru' í torfu
þriðju þar á eptir.

---

## ÍSLANDS RIDDARI.

(1. útg. bls. 17—23.)

Bragningur í brynju
bláfjallaðri,
gunnhvatur und gullhjálmi
grændjásnuðum,
hörpu tvöfalda
hefur und skildi,
stendur sverði studdur,
strengi hreifandi.

Lesa má á skildi
í logarúnum:
„Guði gef jeg sál mína,
„en grami fjör mitt,
„hjartað hreinum frúvum;
„en sæmd mína eina
„sjálfum geymi' eg mjer.“

Stendur hann þar sprettur
Spree um grundir,
horfir brjósti' að vestri,
höfði' að útnorðri —

íturlangandi
ástar sjónum
seguláttu að
augum snýr.

Hafði' hann áður
frá útsuðurs
ilmheimum blómríkum
angan fundið,
og í lárlundum
litið fjaðurskáld,
hreifði' hann þá mjúklega
hörpu strengi.

Kvað hann um prúða
próvensalska
næturgala ljóðum
náttdöggvaðra,
og um Spánlanda
sprakka furvaxna,
hrafntinnueygða,
og horfði' í kvöldroða.

Sá hann þá með himni
hvítskrúðaða
flugárum eldlitum
fara meyju.

Sá hann það var Saga,
er settist á norðljósa
reiðar þjótandi
og rjeð til norðurs.

Sá hann, gullkerran
settist þars meyja
situr sjóbeltuð
og sísnjófölduð,
frostsöm, funarík,
fögur og geigvæn;
sagði hún Sögu
sjer velkomna.

Leit hann þá í lopti
leika gullvöndu,
braga' í litum fleiri,
en blóm í *Provence*,
og hreifa ljóskvíslum
of hifin allan,
en meyjar báðar horfa
að hveli gullnu.

Heyrði' hann þá hljóm,
sem heyrði' ei fyr slíkan,
Saga söng við hörpu
og hörpu sló;

gall og í gullvöndum
Gimla sala,
en í jörð þórdunur
þutu undir.

Leiptra þá sá hann í
logafjöllum,
en við leiptra ljós
lýði stálklædda;
voru það Völsungar
og verir norrænir;
söng um þá Saga
og sat hjá Snjómeyju.

Flutti' hún svo þakkarljóð
fagur-geigvænni,
að sjer um aldir
unnt hefði mest,
og annars Völsunga
og vera norrænna
minning mundi gleymd
miðgarðs dróttum.

Svaraði Sögu
hin sjóbeltaða:
Ein þú einnig mjer
um aldir sinntir —

ok sízt Eyvindur,
öðlinga kyns,
íturskáld árum fyr
átta hundruðum
síþreyður lof kvað mjer,
lofa mig ei slíkir.

Heyrði það riddarinn
sá hinn hugprúði,
greip undan gullskildi
glæsta hörpu,
söng þá með Sögu
sigurljóð norræn —
hlustaði heimur fyr,
hlustar nú betur.

Kvað hann síðan lofdrápu
konu snjófagri
og sig hennar
sagði riddara;
var þá sem Eyvind
aptur hún heimti,
krýndi' hún þá hjálm
þess hins kynstóra.

Lagði þá ljóma
af því logadjásni
víðar en eldfjalla;

en Ískona mælti:
Íturborinn sem Eyvindur,
sem Eyvindur skáldkappi,
ásthreinn sem Arnaldur,
einn þig mjer riddara kýs.

Nafn þitt, Friðrekur,
á Friðrek mig minnir
konung svo kæran mjer;
en þitt ættarnafn
hið þjóðkunna,
*Motte Fouqué*,
mig minnir á öðlinga
norræna, er námu land
Normandíu.

Munu *Fouqués* ljóð
um frúr suðrænar
sem logafjöll
lengi standa.
Lengur þó ljóð hans
um lýði norræna
heyrast munu í heimi.
Sjálfur mun um aldir hann
sagður verða
íturlaukur
ættar sinnar.

---

## Ísland.

(1. útg. bls. 11—13.)

---

Hver er hin undra mynd
hvít í norðri,
bendir af bjargi ofan?
Snjóslæðum sveipuð
situr þar meyja,
en undan snjófaldi brennur henni' eldur frá brám.

Hljóma henni harma
og hreysti kvæði,
ástar líka ljóð sæt.
Hversu bentir þú mjer
í bylgjugang drauma,
þú hin fagra, snjófga . . . . . . fríð.

Var jeg sveinn ungur,
og varla jeg kenndi
kvæða kraptar í brjósti;
lá jeg þá og lagði
líf og mannvit
við blæinn, sem bylgdi frá þjer.

Sæmundur og Snorri,
sjáendur fornaldar,
innst í grárri fornöld, er sjálfir nú sitjið,
í bókum þar fekk jeg
brot af kynning ykkar —
hversu glatt mjer logaði löngun í hjarta!

Eða þá vísrar
Völu kvæði
sá jeg fyrst, sem kæmi' úr vissum vellum upp,
gramdist þeim geð, að
gleymd í bókaryki
lágu þau svo leit við þeim engi.

Hafði þó greppur
grænleitrar Dynár
Síneð þau kveðið oss þýðverskri þjóð,
þýzkum svo hljómi
í þýzkra eyrum
heyrðust, en urðu þó útlend og gleymd.

Ísland, eyjarmey
hin ástfólgna,
snjómyndin geigfagrar glóðar full,
er og verð jeg, hjartanu

hraustla brennandi,
riddari þinn, og djásn þitt vafst dýrðlega mjer um
hjálm.

---

## Jón á Móhúsum.

Ágengur var hann
meðan hjá ýtum lifði,
þar um verk hans vitna,
enda liggur hann nú
lífs andvani
stolnum undir steini.

---

## Eyjafjallajökull.

(1. útg. bls. 23—24.)

Tindafjöll skjálfa, en titrar jörð,
tindrar um fagrahvels boga,
snjósteinninn bráðnar, en björg klofna hörð,
brýzt þar fyrst mökkur um hárlausan svörð
og lýstur upp gullrauðum loga.
Hver þar svo brenni mjög, ef þú spyr að,
Eyjafjalla skallinn gamli er það.

Spyrjir þú svo, hví hann hljómi svo hart
og hósti upp vikri og eldi,
að mökkur sjest eldslitur myrkrið um svart,
svo miðnættið verður sem hádegið bjart
og glóir í gullllögðum feldi,
gjörla jeg þori að greina þjer, að
gleðilog og fagnaðarsöngur er það.

Veit hann að skjöldunginn Ísland á einn,
allra sem reyndist því beztur,
og sem til hjálpar því hvergi var seinn,
og haginn því sá hann ei vera þann neinn,
að vildi' ei því væri' hann sem mestur.
Fæsta jeg þurfa hjer fræða mun, að
Friðrik sjötti Danakongur er það.

Gamall því Eyfjalla skallinn við ský
skekur hinn snjóhvíta feldinn,
og flytur svo lofdrápu fylki á ný,
sem fornaldar skáldin, en hörpu hans í
strengjunum stirnir á eldinn,
en hljómurinn dynur, svo allir vjer að
Eyjafjalla heyrum skáldið er það.

Allir vjer biðjum með eldjökli því
auðnu konungi til handa,

sem norðurljós fegursta norðrinu í
nái hans vegsemd ljóma' yfir ský,
og lengur en logafjöll standa;
og fjallsins svo hrópandi fetum í spor:
Friðrik sjötti lifi, konungur vor.

---

## Eptir barn.

(1. útg. bls. 93.)

---

Tjáir ei harma, þó hýðið
hnigi fagurt til moldar
rósar, er ræktist upp fyrri
en roðnaði blómknappur;
upp hana rætti, er átti,
urtagarðsmaður,
bar hana burt, til að setjast
betri í jörðu.

Ei fjekk hún ásta á jörðu,
eymda nje gleði að kenna;
kyssti' hana köldum vörum
sá kenndi hún ekki,

bar hana sinna beggja
breiðra vængja' á milli
þangað, hvar eilíf elska
eymdalaus drottnar.

## Stefán Þórarinsson.

† 12. marz 1823.

(1. útg. bls. 38—44.)

---

Hver er sá niður
í norðri heyrist
sem harmahljóð
hljómi' í fjarska?
Erat þó kvein,
sem konur sýti,
nje ópi líkt
ungra barna.

Er sem hermanna
í einu sýti
stálklædd fjöld
við foringja lát,

og af sútum svo
svelli hjarta,
að brjósti frá
brynjan springi;

eða sem frón
fjalls und rótum
hristi hart
helstríðs skjálfti;
eða dauði sjálfur
dapurt andvarpi,
sendur nauðugur
að sækja prúðmenni.

Hermir sá hljómur
harmatölur
ýta í ítrasta
Ísaláðs hluta,
að í gröf máske
gæfa muni
farin Norðurlands
með fœringja liðnum,

er Stephán hnje
til hvíldar þreyttur
Þórarinssonur,
þjóðar jaðar,

og eptir skírast
skin og langvinnt,
rann hans æfisól
í ægi dauða.

Snjallast var hann sambland
snildar og iðni,
sálar skarpsýni,
sálar langsýni,
og sinniskrapta
með sinnisþoli;
en hið sjálfráða
var engu síður.

Vildi hann síns
velmátt umdæmis
efla fremur
en eiginn hag.
Ráðvöndum hann reyndist
og rekkum dugandi
faðir eður bróðir,
þó fjærskyldir væri,

og óttaðist aldrei,
að annara glansi
á sjálfs síns mundi
sorta bera;

gott eitt hann vildi,
og góðir, dugandi,
sjer hann því vissi
samtaka mundu.

Vel einnig vissi
sá hinn vitri halur,
að samburð hann þoldi
við seggi flesta,
hniðraði því engum,
nje þótt óvinur væri;
bakmáll vissi' hann sjálfan
sig mest smánar.

Skýldi hann aldrei skálkum
undir skjaldarrönd tignar,
því miskunn slíka
mat hann jafna
gjöf af þjófstolnu
þjófi veittri,
og skauzt ei undan skyldu
fyrir skrum heimskingja.

Sem röðulgeisli
rjettlínis færi
sólu frá
til fylgihnatta,

eins rjett hann þræddi
rjettinda götu,
hvorki fyr lof nje last
hann leit til hliðar.

Fordildarlaust
hann fósturjörðu
unni bæði og
aðstoðaði;
leitaði' ei frama,
en frami kom sjálfur
heim til hans í hlað
og hjá honum gisti.

Fordildarlaust
hann fósturjörðu
unni, sem móður
mögur hinn bezti;
því unni' hann öllum,
er unnu fósturjörð
og sýndu sig hennar
sonu dugandi.

Mun hafskip fyr
hafnar leita,
Baldjökuls í
bugðu miðri,

og hvalur fyr
við Hofsjökul
núa hlið,
en nafn hans deyi.

Æ mun það nefnt
ásamt verða
hins ítra Jóns
Eiríkssonar,
og hins mikla Skúla
Magnússonar —
fögur sætíð þrísól
fósturjarðar,

og hans minning æ
á minningar himni
ljóma, sem fegurst
leiðarstjarna
Íslands ókomnu
embættismanna
þeirra, er vilja verk
vanda skyldu,

en Ísafold
með elsku móður
bragnings bein
und barmi geyma,

og fagna þeim
fegins degi,
er hún þeim ungum
aptur skilar.

---

## Þórarinn Öfjörð.

† 14. sept. 1823.

---

### I.

Ort, þegar lát hans heyrðist, um haustið 1823.

(1. útg. bls. 72—73.)

Viður var mjer áður
vaxinn fríður að síðu,
vestan jeg varði' hann gusti,
varði' hann mig austanblástrum.
Vatnsflóð hann rætti frá rótum,
ráð eru færri' en áður;
skjól þó að ekkert skýli,
skal ei vind hræðast svalan.

---

II.

Fylgir grafminning hans í Klausturp. VI, 163.
(1. útg. bls. 73.)

Er, þegar öflgir,
ungir falla,
sem sígi í ægi
sól á dagmálum.

---

III.

(1. útg. bls. 44—46.)

Drynur und fjallsrótum, dimm eru ský,
döpur er sunna, en náfölum í
jöklinum Skaptafells meinvættur mest
magnar þá dynki, en ólga fram sjest
fljóta' undan fjalli' yfir sanda.

Jökulfljót rennur á sandinum svart,
sent upp úr náheimum berg gegnum hart,
dökk gnæfa feigðarkuml eyrinni á,
sem ógróin leiði' yfir jörðuðum ná
um kirkjugarð strjállega standa.

Í austri sjest jóreykur, gjörist þá gnýr,
guma sveit ríðandi' að móðunni snýr,
sýslumaður Öfjörð og presturinn Páll,
prúðorður Benidikt — stansar þá áll —
og ýtar, sem fleiri þeim fylgja.

Drynur und fjallsrótum, dimm eru ský,
dauðinn þar kallar: „Ó, leggið út í.“
Benidikt, Öfjörð og presturinn Páll,
prúðmennin, segja þá: „Fær er sá áll“,
en þeim varð hann bana þó bylgja.

Þeir ríða þá í jökulfljót svart allir samt,
og sem þeir frá landi komnir voru skammt
dauðinn úr launsátri fjallsrótum frá
fram hljóp í öldu' úr jökli hvítblá,
með strauminum þeirra til þriggja.

Reiðskjótar duttu, og duttu reiðmenn,
því dauðinn er sterkur, og allir þeir senn
losna frá fákum, en fætur þó á
fírar tveir komust, en prestur ei sá
framar á foldu að skyggja.

Frá unnunum svörtu til ljósheima leið
og lukkuna stríðlaust þá vissustu beið.
Hinir tveir, Öfjörð og Benidikt, brátt
bárust á grynning, en treystu ei mátt
aptur að leggja að landi.

Því Benidikt ellin hafði' aflinu svipt,
en Öfjörð hann studdi, til burtu gat kippt

vatnskuldinn önd hans frá unnunum blá;
en Öfjörð þá landstaddir fylgdarmenn sjá
einmana' á eyrinni standa.

Hann veður þá út í og stefnir að storð
og sterklega fram brýzt, en búið er morð,
það drynur í fjallsrótum, dauðinn því lá
dapur í jöklinum, meinvætti þá
fram valt í annari öldu.

En strauminn hann kljúfandi lagði fram leið,
sem lífsstraum í mótlæti; aldan fram skreið,
gnæfði' yfir höfuð, og hækkaði þá
hlakk undir jökulrót, Skaptafells frá
helbruna býlinu köldu.

Með þórarni Öfjörð í unnir þar hnje
atgjörfi' og ráðvendni, jafnan í tje;
aldurtjón snillingur ungur þar leið,
en alsjeðan fósturjörð skaða þar beið;
sá helzt til var harmurinn þungur.

Forðast þú að ríða þann feigðar um sand,
í fjallinu' er Katla og ætlar þjer grand,
kaldhlátur dauða þar gellur í gjá,
en grátandi Skaptafells landvættir tjá:
„Æ, hví dó hann Öfjörð svo ungur?“

---

## TIL RANNVEIGAR
systur minnar.

(1. útg. bls. 73—77.)

Syrgir þú, mín systir,
sálaðan maka;
sverð, er hann felldi,
særir þitt hjarta.
Mundu, það er guðs hjör,
er við hjarta þjer kemur,
og höndin helgasta,
er hrellir þig.

Tárast þú, mín systir,
og tárast máttu;
því tryggða tár
trúfastra maka
gjörast í guðs hendi
að glansperlum,
er um eilífð skína
á skrauti' útvaldra.

þegar af hvörmum
hrynja skúrir
elsku vaktar
við ástvini missta,

elskan eilífa,
sem alheim faðmar,
berst þá nær
og bætir úr sorgum.

Ef menn að eins
minnast vilja,
að blítt og strítt
byrlast af henni —
og gjalda ást aptur,
þó undir svelli
af hins ljúfasta
læknis járni.

Þó æfisól gengi
þíns ektamaka
í dapran dauðasjó
á dagmálum,
betri' er dagur stuttur,
blíður og fagur,
lengri, sóllausum,
sírignanda.

Fögur var æfi
þíns ektamaka,
yfirboðnir töldu' hann
æðstan jafnaldra,

undirgefnir virtu' hann,
sem öldungur væri;
mun hans lifa orðstír
margra lengur.

Æfilok hans voru
engu síður,
dauða sótti' hann eigi
frá drykkjuborðum,
eða' af sællífi
söfnuðum kvilla;
lífsins skyldugjald
hann lífi svipti.

Berjast hermenn
og bana hljóta
    fyrir föðurland;
embættismaður
embætti stýrir
    fyrir föðurland;
deyi' hann fyrir embætti,
deyr hann einnig
    fyrir föðurland.

Er því þinn maki
sem í orustu fallinn,

fegursta dauða
hann fengið hefur,
sá er dauði lífi
löngu betri;
því vjer lifum,
svo lærum að deyja.

Huggast því, mín systir,
og í hug lát þjer koma,
hvers þú ekkja ert;
æran er gleði
allri fremri;
mundu líka,
þú ert manns dóttir.

Líttu á stjörnuhvolf,
og líttu þar tvo
hali á ljósskýi
hermannlega,
mann þinn og föður,
mjúkt þjer bendandi,
upprjett að ganga
mót örlaga straumi.

# Marðarvísur.

---

## I.

(1. útg. bls. 186.)

Mörður týndi tönnum,
til það kom af því,
hann beit í bak á mönnum,
svo beini festi í;
þó er gemlan eptir ein,
það er in hola höggormstönn,
helzt er vinnur mein.

---

## II.

*Jarðneska þrenningin.*

(1. útg. bls. 187—188.)

---

Mörður, ýta allra
öfund kvalinn mest,
einatt kveinar og kallar:
„Klækja er öfund verst.“
Sú til þessa orsök er,
maðurinn glæpsins engum ann,
utan sjálfum sjer.

Gráni grenjar og dæsir,
gjöld ef heimtast í
óframfærðu', og æsir
aðra á móti því;
ei þó vill hann sjálfur sjá
í tíund, nema tólg og ull,
tvær hann kirkjur á.

Skjálgur af skuldunautum
skinn og holdið flær,
og að þeirra þrautum
þar á ofan hlær.
Þjófum líknar opt þó ann:
„Allir þurfum vægðar vjer
við", þá segir hann.

Þessi jarðar þrenning,
þú samt vita skalt,
undir eins er eining;
Arimans ei valt
stóll þrífættur þannig stár,
einingin er eigingirnd,
en persónur þrjár.

---

III.

Hvarmljósa þinna týrur tvennar
tindra guðlegum ljóma sízt,
hræðilegust þar hrælog brenna
helvítis elds, en það er víst,
að djöfullinn fyrir innan er, —
ekki' eru fagrir gluggarner.

---

## Vorvísa

við leiði Geirs biskups Vídalíns.

(1. útg. bls. 103—104.)

---

Hvað er það hið lága, sem grænkar við grind,
en gróður þó minni í mjúkhlýjum vind
í svefnskála dauða berst annara að
yfirsængunum? Því veldur nú það,
hinn blíðlyndi blundar hjer undir.

Frá hástöðvum sólar þá gengur að grund
í græðanda vorblæ, svo bíður um stund
munarheimsástin við leiðið það lágt,
það ljúflega kyssir, og kveður svo brátt:
Vært sofi Geir biskup góði.

En niður þá falla úr lopti' yfir láð
lífstárin, ástar úr sjóðinum stráð,
vorblærinn fljúgandi við stendur þá
og vængjum úr gullfögrum leiðið það á
þeim vatnsperlum heitari hristir.

Svo er nú í vor, og svo verður hvert vor,
og viljir þú rekja að leiði því spor,
að syrgja Geir biskup, þú gjöra það mátt
að gráta hann liðinn, en ekki þó hátt,
hann þoldi' aldrei heyra neinn gráta.

---

BENIDIKT GRÖNDAL,
† 30. júlí 1825.
(1. útg. bls. 117—118.)

---

Áður frá mærum meiði
mjúksterkir hljómuðu söngvar
fuglsins, er gól fyrri
fagurt í lundi Braga.
Nú gjörist hljótt í hreiðri,
horfinn er næturgalinn;
sakna hans menn, þó ei syngi
sextán hann fyrir árum.

því þó sótt hann særði
og syngja mætti' ei lengur,
kvök einstök ýtum hans litust
annara fegri söngum;
bar þá brátt fyrir eyru
bergmál fyrri raddar.
Nú má ei heyra, þó hlerum,
horfinn er næturgalinn.

Vinurinn einn sá, er öllum
óbrigðull reynist,
sóttþjáðum sínu' honum augu
svefngrasi snerti;
vaknaði' önd, og vatt sjer
veslu skjótt frá hreysi,
og þaut á ungum vængjum
til ódáinsskógar.

Fagurt gól hann fyrri,
fegur gelur hann þaðra
og lausn sína lofar
og lausnara þakkar.
Söngfugl sá hann þar fyrir,
sá var Jón Þorláksson nefndur;
blíðlega bað hann velkominn
Benidikt Gröndal.

---

## RANNVEIG FILIPPUSDÓTTIR,

kona Bjarna riddara Sívertsen. † 1825.

(1. útg. bls. 115—117.)

---

Óttist ekki elli,
Ísalands meyjar,
þó fagra hýðið ið hvíta
hrokkni og fölni,
og brúna logið í lampa
ljósunum daprist,
og verði rósir vanga
að visnuðum liljum.

Því þá fatið fyrnist
fellur það betur að limum
og lætur skýrar í ljósi
lögun hins innra.
Fögur önd ásýnd gamals
mun eptir sjer skapa,
og ungdóms sljettleik æðri
á það skrúðrósir grafa.

Svo fjekk ei áttræðs aldur
ófríða gjörva
Rannveigu, riddara Bjarna
rjetta húsfreyju;

sálar um fatið hið forna
fögur skein innri konan,
skýrt máttu skatnar og líta
að skrúðklæði var það.

Ei þó upp hún fæddist
í öðlinga höllum,
látasnilld lipur var henni
sem lofðunga frúvum.
Kurteisin kom að innan,
sú kurteisin sanna,
siðdekri öllu æðri,
af öðrum sem lærist.

Og þó hún kvala kenndi,
af kvillum í elli,
brúna jafnheiðskír himinn
hugar ró sýndi.
Dauða næst bjartlegast brosti
blíðlyndið henni' úr augum,
var sem önd leitaði ljóra
og liti til veðurs.

Óttist því ei elli,
Ísalands meyjar,
ef reynið rjett sem byrjar
Rannveigu' að líkjast.

Sanna mun hver þá sögu,
er sjá hana mátti,
„að bjartast hreint skín hjarta
úr hálfslokknum augum.“

---

## Brestur í Reykjavíkurkirkju.

(1. útg. bls. 193.)

---

Þar kom einn andi
að þjótandi
úr einum rapt,
varð hann að grandi,
þá vængi þandi,
með vonzkukrapt;
sem eitruðum gandi
rauk gufa úr kjapt,
hinn gamli fjandi
þá sleit sitt hapt.

---

## Um Fljótshlíð.

(1827.)

(1. útg. bls. 58.)

Eyjafjalls grætur ásinn þar
ísa frá toppi hám,
og hrynja lætur hvarmskúrar
haglið úr mekki blám,
af því að fætur Fljótshlíðar
fljótið sker upp að hnjám;
Yggdrasils rætur við svo var
vættur með hvopti grám.

---

## Gísli Brynjúlfsson.

(† 1827.)

(1. útg. bls. 47—49.)

I.

Föðurlandshlíða beltin bláu,
sem blikið demöntum móti sól,
og lifandi krystallslindir smáu,
lykkjaðar kringum bala' og hól,
og yðar systur, Ægis þar
alsilfurtypptu dæturnar,

á yður sömu' eg augum starði,
sem yngissveinn á festarsprund,
en mig þann tíma ekki varði
Öfjörðs og Gísla banastund.
Föðurlands kæru unnir, ár,
ætt minni tvö þjer slóguð sár.

---

II.

Valkyrjur Ísa, hyggju harðar,
hvítar svífandi' um Ránar slóð,
og sem við fjörur fósturjarðar
feigðir boðandi kveðið ljóð,
og opt hið bezta hrífið hratt,
hennar sem út af skauti spratt.

Oss var ei liðið enn úr minni,
öldu næstfarnri þegar á
niður í svala yðvart inni
Eggert hinn snjalla náðuð fá,
þars yðar viður arinstein
enn þjer hans geymið látin bein.

Dýpsta þjer slóguð sár í sárið,
þá sjera Gísla Brynjúlfsson

hreppa þjer ljetuð heljar fárið,
hann var föðurlands lyst og von;
hann mörgum eldri meiri var,
mest af jafnöldrum öllum bar.

Heimspeki, allra mennta móður,
mest hann tignaði', og aptur hún
verðskuldaðan gaf honum hróður,
honum og unni' hin forna Rún,
báðar hann prýddu' og báðum tár,
banastund hans þeim vakti sár.

Aldrei hann heimskan aldar blekkti,
óskiljanlegt að nefna rangt;
maðurinn vitri mannsvit þekkti,
mannsvit hann sá að nær ei langt,
fjarlægra sólum fjærstu á
fært er moldvörpum ekki' að sjá.

þess vegna' hann orði trúar trúði,
því trúarlausa sá hann víst
heimskan með arma kræklum knúði,
að kenna dýpstu vizku sízt,
og heimsku telja, hvað sem þar
heimsku ei eptir þeirra var.

þessum þjer ræntuð, Ísa unnir,
og honum kærust móðurjörð
frá yður fyrri' ei kippa kunni
en köldust yðar faðmlög hörð
önd hans burt leystu', en í sitt skaut
andað hans þó hún líkið hlaut.

Víst mun hjá lýðum æ um aldir,
andaður lifa í sama ham,
sem honum nornin síðast valdi
og sást hann í, þá stje hann fram.
Sá ungur deyði ætíð má
ungur í minning lifað fá.

Enn sýta Kjartan Íslands meyjar
ungan og fagran dáinn; enn
Akkilles gráta Grikklands eyjar,
Gísla svo munu' um aldir menn
ókomnar syrgja ungan fá,
enginn því að hann gamlan sá.

---

## Til móður minnar.

(1. útg. bls. 100—103.)

---

Mitt æsku athvarf,
ást fullorðins,
ráðaneyti' og huggun
í raunum öllum,
bezta mín móðir,
mjer sem ætíð
fast hjekk við hjarta,
sem henni' eg sjálfur.

Nú emk of fjarri —
en ekkert megna' eg,
þó kvalabeð yðar
kominn væri' eg að;
stendur þar betri
og styrkari vinur,
þó líta megi' hann ei
líkams augum.

Mest leið hann sjálfur,
og meinin guðhræddra
því með líkn á lítur;

telur tár þeirra
og tölu með rjettri
þeim í sjóðinn safnar.

Þá til heims fæðumst,
til harmkvæla móður
fóstrið ekki finnur,
en í ljós komið
kvöl það líður,
með tárum heilsar heimi.

En til annars heims
öðruvísi
fer með fæðing vora,
kvelst þá fóstrið fyrst,
en komið í ljós
hlær á mót himni.

Því ljóssins faðir
er þar ljósmóðir
og hjúkrar nýkomnu
himinbarni;
laugar það sjálfur
af saurindum heims
sá hinn kæri Kristur.

Ei er það aflvana
nje ómálga,
sem áður hjer í heimi;
ljettfært flýgur það
til ljósheima drottins,
og angurs enkis kennir.

Man það æfi sína
alda hjer neðra,
sem menn fullorðnir
minnast barnæsku,
og þakkar hjer liðnar
hirtingar drottni,
sem fullorðinn sonur
föður bezta.

Ei er því að óttast
sinn elskhuga Kristum,
sjálfur er borgaði
og sjálfur skal dæma.
Sjá, hve blíðlega
hinn blessaði rjettir
faðminn helgasta
mót frelstri sálu.

---

## STEINUNN BJARNADÓTTIR,

móðir Bjarna, f. 30. júlí 1763, † 9. febr. 1828.

---

### I.

(1. útg. bls. 103.)

Engan á Ísa vengi
ýta neinn skal líta,
mjer sem að tregi meira
móður sótt og dauða.
Ekki mjer er það að þakka
angurs þó hrynji' um vanga
móðan, því átti' eg móður
mesta allra' og bezta.

---

### II.

Aptan við grafminning.

Kvenna skarpvitrust,
kvenna djúpsæust,
mætust húsfreyja,
móðir hin bezta,
leitaði' ei fordildar
á fundum manna

eða mærðar
af munna lofi,
heldur ágætis
með iðni' og dyggðum.

Mikilla manna
minning lifir,
gleymist góð kona.
Einn býr ógleyminn
ofar stjörnum
sá karla sköp og konur.

---

## UM FLJÓTSHLÍÐ.

(1828).

(1. útg. bls. 59.)

---

Á vori vænust meyja,
vafin öll í skart;
á sumri fríð húsfreyja,
flest hjá þjer er þarft;
á hausti blíð sem móðir mæt;
á vetri fegurst línklætt lík,
lífs og dauð ágæt.

---

## Brúðkaupskvæði

til Friðriks konungsefnis og Vilhelmínu Maríu 1828.

(1. útg. bls. 25—29.)

---

Gott er í ári,
glóir röðull,
fagurtjölduð Fróns
fjöllin grænvoðum,
frjófgir eru vellir,
fagrar unnir;
hlær allt heiðu mót
himinrjáfri.

Boðar blíða himins
og blómi jarðar
fögnuð Frónbúa,
fögnuð Eydana.
Svífur yfir fjöllum,
svífur yfir eyjum
gæfa fásjen
og gleði' alþjóðar.

Er nú frá Gimla
ofan stigin
hjálpvættur nýtust
Norðurlanda;

yfir þau breiðir
engilvængi
fegursti *fimmta*
Friðriks andi.

Lýsir í lopti
í landsuðurs áttu,
er sem á gullský
glói sunna,
það eru skrautskildir
Skjöldunga, fáðir,
ljónum merktir heiðblám,
og hjálmar roðnir.

Hver er hinn ítri,
er ofan svífur,
sá hinn stórvaxni,
stálklæddi seraf?
Falda Eystrasalts
unnir hvítu,
sem þær fornvini
fagni sínum.

Það er fjórði Kristján,
er færist nær
og brosir mót Friðriki fimmta.

Báðir samtaka
segja, nú Danmörk
giptist gæfu sinni.

Er knjerunnar tveir
kyns Skjöldunga
verða' að viði einum,
þars Friðrikur kvænist
Friðriks sjötta
dóttur dýrborinni.

Lítur svo Kristján,
konunga frægstur,
á brúði' og brúðguma,
bragði glöðu.
Svífur þá að skýi
og sverði bregður,
og skildi breiðum
skýlir Danmörku.

En Kristjánar, Friðrikar,
Knútar, Haraldar,
Valdimarar, og
Vittekind efstur
breiða' út arma
og biðja heilla
degi, dags sonum,
Danmörk, brúðhjónum.

Árna Friðrik sjötta,
að fá megi sjá
barnabörn
brúðar nýgefnrar,
og kveða vissan
veittan honum
æfi fegurstan
aptanroða.

Viti það lýðir,
að viss er hann boði
langra daga ljósra
fyrir Frónbúa,
fyrir Eydana
alda' og óborna.

Eyvindur, Sighvatur,
Arnór, Hallfreður,
festið á Austfjarða
fjöllum strengi,
felið svo enda
undir Horndröngum,
og Ossíans boga
um þá farið.

Kveykið þjer brúðar
blysin, norðurljós,

litum, þeim fegursta finnið.
Hertu þig, Geysir,
að þinn gleðivatnsstafur
mána væti varir.

---

## Um Kaprasíus.

(1. útg. bls. 194.)

---

Hornalausan hef jeg
    hafurinn á bænum,
    hagan höndum í;
gott þeim kaupið gef jeg
    geitabónda vænum;
    hafi' hann heill af því.
Að honum steðji allar landsins geitur,
af því svo hann verði' í geðinu teitur,
ætíð gæfan auki hans við reytur,
þó ösli hann um saurlífisins bleytur.

---

## Grafminning.

(1. útg. bls. 185.)

Getinn í pukri eins og allir,
aleinn í pukri fæðast vann,
í pukri saug og drakk úr dalli,
dafnaði' í pukri allvel hann,
kvæntist í pukri', í pukri dó,
í pukri liggur hjer með ró.

## Vísa.

(1. útg. bls. 190.)

Háar þjer móti hlæi
heiðar um norðurleiðir,
brosandi dyggðadísir
dugi þjer af alhuga,
fagur á skýi fögru
frægastur andinn standi
Hannesar, er þjer unni,
og yfir þjer glaður svífi.

## KLAUSAR VÍSUR.

(1. útg. bls. 198—206.)

---

### I.

*Kláusar boðorð.*

Þó að í heimi margur mann
á mörgu hreppi skaðann,
ellefta boðorð Kláus kann
og „kærir sig bölvaðan.“

---

### II.

Kláus karlinn gamli,
Kambs í leiru fæddur,
í landsynning þó svamli,
sjest hann aldrei mæddur,
og þó brjóti' og bramli
brimsjór stormi glæddur,
er hann óhræddur.

---

### III.

Kláus út í Kambsleir fór,
sneri skut,

aflinn hans var ekki stór,
einn í hlut.
Landsynninginn ljóta
svo fjekk,
seigt gekk;
slíkt tel jeg hrekk,
að þannig sveik hann sjór.

---

IV.

Kláus minn kallinn,
Kambs í leiru rær hann;
hefur upp hnallinn,
hákarlinn þá slær hann;
drekkur fullan dallinn,
dropann þegar fær hann;
lið oss opt ljær hann.

---

V.

Kláus fór í kolluleitir,
keifaði' út um tíu sveitir;
en karltetrið enga fann.
Sjerhver manna, hvað sem heitir,
hátt skal prísa' um flyðrureiti
þenna fræga fiskimann.

---

VI.

Kláus eitt sinn ketbein gleypti;
í kvalapulu það honum steypti,
í honum stóð það árin þrjú.
Uppskotu Bakkus á hann hleypti,
úr honum beinið kvillinn sneypti;
garna þar við bættist bú.

---

VII.

Kláus karlinn glaður
Kambs opt leiru sjer hann;
gegn og góðlundaður
gnóga skemmtun ljer hann;
margur þó sje maður
meiri' á lopti' en er hann,
fram úr þeim fer hann.

---

VIII.

Karlinum mínum Kláus tetri
kann jeg engan trúrri fá;
óska jeg lífs að entum vetri
auðnu hljóta megi' hann þá,
um Sviðið himna sankti Pjetri
sjálfum fái' að róa hjá.

---

IX.

Kláus sængur sviðið á
setti skut,
seggurinn fjekk af seiðum smá
sjö í hlut;
en um nóttina' öllum
:|: úr skut :|:
þeim hellti hlut.
Svo fór um sjóferð þá.

---

X.

Kláus karlskutur,
Kambs í leiru rær hann,
mikill hans er hlutur,
hreystilega slær hann;
í honum eru „þutur“,
en þá kollu fær hann,
hýrlega hlær hann.

---

XI.

Minn er Kláus manna beztur,
mætti' hann gjarna vera prestur,

á flestu kann að gjöra grein,
í slætti' og róðri rekka mestur;
rýrir hann þó einn lítill brestur,
að görnin hans er ei utan ein.

---

## XII.

Kláus fór með kút á baki,
karlinn sá hinn góði' og spaki,
ei varð ferðin ærið góð:
. . . . . . . . . .
. . . . . . . . . .
í fimmtán sveitum fældi stóð.

---

## XIII.

Kláus hákarl margan myrti,
um meinin þeirra lítið hirti,
saxið keyrði' hann í þá inn;
þeim, er sáu hann þetta gera,
þótti gamli karlinn vera
furðu lítið frændrækinn.

XIV.

Kláus minn varð kópabani;
karlsins það er ekki vani,
þó það skeði' í þetta sinn.
Það til bar á þessum vetri;
því að veslings kópatetrið
forðaðist ekki föður sinn.

---

XV.

Kláus minn í kryppunni situr,
karlinn sá er haldinn allvitur;
í honum er illviðra þytur;
ætíð er hann fallega litur.

---

XVI.

Á hann Kláus óværð sækir,
illvíg fló með sínum mækir
karlsins hjakkar hart í þjó.
Vel hann slátt og róður rækir,
þó renni' um búkinn svitalækir —
bezt hann unir samt við sjó.

---

XVII.

Kláus situr kamarinn fastan,
kaldan fær hann landnyrðing hastan.
Hann sat ungur Hamarinn fastan;
hjerna má enginn því lasta' hann.

---

XVIII.

Kláus minn er kolaður,
af kollusalla skolaður,
af hungri innan holaður
og hræðilega volaður
    í anda.

---

XIX.

Kláus gamli karlinn stirðnar;
kunni móti elli spirna
enn í heimi ekkert fólk.
Langstæð belja heitir Hyrna,
á hrygginn svört og fótlaus sirna,
úr henni þarf hann hafa mjólk.

---

## Þorkötluvísur.

(1. útg. bls. 206.)

---

I.

Á henni Kálu yglda brún
ærið margur sjer,
skemmilega skammaði' hún
Skutinn fyrir mjer.

II.

Katla mín kolfagtar,
Kláus prjedikar;
en hún samt ekki þar
aktar hans kenningar.

---

## Sigurðarvísur.

---

I.

Sigurður sjera
satans versti unginn,
mildingur mera,
miðlar öllu' í punginn,

kæsis koppur og smjera,
í klækjum verstu slunginn,
af ágirnd upp þrunginn.

Sigurður sjera
þó sje hann nefndur prestur,
þykir hann það ei vera
þeim, sem heyra' hans lestur,
kæsis kongur og smjera,
þeim, kynnast skyldi' hann beztur,
verður æ verstur.

---

II.

Á Vestmanneyjum björg ei-brestur,
býst jeg við að gjörast þar prestur
og sýslumaður sjálfur einn;
þar er fugl og fiskur nógur,
af fjenaði líka ærinn plógur,
en ærlegur maður ekki neinn.

---

III.

Geðið mitt er af gráti slakt,
góða menn hlýt jeg kveðja,
austan að dró mig myrkra makt
Melsteð að fræða' og gleðja;
enginn spornar við örlögum,
á jeg í svarta Flóanum
öndinni út að teðja.

---

IV.

Við Bakkann neðra býsnafast
í boðaföllum hlunkar,
en efra við það öldukast
í Ingólfsfjalli dunkar,
öll í Flóanum hristast hús,
herfilega þá geltir Dús,
en sjera Siggi krunkar.

---

V.

*Hljóðið úr Hruna.*

(1. útg. bls. 177.)

---

Hunda svefnláta heyrði' eg óm
hægt mjer að eyrum bruna;
en þá jeg hugði' að þessum hljóm
þá tók mig annað að gruna,
því austanfýlu umlið þar
úr úðalopti Flóa var
ei nema hljóð úr Hruna.

---

## Hvöt
til að stofna fjallvegafjelag.

Ort á afmælisdag Friðriks konungs sjötta, 28. jan. 1831.

(1. útg. bls. 29—30.)

---

Nýárið byrjar niflung senn,
sem Norðurjörð er kær;
gjörum nýtt eitthvað, góðir menn,
sem gagn ókomnum ljær,
:|: því allir vitum vær, :|:
sá iðni harrinn iðjuleysi hatar.

Að ryðja snjófgum björgum burt
og blómum þekja hraun,
í flóum gjöra fúnum þurt
og flaga lækna kaun,
:|: á vetri vond er raun, :|:
og gras úr urðum getum vjer ei skapað.

Að verki komast verður hver,
ef vinna nokkuð á;
en þegar gatan ófær er.
ekkert fram komast má;
:|: þörfin því öll er á, :|:
vegina fjalla vjer að ryðja látum.

Forfeðra sinna betra braut
og börnum vinna' í hag
minningar vorrar verður skraut
vorn eptir skapadag;
:|: vorn eptir verða dag :|:
legsteinar vorir vörður Ísafjalla.

Við konungs nýja óskum ár,
að opt hin gullna sól
á sjóla skíni silfurhár,
og sæmd hans konungs stól
:|: hefji við himinból, :|:
vor kongur lengi lifi, Friðrik sjötti.

———

## VETURINN.

(1. útg. bls. 13—16.)

---

Hver ríður svo geyst
á gullinbrúvu,
háfan of hifin,
hesti snjálitum,
hnálega hristanda
hrímgan makka,
eldi hreifanda
undan stálsköflum?

Glóir á gunnsnörpum
grásteind brynja,
hangir ísskjöldur
hal á öxlum;
vindur stendur svalur
af veifan skálmar,
norðljósa brúskur
bylgjar á hjálmi.

Hann er riðinn frá
heimum Miðnáttar,
aflbrunni alheims
og ótta munaðar;

mun ei vor una
nje vellyst þar aldri,
í Segulheimum,
á Segulfjöllum.

Elli hann ei kennir,
þó eldri sje heimi
og guði jafngamall;
lifa mun hann öllum
lengur veröldum
og of lík þeirra líða.

Afl vex því öfliga,
er hann það nálgast,
harðnar Fjörgyn
hans í faðmlögum;
hverfist í demant
dreyri hennar,
en grænló skikkju
gránar og hjaðnar.

Ei hinn ítursterki
afli þó beitir
magnlítil, grænlit við
moldarbörnin,

mjúklega svæfir,
svo megi ei finna
eymdir þau
ellidauða.

Kemur svo allur
og kreistir í sterka
jörðu járnarma
og jörðu kyssir;
verður hún þunguð
af þeim viðskiptum,
velur svo ljósmóður,
sem Vor nefnist.

Sagt er fyrir Vori
Vetur flýi;
hvergi þó hann flýr,
en færist ofar;
Vor skríður undir,
Vetrar er yfir
bringa breið,
um blálopt gnæfandi.

Aldrei hinn frægi þó
fjarlægist svo,

að hann heims
hjóláss sleppi
endum tveim,
eða yfirgefi
jarðar neitt,
það næst er himni.

Sjest því á
sumri miðju
fjalls á skrauthnúfum
skartið vetrar —
því vill ei heldur
þiðna á vori
himinhrím
á höfði' öldunga.

— - - —

## Í MARZ 1832.

(1. útg. bls. 134.)

Þú, sem fæðir fugla smá
og frelsar alla þína,
ljúfi drottinn, líttu á
litla eigu mína.

Hafi' eg engan fjenu flett
fátækan með vilja,
vanblessunar vítin þjett
við mig láttu skilja.

Þó mig kunni sigra sjást
syndin mörg, er freistar,
mjer þín aldrei miskunn brást,
mun jeg henni treysta.

---

## Guðrún Stephensen,

kona Magnúsar Stephensens konferenzráðs, † 1832.

(1. útg. bls. 118—120.)

---

Þá eik í stormi hrynur háa,
hamra því beltin skýra frá;
en þegar fjólan fellur bláa,
fallið það enginn heyra má,
en ilmur horfinn innir fyrst,
urtabyggðin hvers hefir misst.

Víst segja fáir hauðrið hrapa
húsfreyju góðrar viður lát;

en hverju venzlavinir tapa,
 vottinn má sjá á þeirra grát;
af döggu slíkri' á gröfum grær
góðrar minningar rósin skær.

Þessi mun rósin lengi' á leiði
 ljóma Guðrúnar Stephensen,
og brosa móti himinheiði,
 þars hennar dygðin bezt er sjen;
því frægðin þess er fegurst þar,
fordildarlaus í heimi var.

Færri und sólar finnast tjaldi,
 og fundizt sjaldan hafa þeir,
sem skylduverk við skatna haldi
 skyldu eintóma' og hvergi meir.
En góða það hún orkaði' allt
sem aðra vitaskuld hún galt.

Að hún hinn bezti maki og móðir
 og mætust hjúa fostjórn var,
það allar vissu Ísaþjóðir
 og undrast slíkt ei þurftu par;
því fyrri' en deyði faðir, grát
föðurs rjeð henni vekja lát.

Slíkar æ elska dætur dróttin —
og drottins höndu þolinmóð
kyssti' hún, þá hana þjáði sóttin,
því að samvizkan æ var góð;
foreldra ljóssins föður hjá
fagnaði hún að mega sjá.

Grátum ei kvenna sezta sólu,
sem eptir langan æfidag
heimaskilnaðar fjöllin fólu,
því fegri nú með betra hag
ljómar hún fyrir æðri öld,
hvar enginn lítur nokkurt kvöld.

Því líkið það, er lýðir skoða,
liðin frú Guðrún sjálf er ei,
eilífðarmorguns rjóð í roða
röðulhrein glansar engilmey,
og hvarmastjörnum helgri lyst
horfir tindrandi uppá Krist.

———— —

# Vísur til Odds Hjaltalíns.

## I.

(1. útg. bls. 173.)

Elskulegi Oddur minn,
andskotinn
bið jeg þín megi missa;
hlaðist um þig glóandi gull
og gæfan full,
svo heimur verði hissa;
öllum heillum hamingjan
í hverjum rann
yfir þig á að pissa.

## II.

Ein tunna mjels og áttatíu
af þeim, sem baðst að vöngum mín,
hangi í kippum níu' og níu,
á nef með önglum kræktar þín;
hákarlar munn þinn hiklaust á
hlaupi beinlínis upp úr sjá.

III.

(1. útg. bls. 170—171.)

Hamingjan feti
þjer hýrleit að fleti
og hvar þú vilt stá,
flýi þig leti,
og lífsýkis tetrið
æ læðist þjer frá;
á sumri' eða vetri,
ef leggur yfir lá,
lukkan þitt freti
í seglið þá.

Sjertu æ bokki
á sterkasta stokki
með stálsett nef,
en óláns ei hnokki
á armæðu rokki,
þig angri ei kvef;
en ánægjan brokki
með ilmsætum þef
hvar ertu í flokki
og syngi klámstef.

---

IV.

(1. útg. bls. 178.)

Heilög Jalapps hnipin situr rót,
emjar sáran *Ipecacuanha*,
„assan fúla“ beljar gleðivana:
„Hver á vorum hörmum ræður bót?“

Á stólpípu Æskulápur blæs,
endann mjórri' í munni sjer hann hefur,
megnisdrunum söng þann blaðran gefur:
„Mjer var sýnd, en ekki gefin, gæs.“

---

V.

(1. útg. bls. 169.)

Þó tungla teljir klasa,
er tindra' um himinbaug,
um getnaðarlimu grasa
og gastegundir í haug
vitir allt — ei varðar mig;
þann jeg kalla þekkja lítt,
er þekkir ei sjálfan sig.

---

## VI.

(1. útg. bls. 170.)

Oddur, sá blessunar broddur,
bryddur um munninn með snyddum,
gaddhörðum ruddastáls redda
raddar hann engan þó skaddar;
snuddandi næmt mjög hann nuddar
naddana sjúkra til kvaddur;
gla dur í sæmdum sje seyddur
og saddur æ hvar hann er staddur.

Gangandi leiðir um langar
lengi hann foldina dengi,
vanga með velturnar strangar
vengin með girðingum spengi,
stangi hann Merði og Manga,
mengið í „inntökum“ sprengi,
„bangi“ hann fanta og fanga,
flengi hann þjófa og hengi.

---

## VII.

(1. útg. bls. 171—172.)

Selur spikgóður,
af sundinu móður,

þjer sveimi í hlað,
hákarlinn óður
þjer heilsi sem bróður,
og hvar þú ferð að
lukkan æ bjóði
þjer baunir og spað
og breiði úr sjóði
á land þitt tað.

---

## VIII.

(1. úsg. bls. 174.)

Eldi Fúsi út blæs,
    Oddur kemur með brodd;
eisan þó ótt gjósi,
    Odds ei sljófgar það brodd.
Sig ef æsir illt gos,
    Oddur sýnir þá brodd;
ef þá skjótt ei af ljettir,
    Oddur stingur með brodd.

---

IX.

9. dag marzm. 1833.
(1. útg. bls. 174—175.)

Eg við brjef þitt, Oddur minn,
áðan gjörðist hvumsa;
þinn kvelur harmur svo mitt sinn,
senn er jeg orðinn klumsa.

Ekki þú með eigin hönd
orkaðir mjer að pára,
særa mig þín sálargrönd
sálar ofan í nára.

Kaldahlátur þykir þinn
þó ei fara illa,
er sem dauðs manns utan á kinn,
þá af er vangafylla.

Gott er þú ei gleymir mjer,
gamli aldavinur,
aldrei gleymi' eg aptur þjer,
allra sízt þá stynur.

Forlaganna hlærðu' und hníf,
hetju það er siður,
áfram stríddu æfi kíf,
ólán sneypist viður.

Veröld líkust einatt er
örgu hóruskassi,
vendi baki' hin vonda þjer
við henni snúðu rassi.

Af honum gefðu henni þefinn,
ef harmar að' þjer steypast,
þegar hún fær þetta í nefið
þá mun kerling sneypast.

Láttu drumba fúna fá
fljóta' í lukku glaumi,
lystugur brekku leitaðu' á,
sem lax á móti straumi.

- - ——

X.

(1. útg. bls. 172—173.)

Blessaður Broddur minn,
bætist þjer þorskurinn,
sællegur selurinn
og signaður hákarlinn.

Baunir og bolaspað
berist þjer grönum að;
allt þitt tífaldist tað,
túnið svo frjófgi það.

Vesturlands gjörvallt gor,
grámaga úldið slor,
upp þína fylli for,
feitin þjer drjúpi' í spor.

Fimbulmörg fiska nöfn,
feykileg reka söfn
berist að Bjarnarhöfn
blágræna yfir dröfn.

Þá endast æfi ról,
upp að *Minois* stól
gakktu á gráum kjól,
glansandi líkt og sól.

---

## Vísur.

(1. útg. bls. 176.)

---

Væri' eg bara orðinn áll
og með kroppinn mjóa,
smjúga skyldi heldur háll
hvern um leðjuflóa.

Í einum rykk ef yrði jeg
aptur að þvölum gandi,
kvalalaust minn kæmist veg
kaldur í brunasandi.

---

## Baldvin Einarsson.

† 9. febr. 1833.

(1. útg. bls. 50.)

Ísalands
óhamingju
verður allt að vopni,
eldur úr iðrum þess,
ár úr fjöllum
breiðum byggðum eyða.

---

# Magnús Stephensen.

† 17. marz 1833.

(1. útg. bls. 53—55.)

---

Fram brýzt þar á
fossandi gljúfra um leiðirnar mjóar,
jökuls úr gjá
greiðir sjer brautir og leitar til sjóar,
hrindir sjer frá
hverju því tálma sem má;
lýði við landbrotum óar.

Þýtur upp þar
þurrum af grundum hinn móbrúni reykur,
stormurinn snar
steypist úr mekki og slítur upp eikur;
með blástri hann bar
burt það á götu hans var;
hindranir hann sjer við leikur.

Engi mun á,
engi mun storminn, þó fram vilji, lasta;
kraptar oss hjá
keppast til þrautar við mótspyrnu fasta,
svo megum sjá
sjer ryðja tálmunum frá
menn þá, er miklu afkasta.

Frá lasti frí
fyrir það verður þó slíkur aldregi,
er það af því
annar sjer heimila götuna segir —
sem regn láti ský,
ryðst út það brjósti var í,
sje honum vikið úr vegi.

Optar þó sjest,
að öfundar halurinn seini þann skjóta,
hyggur það mest,
hinum að niðra, sjer vera til bóta,
finnur til flest,
fundið er getur hann verst,
og sparar ei lygina ljóta.

Svo mátti sjá
suma vorn frægasta Magnús að lasta,
sem aldregi á
af illu hið minnsta hann reyndi að kasta,
því honum fannst hjá,
helzt sem að vantaði þá,
iðnin og framkvæmdin fasta.

Ungur þá vann
erlendu staðanna fögru að vitja,

lán er þar fann
leizt honnm ólíkrar hegðunar nytjar,
henni með hann
hugði í föðurlands rann
Evrópu auðnuna' að flytja.

Átjánda hvað
öldin til helzta sjer gildisins taldi,
sjerhvað oss það
sem bezt hann kunni til notkunar valdi;
allvíst er, að
optlega' og mörgum í stað
kostgæfni' hans kom þar að haldi.

Öldin þá snýst,
aldarbörn heyra menn lasta þær þjóðir,
annað sem lízt
og þykja nýjari siðirnir góðir;
en neita má sízt,
nítjándu aldar að víst
átjánda öldin er móðir.

Honum fyr það
halirnir eldri fyr lastanir völdu
átjándu að
aðhyllti . . . . . . .

---

## Þórður Björnsson.

† 15. febr. 1834.

(1. útg. bls. 121—123.)

---

Nú er nótt
í Norðursýslu,
rann í dauðasæ
dagstjarna hennar,
er kansellíráð
konungs Þórður
fluttist til byggðar
forkláraðra.

Norðurland
með Norðursýslu
prýði horfinnar
harmar missi,
og sorgar slær
sorta yfir
Ísaland
ögrum skorið.

Allir hinir betri
Ísalands stjórar
samhuga sögðu hann
sjer snjallari;

glönsuðu gáfur
af guðdómsljósi,
hjarta bæði' og hendur
hreinar voru.

Fjónaði hann fje
fengið illa,
leið hann ei landsugur
nje lausingja;
ósiðum hann stökkti
og ójöfnuði,
en veitti lið
lítilmögnum.

Ef á Íslandi
öllu væri
hjeraðsstjórn slík
hans sem reyndist,
betri mundu hjú,
búar siðaðri,
og dyggðir með efnum
dafna í landi.

Víst kemur maður
manns í stað,
en ei jafningi jafnan.

þingeyinga auðna
er allra meiri,
ef þeim ljæst hans líki.

Býr nú hinn rjettláti
rjettlátum hjá,
og angurs enkis kennir;
en minning hans
mun æ vakin,
þá góðs er höfðingja getið.

---

## GUÐNÝ HÖGNADÓTTIR,

kona Arna stiptprófasts Helgasonar. † 1834.

(1. útg. bls. 123—125.)

---

Ei tekur andi
ódáins á landi
fegurð hjá holdi,
fyrnist það í moldu,
vjelum þar vilja
víst ei tjáir dylja
nje hálum svip hylja.

Alhreinn sá andi
anda fer í landið,
hylst ei af holdi,
sem hulið er í foldu,
ódulin skartar
öndin þar hin bjarta,
sem hjer falst í hjarta.

Guðnýjar andi
ódáins í landið
hreinn fór frá holdi,
hvílir það í foldu;
vildi' hún sinn vilja
vjelum aldrei dylja,
í lundu guðs lilja.

Æ sínum maka
elsku sýndi' hún staka,
öllum ráðhylli,
en í hússtjórn snilli,
mest hverjum manna
meinti' hún vera bannað
allt hið ósanna.

Óhulin því skartar
öndin hennar bjarta,

frelsuð frá holdi
földu nú í moldu,
er nú ung meyja,
aldrei sem mun deyja,
sú fyr var húsfreyja.

Hennar þó leiði
lækki skjótt og eyðist,
og hverfull heimur
hennar nafni gleymi,
ógleymt í anda
æ það bók mun standa
á landi' hins lifanda.

---

## SAMKVÆMISVÍSUR.

(1. útg. bls. 164.)

---

Ekki' er hollt að hafa ból
hefðar upp á jökultindi,
af því þar er ekkert skjól
uppi fyrir :|: frosti, snjó nje vindi. :|:

Kominn em eg hátt í hlíð,
hefðar þó mjög neðar tindi,
en þar golan ei er blíð
öðrum hlýrra :|: blæs í dalnum vindi. :|:

Því á enginn mjer til meins
maður virða, nema galinn,
þó mjer bregði eg að eins
ofan til leika :|: niðrí gleðidalinn. :|:

Skemmtið yður meður mjer
menn, sem búið í þeim dalnum,
stuttan tíma unnt mjer er
með yður leika :|: hjer á gleðisalnum. :|:

Ef hjer staddur einhver kann
okkur virða gleði' að meini,
lífs og dauður húki hann
hefðar freðinn :|: uppá Guðnasteini. :|:

## Brúðkaupsvísa

til Tómasar Sæmundssonar haustið 1834.

(1. útg. bls. 37—38.)

Kongsþrælar Íslenzkir aldregi vóru,
enn síður skrílþrælar, lyndi með tvenn,
en ætíð því hjeldu þá eiða, þeir sóru,
og ágætir þóttu því konungamenn.

Á mararnar vængjum þó erlendis flygju
og ungmeyja fegurstu liti þar sveit,
eða hjá fáksdrottnum fremdir í stigju,
við festarmey sína ei brugðu þeir heit.

þeirra til skipta þó lengi' yfir leiði
logn hafi svifið og stórviðri hjer,
öll með þeim trúmennskan eigi þó deyði,
enn því vor Tómas þó lifandi er.

Fór hann' um Valland og fór hann að Púli,
fór hann í Grikkland og Asíulönd,
þaðan til Englands og aptur að Túli,
ekki þó loforða sleit hann sín bönd.

Glaður hinn víðförli gleður nú dróttir,
glatt honum verður hans nýbyrjað stand;
því sólhreina trúmennskan, drottins sú dóttir,
dyggðauðugt vígði hans hjúskapar band.

Frá norðrinu streymir um mannheima magnið
Mjölnis úr segul í hendi á Þór;
hjá honum glansar þar gullnum í vagni
gyðjuleg trúmennskan, fögur og stór.

Vættir, sem syngið í föðurlands fossum,
fjallvættir snjóhreinar, öldur og grund,
tryggðanna fögru hjer blásið að blossum,
og blessið nú hjónanna sjerhverja stund.

---

## SOLVEIG BOGADÓTTIR,

kona Odds lyfsölumanns Thórarensens, † 7. marz 1835.

(1. útg. bls. 125—126.)

---

Nú fór vor Sólveig til sólar
um sæluhlið anda,
og reið um grindurnar gullnu
til Gimla kongs hallar;

þó fagurlagaðir limir
sje lagðir í moldu
og jörðu gæfi' hún jarðar,
í jörðu' er hún ekki.

Þó svo vjer sjeum frá henni
að samvistum skilin,
sízt hana náum vjer nálgast
á nábrautum harma,
tjár ei þess lifir í ljósi
að leita í myrkri,
nje þess hjá lifendum lifir
í landi dauðra.

Lítum heldur til hennar
heimkynnis rjetta,
og, sem daggdropar á blómstrum
dagkongi fagna,
eigum með öruggu skapi
mót árgeislum horfa,
á þeim, vor Sólveig, frá sólu
þú sendir oss kveðju.

---

## Vísa.

(1. útg. bls. 162.)

Mjer í kolli mjaðarpollar mjög vel tolla,
þá kollan holla kemur við bolla
kámugan skolla bið jeg drolla.

## Um Björn í Lundi.

Svíns er jafnan raustin rám,
rymur í drykkjuhundi,
heilagan jeg held hann Glám
hjá honum Birni' í Lundi.

## Aravísur.

I.

Administrator Arius
er eins og dromedarius,
vafer bæði' og varius
og versti secretarius.

II.

Er í norðri orðinn laus
íss og veðra skari;
ljáðu mjer þinn lönguhaus,
og líttu' í suðrið, Ari.

---

III.

Eg heyri sagt hann Ari minn
út sje flæmdur af ketti,
og muni bústað missa sinn
fyrir mjálm hans eitt og pretti;
sannast að lítil þúfa þar
þungu opt veldur hlassi;
eg vil hann kisu akti' ei par,
ei sje hann blauður trassi.
Sitji' hann á sínum rassi.

---

IV.

Í dag þá hátíð höldum vjer,
til heljar stje vor Ari,
með gelti' og urri hljóp upp hjer
hunda gjörvallur skari,

gneggjuðu merar, geldneytin
grátandi syrgja nafna sinn,
amen til asnar svari.
:|: Hana nú þá. :|:

---

V.

Ari kom aldins til hara,
Ara með brullaups var skarinn,
Ari með viprurnar vara
varirnar sparaði' ei parið;
þar heyrði amenað Ari,
Ari þá var svo sem barinn,
Ara varð ekkert til svara,
Ari þá bara var farinn.

Administrator Ari
mitt yndis-svaviolum,
hraustur signi hari
hold og diabolum,
himnakýr hann kari,
sinn kæra filiolum.
„Amen á Hólum.“

Administrator Ari
í æru dingli rólum,
hann þó hjeðan fari
heiðurs skrýddur kjólum,
minning hans æ hjari,
og hangi ofar sólum.
„Amen á Hólum.“

---

## VI.

Frá Munkaþverá maðkbitinn
Mels í flúði gerði,
Mels í gerði meljetinn
meina jeg hann verði.

---

## VII.

*Góðviðrið.*

(1. útg. bls. 196.)

---

Sannleikans vjer sjáum vott,
svo ei langt þarf fara,
á fjöllum öllum glansar gott
góðviðrið hans Ara.

Ei þarf gjöra að því spott,
allt mun betur fara,
senn í byggðum glansar gott
góðviðrið hans Ara.

Sumarfrostið sætt að kinnum
silkifingrum snarar,
meður gleði mætri finnum,
mjúkt er veðrið Ara.

---

## VIII.

### *Florilegium Arianum.*

(1. útg. bls. 197.)

---

„Framstóð“ maður forðum
„fyrir prótókolnum“
Gróðrareyri á;
mörgum mjúkum orðum
miðlaði' upp úr bolnum
„fölsku“ letri frá,
sáttmál hann „við svik upprjettað“ grunar,
seldi skjal „til forhörs viðheftunar“;
„afstóð rjetti, á burt tók“ og brunar,
„án að stanza“ fram að haga Dunar.

---

## IX.

Vasaði hann Vigfús
á varirnar Ara,
hnúa greiddi högg Jón
haraleg Ara,
Láfi með ljóðastaf
laraði' hann Ara,
en kvarna háði bak Björn
bara hans Ara.

Sprækir menn í spaugsleik
sparið hann Ara.
Sjáið ei að fer fjör
fjarandi Ara?
Beiti ýta sjer sveit,
svarið mun Ara:
Fjórum er ei fremd stór
að fara að Ara.

---

## Þórunn Bjarnadóttir,

móðursystir Bjarna, kona Sveins læknis Pálssonar.

† 11. apr. 1836.

(1. útg. bls. 127—128.)

---

Ertu nú sofnuð, mín systir,
þeim svefninum langa,
lágt niðrí húsinu hlýja,
þar heyrast ei stormar.
Vel hlífir þakið ið þykka,
þó þórdunur öskri,
ei skortir ylinn þar jafna,
þó efra sje frostið.

Vaknaðir opt þú um æfi
til áhyggju' og sorga;
víst er nú vænt til að hugsa
að vakna til leika,
aldrei sem enda með hryggðum,
hjá eilífðar börnum,
og upp til iðju að rísa,
sem aldrei mun lýja.

Blundaðu sætt nú, mín systir,
þú svafst aldrei lengi,
svefninn þar fjekkstu þann fyrstan
í fullkomnu næði.

Vel hlífir þakið ið þykka
á þrönghýsi grafar;
verði þjer vært þar í myrkri,
þú vaknar í ljósi.

---

## Jón Espólín.

† 1. ág. 1836.

(Sbr. 1. útg. bls. 126.)

---

Sálar höllu hárri,
er hrapaði rambyggð,
skilar hjer jörðu
Jón Espólín

—

Önd hans alkristna
ofar stjörnum
fögur og fölskvalaus
fann sinn elskhuga;
en lærdómsverk hans lengur
hjá lýðum vara
en grafletur á grjóti.

---

## Ísleifur Einarsson.

† 23. júlí 1836.

(1. útg. bls. 50—52.)

---

Nú er mæringur moldu falinn,
móðurjörð föl sem visið lauf;
sannkölluð hnje þar hetja' í valinn,
þá hýðið sjúka öndin rauf
Ísleifs, sem landi Ísa mest
unni þess sona flestra' og bezt.

Daprasta vitum Íslands árið,
útlent er þýið lýði sló;
æ mundi vansa svella sárið,
sem oss dugnaðarleysið hjó,
ef þess svartnættis einn af fám
ei væri' hann stjarna' á himni blám.

Í hjeraðs stýrslu ungur áður
ítrasta sýndi' hann vit og magn;
í framkvæmd bæði ör og gáður
ei honum nægðist pappírsgagn.
Minning í elsku æ mun hans
í ítrasta hluta Norðurlands.

Eins og hann þekki lesti, lesti,
og lasta iðgjöld þeim til fann,
svo þekkti' hann einnig bresti, bresti,
og blíðu með þá dæma vann,
en lögum hlýðinn, landi trúr
lagafarvegi vjek ei úr.

Því lýða vildi' hann gagn ei gefa,
að geta sjer með því heimskra lof,
slíkt taldi' hann, fyrir utan efa,
á eiði vera' og skyldu rof;
sá hann, við skálka miskunn mest
við menn er fróma grimmdin verst.

Aldraður hann hjá ungum glæddi
óskir að verða prýði stands,
og orðum vitrum einatt fræddi
efni stýrenda þessa lands;
mörgu þar sáði' hann, mörgu af því
mun þróast eitthvað landi í.

Einhver tryggasti vinur vinum,
í verki sýndi tryggð og dáð,
hreinn og einlægur öllum hinum,
aldrei gaf neinum Lokaráð;
sálarsterkasti, hjartahreinn,
hræddist drottin, en mann ei neinn.

Ísleifs má lengi Ísland sakna;
ef væru margir líkar hans,
dugnaður mundi' að vísu vakna
víða í byggðum þessa lands,
og færri sættast ýtar við
embættisleti' og stjórnleysið.

Þjer ungu menn, sem Ísajarðar
eruð framöld, og hennar börn,
þá lítið græna leiðið svarðar,
sem líks er Ísleifs hinsta vörn,
yfir því vinnið eiðinn þann,
að elska föðurláð sem hann.

---

## Bæn,

er Bjarni hafði endað 50. árið 30. des. 1836.

(1. útg. bls. 134—135.)

---

Lof sje þjer, guð, fyrir liðna æfi,
ljeða mótlætið eins og gæfu,
sem í fimmtíu aldurs ár
úthlutaði mjer hönd þín klár.

Mótlætið var þín miskunn bezta,
meðlætið einskær náðin mesta;
hvorstveggja þörf í heimi er,
hvorttveggja og þú veittir mjer.

Aldur veralda allra stendur,
eins og mannsins í þinni hendi;
mitt hið ókomna ára tal
allt þínum vilja falið skal.

Árin brúkaði' eg ei sem skyldi,
og ei svo vel sem þó jeg vildi;
gef þú að betur brúki' eg hjer
burtfarar til það eptir er.

Opt hinar liðnu aldir sáu,
að opt þú verkar stórt með smáu;
gef þú mjer, drottinn guð, jeg bið,
til góðs jeg sje þitt verkfærið.

Lát mig vel mínu stjórna standi
til styrktar mínu föðurlandi.
Minnstu þess, drottinn, miskunn í,
mennirnir fáir sinna því.

Varðveit þú, faðir, mig og mína,
á miskunn fel jeg oss alla þína;
gef oss lastvart að lifa hjer,
og loks í dýrð hjá sjálfum þjer.

---

## SVEITARLÝSING.

(1. útg. bls. 182.)

Veit jeg vænar sveitir,
hvar virðar þeygi stirðir
hvessa bakmælgi hvassa
og hlæjandi lýði rægja.
Enn þá kauða kenni' eg
í kirkju' á degi' óvirkum,
sárfúla sje og heyri' eg
sofendur guð að lofa.

---

## EYJAFJÖRÐUR.

Er hann Eyjafjörður
eitrað skammabæli,
margur finnst þar Mörður
menn, sem fróma tæli,

vítis kvalavörður
varnar slíkum hæli,
um vist þó væli.

Lygar bæði' og losti,
lymska, fals og rógur,
rembilæti' og rosti
reynast mun þar nógur;
fleiri frægðar kosti
í flárri sjaldan róu
dratthalar drógu.

---

## VÍSUR.

### I.

(1. útg. bls. 182.)

Mjórómaður einn úr austri,
austanvinds á skjótu flaustri,
hundaskrækur hingað berst;
en hafi rakkinn rothögg þegið,
reiðumst ei þó skræki greyið;
„argur er sá sem engu verst.“

---

II.

(1. útg. bls. 183.)

Ríkir suður í Reykjavík
rekkar sjampanje drekka;
en skyrblöndupúns í Skjaldarvík
skjótt gjörir hreifa rekka.

---

## Vísur um sjálfan sig.

(1. útg. bls. 191—192.)

---

I.

Ei jeg þori' að kjamta nje kvika,
við kæti alla verð jeg að hika,
hvorki má jeg daðra nje dika,
svo dagur hver er langur sem vika.

---

II.

Aleinn drekk jeg, aldrei gef jeg
einn víndropa hjúum mín;
sjálfur fullur sið þann hef jeg,
svo þau verði' ei drykkjusvín.

---

III.

Þá líkami' ei lengur þyngir,
líð jeg yfir ský,
og strax á stórum hringi
stend þá *Saturni*,
lít svo *Jovis* ljóma fjöll,
og glaður flýg í gullnri sól
um geislaloptin öll.

---

IV.

Sama staka öðruvísi.

Kátlega held jeg klingi,
þá kemst jeg yfir ský,
og eins og hrafn á hringi
hoppa *Saturni*,
smýg hans beltin út og inn,
síðan Úrans finna fæ
fimbulveturinn.

---

## V.

Þegar sverðsumgjörð Bjarna losnaði.

Hallfreður jeg enginn er,
og ei mun heldur verða,
illa vill þó auðnast mjer
umgjörð minna sverða.

---

## Vísa.

(1. útg. bls. 183.)

---

Hætt er fara' að hitta,
hríð í norðan stríðri,
með losta', en ekki ástum,
Eyjafjarðar meyjar.
Villast vífnir kallar
hjá völlum Möðru allir;
svífur þar Loptur í lopti,
og land ver ógnar brandi.

---

## Kysstu mig.

(1. útg. bls. 148.)

— —

Kysstu mig, hin mjúka mær,
þú ert sjúk,
kysstu mig, hin mjúka mær,
því þú deyr.
Glaður drekk jeg dauða
:|: úr rós :|:
á vörum þín,
því skálin er svo skær.

---

## Kysstu mig aptur.

(1. útg. bls. 148—149.)

- —-

Undrast þú ekki, mín Svava,
þó ei nema' á stangli
orð fái' eg eitt í senn flutt af
andþrengslum megnum —
og að þig aptur jeg nálgast,
þó áðan við kysstumst;
ýttu mjer ekki samt frá þjer,
jeg á nokkuð hjá þjer.

Manstu ei, að munir okkrir
þá mættust í dyrum?
Sála mín þá, mín Svava,
þjer settist á varir.
þóttist hún rík, þar á rósa
þeim rauða beð lá hún;
enn þar hún dottar í dái
og dreymir þig, Svava.

Veizt þú nú, líf mitt, hin ljúfa,
þjer liggur á vörum;
leyfðu', að það sofanda sjúgi' eg
úr sólfagra beðnum;
láttu ei bana mig bíða,
jeg bið þig, mín Svava;
gefðu mjer önd mína aptur
og aptur mig kysstu.

---

## FREYJUKETTIRNIR.

(1. útg. bls. 157—158.)

---

þú, sem kærleika kveykir magn,
kvöldstjörnu drottning hýr,
þinn geislaríka gullinvagn,

þar glansandi þú býr,
:|: fegurstu draga dýr, :|:
þeir sættmalandi, mjallahvítu kettir.

Ei draga þeir þó ætíð vagn
hjá ástar blíðri dís,
af þeim sjer meira gaman og gagn
hin gullinhærða kýs,
:|: þeir veiða menn, ei mýs, :|:
og optast sendir út hún þá til veiða.

Heims katta temja hnykki sjer
himindýr veiðum á,
launsátra þeirra listin er
þó langtum æðri' að sjá;
:|: þeir meyjum hýrast hjá :|:
og undir þeirra augnasteinum liggja.

Þó frá launsátri löngum því
þeir læsi margan hal,
sig þessum veiðum sjálfir í
þeir sýna kattaval,
:|: blíðir með mjúkast mal :|:
þeir særa ei neinn, er sjálfur vill það eigi.

Því mann þeir stökkva engan á,
sem ei þeim horfir mót,

í augun þjóta augum frá,
og annað snerta' ei hót;
:|: líttu' ekki' í augu' á snót, :|:
því kettir Freyju kúra þar undir steinum.

Þó færri geti halir um heim
til hróss það talið sjer,
að komizt hafi frá köttum þeim
klaklaust og ósárer,
:|: það minnkun ætíð er :|:
úr manni' að gjörast músin Freyjukatta.

---

## VÍSA.

(1. útg. bls. 176.)

„Aldrei skal brúka' á hausti hest,
heylaus er betra að vera,"
mikinn jeg heyrði' í „pastri" prest
prúðan þann „sermón" gera.
„Okkur dónunum annað lízt"
austan þá mælti vjeri,
„heylausir viljum verða sízt,
viljum heldur að meri
sinn forða sjerhver beri."

## VETRARKOMA 1887.

(1. útg. bls. 60.)

Núna galla
grófan kalla
gjöf það má
nýtri allri Njarðar á,
er byggð og fjalla
bustir allar
byrgjast undir snjá
viku vetri frá.

## STJÖRNUSKOÐARINN.

(1. útg. bls. 159.)

Blástjarnan þó skarti skær,
hún skal ei framar pína
sjón mína;
því aðrar fegri eru tvær,
er mjer tindra miklu nær
og undir Svövu augnabrúnum skína.

## Lausavísur.

### I.

(1. útg. bls. 177.)

Fjórða boðorðið öfugt er
orðið á þessum tíðum,
börnin og hjúin heiðra ber,
hreint jeg prjedika lýðum.

---

### II.

(1. útg. bls. 180.)

Jústizkassinn nælir nóg,
nú hans þyngist pyngja;
hygg jeg hann mestan hafi plóg
af holdi Norðlendinga.

---

### Bjarni kvað:

Margur heimsins girnist glys
og gálaust eptirlæti.

*Bólu-Hjálmar svaraði:*

Hæg er leið til helvítis,
það hallar undan fæti.

BJARNI KVAÐ:

Vondir menn með vjela þras
að vinum drottins gjöra brigzl.

*Bólu-Hjálmar svaraði*:

Kristur stóð fyrir Kaífas,
klögumálin ganga' á víxl.

---

## ANKÍSESVÍSUR.

### I.

(1. útg. bls. 194—195.)

Ankíses minn ungur
óð um fylkingar,
gegnum kletta' og klungur,
keldur og móðurnar;
á báðar hendur barði
brynju' og skildi' í tvennt,
sprækleik engan sparði,
spjót og turníment;
æfur á velli undir hjálm
ærið hnellinn reiddi skálm.
Nú í elli syngur hann sálm
og sanna trú fær kennt.

II.

Ankíses bar ungur
ægishjálm og skjöld;
en, þegar L o f n a r þungu
þáði' í elli gjöld,
hjálmi' og sverði kastaði' í krók —
í þess stað á sig maðurinn mær
mýtur og bagal tók.

---

III.

Sargar, gargar sjera Björn
síðum leiðum móti;
en Ankíses minn yfir Tjörn
ælir leiri' og sóti.

---

## VITNISBURÐUR,

sem Bjarni gaf R. M. Ólsen á brúðkaupsdegi hans.
(Tímarit hins ísl. bókmfjel. I, 270—71.)

---

Vitnisburð gefa' úr vist þeim fer
vor skipa lögin nú —

við Magnús fullnægt ei þeim er;
orsökin þess er sú,
langt heldur en sem hjú
sá maður reyndist minn sem væri' hann sonur.



„Hann nú að gefa' er heldur seint,
þá heilt er liðið ár,“
svo margur kann að geta greint,
ef geðið öfugt stár;
en jeg hygg af því skár,
að bjóða honum brúðkaups hann á degi.

Hann er svoleiðis, heyri menn,
hreinn bæði' í geði' og sið
hann Magnús var, já, er víst enn;
elskulegt dagfarið;
víkingur pennann við,
og tröllaukinn á túni bæði' og engi.

Á ferðalögum ætíð mest
mitt yndi Magnús var;
sitt glaðlyndi og fjörið fest
við forsjá sýndi' hann þar;
hann ergði' ei annað par,
en mjer ef sá hann móti eitthvað ganga.

Að slíka ætíð hylli hann
af hjúum reyni sín,
og ást með dugnað arðsaman,
óskin sú heil er mín.
Alt þar til æfin dvín
verði' honum hjú sem var hann mjer æ sjálfur.

Miðfjarðarhölda hræðusveit
jeg heyri nefna víst;
en góðra hræða víst jeg veit
að verður Magnús sízt;
en ekkert illt mjer lízt,
þó fúlmenna og fanta verði' hann hræða.

Miðfjarðar bið jeg vættir vel
þeim vaska taki svein.
Hjúskap og búskap hýrt með þel
hans reki frá öll mein,
og hjálpi hver og ein,
að búi' hann sem á Bjargi Hærulangur.

---

## Staka.

(1. útg. bls. 82.)

---

Eins og hún *Psyche* fögur flýgur
fúnum mót sól úr lyrfu ham,
úr líki köldu öndin stígur
að varmageislum drottins fram,
líkið þó sjáum sjest hún ei,
sjálf er hún nýfædd himinmey.

---

## Vísa.

Ort 1838, í seinasta sinn sem Bjarni reið yfir Rangárvöllu.

(1. útg. bls. 59.)

---

Hlíðar bláu bólstrarner
beint í lopt sig hringa —
í hinsta sinni heilsa' eg þjer,
himinn Rangæinga.

---

## Um sjera Vigfús Reykdal.

I.

Vigfús prestur prúði
prýðilegur í tali,
heimsins Leppalúði
lofgjörð honum gali,
helga Hölgabrúði
hann um eilífð fali.
Punctum finale.

II.

Í huga mínum jeg hrelldur er,
að hjeðan verð burt fara,
að yfirgefa' er angur mjer
eyfirzkan meyjaskara,
angraður kveð jeg amtmanninn
og allan „Gáfu" söfnuðinn,
en hryggastur herra Ara.

## TYRKJAVELDI ÁRIÐ 1839.

(1. útg. bls. 139—140.)

Stambúls yfir höllum hám
    himin sje jeg grána
og Mahóms upp á brautum blám
    blikna' hinn gamla mána.

Í Ósmanns heyri' eg háu fast
    hriktir fimbulporti,
stökkva lamir, stólpinn brast,
    steypist á það sorti.

Í dauða Mamúðs hreystihvats
    hjálmum stálfaldaðar
örlagadísir Amúrats
    ættar felldu jaðar.

Hróður Tyrkja hersins fyr
    hærra gnæfði fjöllum,
nú hann vansa kæfður kyr
    kúrir á Evfrats völlum.

Geymdir voru okkar öld
    undra hlutir slíkir,
að á henni skyldi eiga kvöld
    Ósmanns kyn og ríki.

Eptir lifir mannorð mætt,
mun í ljóma standa
á söguhimni Ósmanns ætt,
eins og vígabrandar.

---

## Staka.

(1. útg. bls. 178.)

Ávaxtarins Ámu skauts
ei skal sæmdum hagga;
skíri' eg hann í nafni nauts
og nefni sveininn Kagga.

---

## Suða fyrir eyrum.

(1. útg. bls. 136.)

Klingir mjer fyrir eyrum ómur
eilífðar Líkabangar róms,
svo mjer virðist, að sje það hljómur
samhringingar til mikla dóms;
nú er eins og hann færist fjær —
hann færist kannske aptur nær.

---

## ÍSLENDINGABÆN
fyrir Kristjáni konungi áttunda, ort 1840.

(1. útg. bls. 30—31.)

---

Guð blessi Kristján kong,
guð blessi hinn vitra kong,
guð blessi gram.
Ágætan öðling, þann
alþing oss gefa vann, —
efli guð ætíð hann
í aldir fram.

Óvinum erlendum,
innlendum varmennum,
frelsi hann frá.
Yfir hans auðnu' og völd
ætíð þinn breið þú skjöld,
vondra svo vjelin köld
velti fram hjá.

## Sveinn Pálsson.

† 1840.

(1. útg. bls. 128—129.)

---

„Eins eru skýin sem áður“,
  í elli þú mæltir,
þegar bölheimur brigðull
  baki' að þjer sneri.
Andi sveif þinn hið efra,
  það efra' honum móti
hýrlega hló og benti
  til heimkynna rjettra.

Eins voru blómin sem áður
  í augum þjer, frændi,
þá hneit þjer hjarta ið næsta
  hjörinn forlaga —
brotnuðu boðar mótlætis
  á baki þjer sjálfir;
en seggir sáu þig standa
  hinn sama og áður.

Frjáls þinn og auðugur andi
  sjer átti og nýtti
álfaslot hverjum í hamri
  og hægindi' í skýjum,

búgarð hvers í blómsturs
bikari miðjum,
og hvern til viðtals sjer valdi
af vitringum liðnum.

Örlaga örvar því náðu
þig aldrei að fella,
að undanfæri þinn andi
ætíð sjer hafði;
var hann að leikum með liðnum,
eða ljósálfum muna,
harmanornir þá heima
hann hugðu að finna.

Bautastein Bjarna þú reistir
og bautastein Jóni,
sjálfum þjer settir þú varða,
er seint munu falla.
Barna vor börn munu lofa
blómstrin þíns penna,
og margir leita þess leiðis,
hvar liggur Sveinn Pálsson.

———————

## GRAFMINNING,

eptir Jón og Bjarna sonu Magnúsar Ólsens umboðsmanns.

(1. útg. bls. 133.)

---

I.

Hjer þó að jörðin hylji sveina
holdið andanna' og smáu bein,
sálirnar ungu' á himnum hreinar
hvílast, fríar við allkyns mein.
Fornvinur barna, Kristur kær,
knjesetti' og tók til fósturs þær.

II.

Engan of snemma
hinn alvitri kallar,
sá ungur andast
er ungur fullorðinn.

---

## ODDUR HJALTALÍN.

† 1840.

(1. útg. bls. 130—133.)

---

Enginn ámælir
þeim undir björgum
liggur lifandi
með limu brotna,

og hraunöxum
holdi söxuðu,
að ei hann æpir
eptir nótum.

Undrist enginn
upp þó vaxi
kvistir kynlegir,
þá koma úr jörðu
harma funa
hitaðri' að neðan
og ofan vökvaðri
eldregni tára.

Ámæli því enginn
Oddi Hjaltalín,
orð þó hermdi hann
er hneixluðu suma,
það voru frostrósir
feigðarkulda,
harmahlátrar
og helblómstur.

Því allt frá æsku
ætíð honum

heims sig hamingja
hverfula sýndi;
fátækt honum fylgdi
á fundi alla,
en harmar hans biðu
heima optast.

Konungs hafði hann hjarta
með kotungs efnum,
á líkn við fátæka
fátækt sína' ól;
öðrum varð hann gæfa
ei sjer sjálfum,
og hjálpaði sjúkur
til heilsu öðrum.

Önd hans þó var auðug —
og þegar harma
björg og vanheilsu
á brjósti' honum lágu,
brauzt hún undan fargi
og bjó í skyndi
skrípitröll, skjaldmeyjar
og skóga hugmynda.

Harma þá um stund
hennar glöptu

þær enar kátlegu
kynjamyndir.
Aðra þær hneixluðu,
en Oddur byggði
sjer þar hlátraheim,
þá heimur grætti.

þegir nú Oddur,
en augun liðnu
eptir öndu
í eilífð stara;
hún þar heim
hefir slíkan,
að betri ei
sjer byggja þarf.

En þú, sem undan
æfistraumi
flýtur sofandi
að feigðar ósi,
lastaðu' ei laxinn,
sem leitar móti
straumi sterklega
og stiklar fossa.

---

## VERS.

(1. útg. bls. 83.)

---

Ó vors Kristí andlits bjarta
ítri skugginn, fagra sól,
þá í austri skært þitt skartar
skrauti vafða geislahjól,
og á morgnum unnum frá
upp þig rísa fáum sjá,
Krists upprisu á skal minna
endurrisan geisla þinna.

---

## BÆN.

(1. útg. bls. 85–86.)

---

Af feigðarheima fjöllum snæs
í míns hjarta
innstu parta
eilífs dauða andinn blæs —

Helfrosið svo það af því er;
þó á það skíni,
ei á því hrína
guðdóms sólar geislarner.

Önnur finnst þess engin bót
grimmu grandi
en guðs að andi
anda dauðans andi mót.

Sendu því, drottinn, sjálfur þann,
er vötnum yfir
áður sveif og
fjörvi veröld frjófga vann.

Helgidómssólin helís þá
björt mun vinna,
en burt hann renna
í iðrunarlækinn öndu frá.

Og himinsáðu þróast þar
dyggðablóm
í björtum ljóma,
áður dauðans ís er var.

---

## VÍSA.

(1. útg. bls. 83.)

---

Stari' eg fram,
stari' eg forgefins;
hvað er á leið
fyr leiti framan?
Af ber leiti', og
allt eins dagur
í dag ljómandi
af degi á morgun.

---

## VIÐVÖRUN.

(1. útg. bls. 84.)

---

Maður, því horfirðu fram? — Jeg lít eptir veginum fremri. —
Maður, horfðu þjer nær, liggur í götunni steinn.

---

## VÍSA,

sem Bjarni orti, er illa lá á honum og hann gekk með sjó fram.

(1. útg. bls. 84.)

Sker hefur skrapið í firði,
skrapir heims um aldur,
en þess bringa brýtur
boða nú sem áður.
Minnkun er manni' að vera
minni kletti dauðum,
og brjóst sitt bilast láta
af boðum mótlætis.

---

## TIL FINNS MAGNÚSSONAR.

(1. útg. bls. 141.)

Haraldur frægi Hilditönn
sigri og fjörvi frá
felldist Brávöllum á.

Nú yfir höfin saga sönn
flaug, að minn Finnur þar
frægur sigrari var.

Rúna stóð þar á hellum her,
lærðra sem firrti fjöld
frægðum um marga öld.

Að honum aleinn Finnur fer,
og hulinhjálminn frá
hverri sleit rúnu þá.

Heill sje þjer, Mímir Magnússon,
rúnir sem Rögnahropts
rjeðir með vizku opt.

Föðurlands ástin, frægð og von,
lánist þjer langa tíð
lukkan og gleðin blíð.

---

## ALÞINGISVÍSUR.

Ortar sumarið 1841 í Reykjavík.

(1. útg. bls. 56.)

---

Þú, sem fyrir skemmstu
skauzt úr hýði,
er fótum horfir
að fjöllum Eyja,

taktu þjer orlof
hjá týri gimla
og auktu afl
alþingis vini.

Hans undir rætur
hverfðu tungu,
svo megi' hann mæla
af megni þínu,
að slóðir áa
hinir yngri virði,
að rísi þjóðarþing
á þingvelli.

---

### Til konu minnar.
1841.
(1. útg. bls. 136—137.)

---

Elskan mín, þú ekkert sinn
af því þarft að kvíða,
þó lítir í blundi Bjarna þinn
bleikum hesti ríða.

Víst þú heyrðir einatt á
orðum sumra gauða,
að bleiki liturinn brögnum hjá
bráðan merki dauða.

Ef satt er þetta, sje jeg víst
segja má við kauða:
að dauðinn ríði segg þeim sízt,
er sjálfur ríður dauða.

Ef þú líka lítur á,
að litinn sýndi draumur
á Stormi mínum, sem má sjá,
svo er hann varla aumur.

Því jeg hygg að viti víst
vitur og heimskur lýður,
að í förum seinn er sízt
sá er Stormi ríður.

---

## Nóttin.

(1. útg. bls. 10—11.)

---

Sje jeg að sól er
sigin í æginn,
get jeg neinn jarðhlut
greint frá öðrum;
viðverandi allt
víkur mjer úr sýn,
líta verð jeg í auðn
umliðnu fyllta.

Er þar allt ómerkt,
ómerkjanlegt;
skína smáblettir
og skína fagurt.
það eru merkismenn
til moldar hnignir,
sem blika' af himni
á buri sína.

Hver er meyjar ásýnd,
er svo mjúkt lygnir augum
og mænir þeim á smáblys,
er á móti blakta?

það er hún Saga,
er seggja minning
sjálf gefur næring
og nærist á.

Fagurt þjóta vendir
fjöllitaðir,
og bera bragandi
blossa of himin;
þeysir þar heiður
harra frá norðri;
þaðan bera nafn
norðurljósin.

---

## Reiðvísa.

(1. útg. bls. 35—36.)

---

Sveinar íslenzkir, sitjum hjer,
samt áfram þjótum teitir vjer
sveittum á jórum,
stikandi stórum,
storð, er upp ól þá og oss;

fjöllin blá af fögrum tind.
færa burt ský, og hýra mynd
hnarreist oss sýna,
og heilsun vinum
hermir í gljúfri hinn dynjandi foss.

Brosir oss mót hin græna grund,
glymur í vötnum sama mund,
er sem þau vilji
oss um þylja
aldnar sögur köppum frá.
Sjáið þjer, lopt og hauðrið hlær,
heimkynnum vorum færumst nær.
Gott er að ríða
um foldu fríða
fákum vökrum á og á.

Ísland, vort fagra föðurland,
um fjöll þín og dali, strönd og sand
blessunin frævist,
um aldur og æfi
auðna vaxi barna þín.
Hver þinn sonur, hvar hann fer,
hafi þig æ í minni sjer;
óskar hann bein
að bera seinast
í barmi þjer, þá æfin dvín.

## Vísa.

(1. útg. bls. 86.)

---

Harðan mótvind að hreppa
hart er, meðan það stendur á;
samt vil jeg síður sleppa
sæluhöfn góðri', en meðbyr fá,
er mig ber til illra staða;
auðnan ljer þá tóman skaða; —
hnaukið er, sem hvíldina gjörir glaða.

---

## Vísa.

(1. útg. bls. 86.)

---

Einn á báti útí hafi
eg sit hjer við norðurpól,
mín vill kænan mara í kafi,
megn er straumur, engin sól;
en á bátnum ekkert brast;
ef jeg sæki róðurinn fast,
faðir storma forðar grandi
og fleytir öllu heilu' að landi.

---

## Um mótstöðu manna.

(1. útg. bls. 138.)

---

Stímabrak er í straumi,
stend jeg þar undir hendur,
boðar um báðar síður
og brjóst mjer hnellnir skella,
á tæpu veð jeg vaði,
vefst mjer grjót fyrir fótum;
klýf jeg samt strauminn kræfur
og kemst án grands að landi.

---

## Herferð til Spánar.

(1. útg. bls. 138—139.)

---

Um suðurhimin dregur dreyr'
í dauðaþrungnum flókum;
benrögn feykja þykja þeir,
þungt á röndum dynur geir.

Valski flýgur austan örn,
enski pardus vestan,
brátt að Spánar blóðgri tjörn,
bráð að fylla svanga görn.

Að horskum pardus hænist þá
harða ljónið Spánar,
bíta fótinn arnar á
og hann reka landi frá.

Hertar stáli hvessir klær
í huga örninn prúður;
þýin bæði þar með slær,
þegar hann Spáni aptur nær.

---

## Kvæðisbrot.

Guð sendi' oss góðan kóng,
gunnfrægan Friðrik kóng,
guð blessi gram,
og ætíð efli þann
ágæta konungmann
stælandi styrkan hann
styrkleikans ham.

Hvervetna' af land og lög
legg, guð, þín reiðarslög
honum í hönd.

Eins og þú ofri' hann þeim
illum til skelks um heim,
en friði' og fögrum seim
frjófgi sín lönd.

---

## STAKA.

(1. útg. bls. 142.)

---

Ungum áður söngvar
Áslaugar furðu svásrar
og Loðbrókar ljóðin
læstust mjer hjarta' ið næsta.
Enn mjer er, þá sunnan
ár á vori blærinn
reisir úr náttdöf rósir,
Ragnar sem andi handan.

---

## Karlagrobb.

(1. útg. bls. 142—143.)

---

Ungur þótti eg með söng
yndi vekja' í sveina glaumi,
en öllum nú finnst æfin löng,
þá í þeir heyra :|: drynja gömlum raumi. :|:

Ungir syngja ýtar ný
óðarlög með flugi og köfum,
en höldi glymja öldnum í
eintóm hljóð úr :|: forfeðranna gröfum. :|:

Ungur syng þú, mest sem mátt,
meðan hljóðin fagurt gjalla;
brátt því hætta' í elli átt,
áður en lýðir :|: söng þinn náhljóð kalla. :|:

## Vestanvindurinn.

(1. útg. bls. 153—154.)

---

Þú, sem, þegar vorar,
þínum hlýja anda
hlíðar steini studdra
storðar ísa fjalla
hrímþaki sviptir hörðu
og hjúpi grænum sveipar,
hefirðu, Vestanvindur,
viðurtal okkar munað?

Hefirðu' of hafið spánska
heitan munað mjer færa
kossinn kæru minnar
kinnrjóðrar, er þú hjezt mjer?

Sótta' eg koss þinnar kæru
kinnrjóðrar, er jeg hjet þjer,
bar jeg hann blár yfir unnir
hið bjarta lopt í gegnum,
þó máttu því ei reiðast,
að þjer hann fært getkat.

Því jeg leit í lundi
lilju fagra' í myrgin

bleiku höfði halla
til helfarar snúna,
blaðfögur mig beiddi
að bjarga fjörvi sínu;
gleymdi' eg gefnu heiti,
og gaf henni kossinn.

Færðist líf í liðna,
svo lypti upp höfði
við ylsending ástar
og uppá mig brosti.
Þýð má þakka lífið
þinnar meyjar kossi.

---

## LANGLOKA.

(1. útg. bls. 150—151.)

---

Leit jeg í lundinum
ljúfasta' af sprundunum;
bar sú af rósunum
blíðust af drósunum;
hvarma frá ljósunum
hreinasti ástloginn ljúflega skein.

Á engri af kvinnunum
eg sá á kinnunum
roðann svo glansandi,
sem gljáðu dansandi
morgunský kransandi
döglings und daggrósum
á sólfáðum álfsvein.
Hún mun mjer ein
í minni hrein;
tíðin mun sein
að mýkja það mein,
sem mjer gegn merg og bein
margstungið af ástarflein,
er sætri flaug frá augum
á silkirein.

---

## Einlífi.

(1. útg. bls. 155.)

---

þreyi jeg lengi,
að Lofnar mey engi
vill ljá mjer sinn huga;

eyðist mjer gengi
og ununar fengi,
því ekkert vill duga;
forgefins strengi
jeg fiðlunnar dengi,
mitt fálæti' að buga.
Svo forðum mengi
Miðgarðs á vengi
mókti þrjá tuga.

Menn þegar ganga
um leiðina langa
frá landnorðurs slóðum,
mig fer að langa
að mætti jeg fanga
miða frá fljóðum;
hryggðin þá stranga
mig hart slær á vanga,
er höldum frá góðum
tómhentur spranga
má, kots líkur kranga,
með kinnum skammrjóðum.

---

## KONULEYSI.

(1. útg. bls. 156.)

---

Gott er til grafar
ganga einn saman,
yfir henni enginn
augu þá vætir.
Græturat ekkja
ókvæntan ver,
börn trega aldrei
barnlausan hal.

Ef mjer ei vilja
ástir ljá
meyjar mjúkhentar,
nje mig við hjala,
unna mjer aptur
ýtar hugdjarfir,
og kappar vitrir
mig kveðja' að rúnum.

Kvíði' eg ei dauða,
konulaus maður;
vesall verður enginn,
þó við jeg skilji.

Hlægir mig að ganga
geigvænu, myrku
dyrnar að
degi kvöldlausum.

---

## Drykkjuvísa.

(1. útg. bls. 163.)

---

Gamall mjöður gleður þjóð,
ginnir hann vatn af tönnum,
geðjast allvel gómaslóð
og gisnum kverkarönnum,
vekur líf og veitir móð
vesölustu mönnum,
inn þá borinn er á bjóð
í gullbúnum könnum.

Ólgar blóð, og unun vjer
ágætustu föngum,
þá ölhreifur ýta hver
ympra ná'r á söngum.
Klappar sjerhver sverðagrjer
svörtum flösku vöngum,
og biður að megi miðlast sjer
mjöður úr tappa göngum.

Mætri enga mey jeg sá
mínu flösku tetri;
þá ægisheimi eygra' eg frá,
að entum lífsins vetri,
skulu haug minn skatnar á
skrifa gullnu letri:
„flöskustút hjelt seggur sá
svanna vörum betri.“

---

## DRYKKJUVÍSUR.

### I.

(1. útg. bls. 159.)

Fer jeg úr landi, Freyja, þín —
flaskan er
betri mjer,
makt þín bindur ei milli sín
meira' en tvo;
en þrjátíu' og þaðan af fleiri
þýður Bakkus í vinskapinn keyrir.

II.

(1. útg. bls. 160.)

Bakkus blíðlundaður
að bræðrum gjörir tíu,
átján, eða hundrað,
og þó fleiri væru;
þó heiptspjótum hefði
hver að öðrum snúið
harra, þá vætir varir
vínið, reiðin dvínar.

---

III.

(1. útg. bls. 161.)

Satan bið jeg sofa,
á sjálfa nýársnótt,
niðrí Niflheims kofa,
svo neyð ei gjöri drótt;
Flensborgara brennivín
byrli púkar, ár og öld,
í það drykkjusvín.

---

IV.

(1. útg. bls. 162.)

Grey þótti forðum Freyja,
hin fagurleita'. og teita,
(gjöld hörð þó fyrir það gyldi)
galtefldum vera Hjalta.
Enn, sá ýta' og svanna
atar, sæmd og glatar,
blökkum leiðari bikkjum
Bakkus er verri' en rakki.

---

V.

(1. útg. bls. 162.)

Bakkus, sá bölvaður rakki,
borar í innýflin skorur,
vitið og frama burt flæmir,
fólið í heilann ber veilur,
grófustu hræspora grefur
geðið í skónálum meður.

---

# LAUSAVÍSUR.

---

## I.

(1. útg. bls. 178—179.)

Skarðs um heiði
á hörðu skeiði
    hlupu þær,
    út sig breiða enn þá fjær;
Jón hinn leiða
um munninn meiða
    og mjaðmir ofan á lær.
    Öldin hátt að hlær.

---

## II.

(1. útg. bls. 180.)

Áður óðöl gengin
ættum sínum frá
brigðaði bragna mengi;
brigðaði' ei fleiru þá.
Upplýsingin óðum grær;
    nú menn brigða kapla, kýr,
ketti, sauði' og ær.

---

III.

(1. útg. bls. 181.)

Í Babílon við vötnin ströng
var jeg í sálma gargi,
fjell jeg á nótum fast í söng
sem foss ofan af bjargi.
Evfrati leiddist argið það
og mig nöldrandi hætta bað,
sagði: „til sjáfar fer jeg,
annars jeg bakkann upp á stíg
og í mig þá til botns þig sýg
og svo til ægis ber jeg.“

IV.

(1. útg. bls. 182.)

Sá sem fæðir sauði eystra'
og svín á Nesjum,
við hungurs stríðu geymi grandi
geithyskið í Norðurlandi.

V.

(1. útg. bls. 183.)

Betur matarbita getur blakkur þakkað,
þá hærugrár af hungri strengdur
hræið æjar milli bæja.

---

VI.

(1. útg. bls. 184.)

Öldin er sú bezta
á sem lifum nú,
drottnar miskunn mesta,
mæt er dyggðin sú;
það er hið sanna gæzkugeð;
drepa nenna engir úlf,
allt þó myrði' hann fjeð.

---

VII.

(1. útg. bls. 184.)

Þurrakuldann þolir hann illa
það jeg tel hans kostum spilla,
segi' eg því við hjú og hal,
í frosti' og kulda verst er villa
vökvanum hans sig á að fylla,
herrann dýrka' í hláku skal.

---

## DROTTINS VOLAÐIR.

(1. útg. bls. 186.)

---

Drottins volaðra ef að art
einhver girnist að prófa,
sjer hann þeir gjöra' ei meinið mart
mönnum til lands nje sjóvar.
Mammon volaða á sjer eins,
ymsum sem verða þó til meins,
og þessir heita: þjófar.

---

## TRÚARVILLINGURINN.

(1. útg. bls. 188—189.)

---

„Aldrei rísa' upp andaðir"
innti Kobbi' á Hamri
með glamri;
gröf ef býli eilíft er,
erkitossann jarða ber
greipardjúpt í gólfi undir kamri.

Hvað er dauði? hvað er líf?
hvað er sköpun dýra
og fíra?
svo ef spyr þú þegninn þann,
þú munt óðar finna', að hann
orkar þjer frá engu neitt að skýra.

Nærsýn önd og nærsýn sjón
neitt af stöðum hærri,
sjer fjærri,
fær ei grillt; það heimsku hjón
hyggur, eins og drambsamt flón,
heim ei sjónarhringi sínum stærri.

Vorkenni' honum vitlaust raus
virða prúði skarinn;
því harinn,
verði sálin líkamslaus,
lingerður og visinn daus,
vonar það hann verði síður barinn.

## Beinakerlingarvísa.

(1. útg. bls. 193.)

Um messnatímann muntu sjá
maður kemur af dalnum,
þeim halnum
miklar ástir muntu ljá
og manninum strax þitt gefa já.
Einhver dregst þá drykkjunnar í valnum.

---

## Lausavísur.

Lilia varð lolium,
ljelegt eiturfolium,
er skrítið varð af scholium,
sem skall við sölvadolium.

---

Exemplo doceas germanas, casta puella!
Omniaquæ facies, hæ quoque tunc facient.

---

## *Persii*

*Prologus: „Nec fonte labra prolui caballino“*, o. s. frv.
(1. útg. bls. 218—220.)

---

Aldrei man jeg mig
munn hafa vætt
í kaballínsku
uppsprettuvatni,
mankat eg heldur
mig hafa sofnað
á tvítypptum
tindi *Parnassí*
til þess að skáld jeg
svo skjótt nefndist.

*Heliconiadas*
og harðla grábleika
gef jeg *Pirene*
greppum þeim,
hverra líkansúlur
limgu viðbendi
orpnar eru.
En jeg sjálfur
hálfrustakorn
til helgidóma
skálda jeg kem
með kveðling minn.

Hver kenndi poppa
„heill vertu!“ að segja,
eður kráku
kenndi að þreyta
manns að tala máli?

Mennta meistari
og mannvitsgjafari
er hinn máttki magi;
þann veit jeg allra
öruggastan
að nauðgri náttúru
nóg að framkvæma.

Mundu því verða,
ef þú mættir trúa,
hrafnar skáld,
en skáldkonur krákur,
þegar einungis
einhverja von
haft þau gæti
um hinn hverflynda auð.

---

## EPTIR OVIDIUS.

(Amor. Lib. I. 5. Æstus erat.)

---

Miklum dasaður
miðdagshita
hægt á dyngju
hvíla vildak;
lokuðum glugga
ljós jeg bannaði;
var hans þó helft
að hálfu opin.

Opin rauf
inn brá skímu
glíkri, sem skyggir
í skógar runnum,
eða sem foldu
þá Föbus kveður,
og undan hafi
einstökum skýtur
glóandi hendi
gullinvöndum,
eður mæni dagblik
á morgunhimni.

Glíkt hæfir rökkur
gullhlaðs jörðum
bljúgri þeirra
blygðan að skýla.

Kom þá Kolfinna
í kyrtli ógyrtum,
tvíkleyft þakti hár
háls mjallfagran,
sem Helga fagra
með hári gullnu
Ormstungu vekti
ástarbríma,
eða sem glapti
Gunnar hinn mikla
Hallgerður fagra
hlaði skreytt.

Kippti' eg í kyrtil
af kappi miklu,
skýldi þó lítið
skikkja gisin,
auðarbil
enn þó streittist
harla gisinni
að hyljast skýlu.

þá kepptist auðsól
ákefð mestu,
þó ei með sanni
um sigur skeytti
eigin fjörráðum
um var sigruð.

Sem fyrir augum
okkrum stóð
klæðum svipt
kvendið fagra,
líta ei var
á líkam gjörvöllum
auðarbils
ein misfella.

Herðar hve fagrar
hlaut jeg að líta,
hve mjúka handleggi
mundum kreista' ek.
Bylgjandi brjóst
beiddist ástar,
hagkvæm hvel brjósta
handa umferðar.

Hve fögru hveli
hafinn kviður

blíðri mey
und bjósti mjallhvítu,
lögun hve fagra
leit jeg á síðum,
eða meyjar á
mjúkum lærum.

Hví um hvern vann
hlut jeg fleipra.
Ekkert jeg leit
hvað inndælt ei væri.
Sprundið nakta
spennta jeg óður
ástum brennandi
upp að brjósti.

Hvað við að höfðumst
hjer á eptir
engum ókunnugt
ýtum vænti' eg.
Bæði við dösuð
blunduðum síðar.
Óska jeg slík mjer
öll miðdegi.

---

# Kvæðisbrot.

Skiptast honum um
í skapi myrku
afskiptaleysi
eða tortryggni.

Er hans grimma
geð svo tvöfalt,
að hann annaðhvort
um mig er hræddur
eða hann varla
við mjer lítur.

Eina stund honum
í illu geði
býr tortryggni
blandin heiptum,
og annað sinn er hann
afskiptalaus,
að hann mig viðurtals
eigi virðir.

## Eptir *Catullus.*

5. kvæði: *Vivamus, mea Lesbia, atque amemus.*
(1. útg. bls. 221—222.)

---

Við Helga skulum búa
í húsi einu saman,
og hvort öðru unna,
og dylgjur hárra hala
hirða alls ekki.
Sól getur sigið í æginn
og síðan upp runnið;
okkar þá stuttur endar
æfi þessrar dagur,
vitum að eina eigum
eilífa nótt að sofa.

Kysstu mig þúsund kossa,
kom þú síðan með hundrað,
auktu tölu aptur með þúsund
og aptur tíutíu,
enn þá kossum þúshundruð
og enn þá tíutíu.

Mörg þá þúshundruð kossa
á þá lund höfum fengið,
tölu svo samsteypa skulum,
að sjálf hana ei vitum

og að enginn illur
okkur öfundað geti,
er hann annars kynni,
ef okkur vissi svo kyssast.

---

# Epigrammata.

Eptir *Martialis.*

---

I.

Ekki veit jeg það, Jón, hví þú skrifar til svo margra
stúlkna,
hitt veit jeg, engin stúlka vill skrifa þjer til.

---

II.

Fyrrum ríkur þú varst, en þá varstu hreinlífur, Bessi;
langan í tíma þú varst ekkert kenndur við sprund;
kerlingar eltir þú nú; mikið verkar sú bölvaða fátækt;
Bessi, þig hefir hún gjört að af ..... slók.

---

## MEÐLÆTI OG MÓTLÆTI.

Eptir *Ovid. Tristium eleg. IX. v. 5—14: Donec eris felix, multos numerabis amicos,* o. s. frv.

(1. útg. bls. 220—221.)

---

Meðan þú ért farsæll, þú líka vera munt vinsæll;
hverfi lukkan þjer frá, einsamall standa þú munt..
Sjerðu hve dúfurnar elskar eru að þökunum hvítu?
en á kámugum turn engan þú líta munt fugl.

Maurinn aldregi mun að tómum kornhlöðum snúast;
aldregi vini mann sjer hverfa að glötuðum auð.
Eins og skugginn oss gangandi' í sólskini fylgir,
en þegar ský hylja sól óðara hverfur á braut,
eins fylgir geislum lukkunnar hinn hverflyndi múgur,
hverjir þá myrkvast, óðara hverfur hann braut.

---

## RIDDARALJÓÐ.

Eptir *Schiller. „Wohl auf, Kammeraden, auf's Pferd, auf's Pferd!“ Wallensteins Lager.*

(1. útg. bls. 210—211.)

---

Upp! upp! lagsmenn góðir, á bak! á bak!
benregn og frelsið að kanna!

í benregni sjest, hver er hetja eða hrak;
hvar hjartað er, þá kunnum sanna.
Fram fyrir hetjuna fer ei neinn þá,
fullhuginn sjálfbyrgur þar nær að stá.

Af jarðríki frelsið nú flúið er hreint,
þar finnst ei nema' herrar og þrælar;
hver annan með falsinu ljóst bæði' og leynt
lýðirnir huglausir tæla.
Við dauðann í augu sá horfast kann
hermaðurinn einn er sá frjálsi mann.

Um lífsins mæðu hann hirðir ei hót,
hann bítur ei ótti' eða sorgin;
forlögunum rakkur hann ríður á mót,
hvort þau reynast í dag eða' á morgin,
og reynist þau á morgun, vjer megum í dag
muna að færa oss tímann í hag.

Af himninum fellur honum hamingja' í skaut,
með hnauki ei þarf hann að vinna;
ágjarnir til jarðiðra grafa sjer braut,
og glaðvana sjóð hyggja' að finna;
þeir grafa og pæla og gjöra' ei á töf
að grafa, unz sjálfum sjer taka þeir gröf.

Riddarinn prúður og hleypið hans hross
hvervetna ótepptir spranga;

inn í brullaupssalinn við elda og ljós
    óboðinn þorir hann ganga;
hann biðlar ei lengi og býður ei fje,
brúðurin lætzt honum af ótta í tje.

Hví grætur meyjan og harmar svo mjög?
    Hann láttu ganga — láttu' hann ganga.
Til bólfestu stöðugrar veit hann ei veg,
    og vináttu' ei halda má langa.
Forlaga straumur hann bráðfluga ber,
bólfesta rósöm ei ljeð honum er.

Því brátt, lagsmenn góðir! og beizlið nú hest,
    og brjóstið í orustu reisum;
ungdómur dvínar og fjörið það ferst;
    því fram, meðan megum, og geisum!
og veðsetjið lífið í vopnanna þrá,
ef viljið þjer lífinu halda og ná.

---

## ÓDAINSAKUR.

Eptir *Schiller. Elyseum.*

(Brot.)

---

Kveinstunur eigi
sturla framar,

ódáinsyndi
óp öll svæfi,
ódáins æfi
er eilíf gleði,
eilíft sveim,
beljandi lækur
um brosandi engi.

Eilífðar vor
andar yfir
æskublíð
ódáinsengi.
Draumar mjúkt
dregnir gullstöfum
aldur þar og æfi
ala sína.

Lyptir sjer sál
um svið endalaust,
brýzt sannleikur
úr blæjum hulu.

Endalaus gleði
öll brjóst fyllir,
hjer á sjer ei heiti
harmur grátenda,
yndi aðdáunar
er hjer tilfinning.

Bráðlúna hjer
brunalimi
ferðamaður
á foldu hvílir.

---

## *Weg der Liebe.*

(1. útg. bls. 207—209.)

---

Fyrri partur.

Upp yfir fjöllin
og yfrum unnir,
undir draugahöllum
og undir brunnum,
yfrum vötn og móður,
um undirdjúp breið,
yfrum kletta' og hæðir
mun ást finna leið.

Í raufum, í forum,
þars ormur ei lá,
í holum, í skorum,
þars kvikindi' ei sá,

þars mý nær ei fljúga,
nje maur kanna skeið,
mun ástin smjúga
og finna sjer leið.

Barn kallið *Amor*
og uggvænan sízt,
auman, flóttataman
og sjónlausan víst.
Bitrum meður bröndum
boðið honum deyð,
brátt úr yðrum höndum
mun ást finna leið.

þá Fönix sig beygir
og fráneygur örn,
og fagurt sig hneigir
hinn óþjálgi björn,
og ljónið sleppir digra
lambi úr klóm á skeið,
ljós mun ástin sigra
og sjer finna leið.

---

Annar partur.

Mun guma hönd brjóta
eða geta leyst brátt

þá gordisku hnúta,
sem ástin sjer batt?
hvað ætlið, hvað vinnið,
og hyggið koma á leið,
um hvað, sem þjer upp spinnið,
mun ást brautin greið.

Og væri hún hulin
og væri' hún ókennd,
og væri hún dulin
og aldregi nefnd,
þá mundu þó vindar
af miskunn læðast hjer
og möttla færa hindar
kveðjuna mjer.

Værirðu handan fur hafið
og værir ofar en fjöll,
vildi' eg yfrum hafið,
og flygi yfir fjöll;
værirðu sjófugl
og settist á sker,
sjálfur yrði' eg að fugli
og leitaði' að þjer.

---

## Jón Eiríksson.

Grafminning, er Skúli Thorlacíus orti eptir hann: „*Gratia, forma, genus*“ o. s. frv., prentuð með útleggirigu Bjarna í „Æfisögu Jóns Eiríkssonar“ á 98—99. bls.

(1. útg. bls. 217.)

---

Vinsældir, fegurðin, frændafla her,
frægðin og veldið af auði,
og nafnbóta glansinn í felurnar fer,
þá ferlegur nálægist dauði.
En komið á flótta þá allt þetta er,
ein varir manndyggð og lifir;
deyr-at hinn látni, ef dapurleik sjer
á dyggðugum leiði hans yfir.
Meðan að ráðvendni lof einhver ljer,
og lýða gagn nokkurs er metið,
heitið Jón Eiríksson hver öðrum tjer,
þá heyra menn mæringa getið.

---

## Eptir *Sappho.*

2. kvæði: *Φαίνεταί μοι κῆνος ἴσος θέοισιν.*

(1. útg. bls. 224.)

---

Goða það líkast unun er
andspænis sitja móti þjer

og stjörnu sjá, þá birtu ber,
á brúna himni tindra.
Hefi jeg þá í huga mjer
svo harla margt að segja þjer;
en orð frá vörum ekkert fer,
því eitthvað málið hindrar.

Mjúksár um limu logi mjer
læsir sig fast og dreifir sjer;
þungt fyrir brjósti æ mjer er.
en öndin blaktir á skari.
Sem blossa nálgast flugan fer,
mig færa vil jeg nærri þjer,
brátt hitinn vex, en böl ei þver,
jeg brenn fyr en mig varir.

---

## Eptir *Anakreon.*

(1. útg. bls. 222—223.)

---

I.

16. kvæði: *Σὺ μὲν λέγεις τὰ Θήβης.*

Einn kvað um veri valska,
valfall annar Brávalla;

en sjálfur flyt eg um eiginn
ósigur kvæði.
Flúði' eg ei riddurum fyrir,
fótgönguliði' eða skipum;
aðrir hermenn mig unnu,
er augunum berjast.

---

## II.

19. kvæði: *Ἡ γῆ μέλαινα πίνει.*

Drekkur jörð,
drekkur eik hana,
drekkur vatnsföll
hinn voti sær,
sól drekkur sjó,
en sólu máni.
Hví mjer þá vinir
varna drykkjar?

---

## HAFGÚAN.

Eptir *Oehlenschläger* i *Correggio. „En Huldre boer under steile Fjeld“.*

(1. útg. bls. 214—217.)

---

Hafgúa býr
und holu fjalli;
situr pílagrímur að
iðu fossi;
hrynja unnir
með harki og niði
hvítfreyðandi af
hákletti niður,
„pílagrímur fleygðu þjer
fram af bakka,
þá ertu um eilífð
æ minn brúðgumi.“

„Leysa mun jeg önd þjer
frá líkama;
lipurt skaltu með mjer
í limrunnum dansa;
fleyg þjer í gljúfur fram
og fljótur sjertu;

skola mun jeg bein þín
skærri fílstönnu;
beður er þjer á botni
búinn af rauðum kóral,
ofan á þig hins þunga foss
iða skal breiðast.“

Felmtraður vill flýja
ferðamaður;
stár sem niður negldur
og nár ei að flýja.
Í greipum hefir hafgúa
horn af gulli;
í vindi blaktar hár
hennar gullitað;
þyrstur tæmir hann
hornið bráðla
og finnst sjer vera fjör allt
farið úr kinnum.

Brýzt honum hrollur
of blóð og kinn;
því að dauðans hann
drekka nam unnir.
Hnígur hann blómstra
bólstri viður,

og liggur þar náfölur
að ná orðinn.
Bólgna með býsnum
bláfreyddar unnir
og draga hræ
hans í iðu.

Losnuð er nú önd hans
af líkams böndum,
marga nótt hún
yfir meiðrunnum svífur.
Um vor, þegar iða
vex í fossi,
hann frá jeg dansi
í hafgúu örmum.
Þá veit jeg máni
frá meiðarrunnum
bregður ljósi' á bein
á botni skinin.

# *Darthula.*

Kvæði eptir Ossían.

(1. útg. bls. 212—213.)

---

## I.

### Upphaf kvæðisins.

Skemmtileg mjög er þögn í ásýnd þinni,
þú himins fagri sonurinn,
inndæll þú kemur í austri, fylgja minni
alblåar stjörnur, veginn þinn.

---

## II.

### Niðurlag kvæðisins.

Æ, ertu *Colla,* ágæt dóttir, fallin?
Yfir blástraumum Selmu er þögn.
Syrgja fáir Trútils afspreng farinn allan,
eydda fegurð og kappamögn.

Nær muntu' upp stíga í allri prýði þinni,
Erínar svanna djásnið bezt?
þungur er svefn í þröngu grafar inni
og þar til morguns lengst er frest.

Eigi mun sól þar inn um gluggann kalla
að þinni hvílu, Dartula:
„Vakna þú, kranzinn kvennaprýði allrar,
kom og statt upp, hin inndæla.“

Blása vorvindar, blómsturknappar titra,
og brekkum þaðra grænum á
limarnar skógar laufum fögrum glitra,
leika þar yfir fuglar smá.

Sól, vertu' á brottu; svefn er henni' á vanga,
í sinni vill koma fegurð ei,
nje þeim inndælu optar fetum ganga —
ei fær þú vakið dána mey.

## Úr *Ossian.*

(1. útg. bls. 213—214.)

Kominn ert, hinn fjærlendi,
til frægðar heimkynna,
láttu stundum ljóð þín,
lof valfallnra,
gagnsærum öndum
að gamni kveða.
Kormu' önd þeim fylgir
ljóss á geisla,

hún kemur í hellir
að hvílu þinni,
máni þá frá skýi
skyggnist þangað,
fögur mun hún þykja
þjer að líta;
tár henni enn
eru á kinnum.

---

## Til Latínunnar.

Eptir Tegnér. *Smärre samlade Dikter.*
(1. útg. bls. 218.)

---

Hreinn er þinn rómur og snjallur, sem stæltum samslái bröndum;
hátt sem drottinsorð hermannlegt gellur þitt tal,
orðfátt, drambsamt og stirt; en úr gröfinni stýrir þú enn þá
hálfri Evrópu — á því Rómverjinn sver sig í kyn.

---

„Líttu til skáldsins í náð, kærleikans gullfagra móðir."
Andliti sínu þá strax, sneri hún skáldinu að.

# ATHUGASEMDIR.

---

1—2. bls. Íslands minni. Eigi til í eiginhandarriti, en prentað í Sagnabl. IX. 55—56, og er þar þessi orðamunur við það, sem hjer er prentað:

| | | |
|---|---|---|
| 2. er. | l. 3—5. | þig þekka sjá<br>ginnir oss glaumurinn<br>glepur oss sollurinn. |
| 3. - | l. 4—7. | svipljótt land sýnist hjer<br>sífelt að vera mjer,<br>láglendið leynir sjer,<br>langt ei fæ sjeð. |
| 4. - | l. 3. | heiðhifin við. |

3—4. bls. Sólaruppkoman. Kvæðið er hjer borið saman við frumrit Bjarna og lagfært eptir því. Það er þar fyrirsagnarlaust.

4—6. bls. Fljótshlíð. Kvæðið borið saman við frumhdr. Bj., og þaðan tekið það, sem útgáfunum ber á milli. Auk þess skrifar Bj. bugðir f. bugður 1. er. l. 7.

6—7. bls. Drykkjuvísa. Bjarni hefur þessa yfirskr. í frumriti sínu. Textinn er hjer leiðrjettur eptir því. Það er á sama blaði og næsta kvæði á undan (Fljótshlíð).

7—9. bls. Fyrirsögnin er hjer tekin eptir undirskrift

við kvæðið i frumriti Bjarna. Í fyrri útg. heitir kvæðið Suðurlönd og Norðurlönd. Breytingar þær, sem gjörðar eru, eru teknar eptir hdr. Opið brjef 11. marz 1633 skipar, að guðfræðingar, sem eru útlærðir frá Kaupmannahafnar háskóla, skuli ganga fyrir öðrum að fá brauð á Íslandi; kann vera að efnið lúti að því, að betra sje að snúa heim til Íslands.

Þessi fimm kvæði fyrstu munu öll vera ort í Khöfn.

11—14. bls. Skóggangan. Ort í Khöfn 1808.

14—16. bls. Herhvöt.

Vilhjálmur Tell. Hann frelsaði ættjörð sína Svissaraland, að því er sagan segir, frá þrælkun Austurríkishertoga, en um hann eru óttalega ýktar sagnir og sumir neita því, að hann hafi nokkurn tíma verið til. Hann á að hafa barizt við Morgarten 1315. Sagt er hann hafi drukknað 1354, er hann var að bjarga barni. Schiller hefur ort um hann.

Ragnar á sjálfsagt að vera Ragnar loðbrók.

Kódrus. Hinn síðasti konungur í Aþenuborg. Dórar herjuðu á Aþenumenn 1068 f. Krb. Vjefrjett boðaði Aþenumönnum sigur, ef Kódrus ljeti líf. Þá gaf hann sig viljandi í dauðann fyrir ættborg sína á þann hátt, að hann bjóst dularklæðum og gekk fram í ófriðinn í bóndamanns gerfi og var veginn.

Decíus. Públíus Decíus Mús ræðismaður hjá Rómverjum. Hann vann það til sigurs Rómverja 340 í styrjöldinni gegn Latlendingum, að ganga sjálfur í dauðann.

Regúlus. Markús Attilíus Regúlus ræðismaður hjá Rómverjum 267 og 256 árum f. Krb. Ljet líf sitt, að sögn, með harmkvælum sökum þess hann rjeð löndum sínum frá óhaldkvæmum friðarkostum fyrir þá, og sökum orðheldni sinnar.

Kvæðið er ort í Kaupmannahöfn.

17—18. bls. Herganga. Sbr. Bjarkamál. Ort í Khöfn.

18—20. bls. Sjáland og Ísland. Ort í Khöfn 1809.

21—23. bls. Saknaðarstef við för Hallgr. Schev.

til Ísl. Scheving og Bjarni voru hinir mestu alúðarvinir alla daga. Scheving var tryggðatröll hið mesta, og er orðlagt hversu tryggur hann var skólanum. Sbr. söguna, þegar Bjarni ætlaði að láta „decímera“.

24--26. bls. Björn að baki Kára. Sbr. Njálu kap. 148—152. Sumt í kvæðinu er nú ekki auðskilið, af því nægar upplýsingar vantar. Seinni hluta 4. erindis mun eiga að taka svo saman: því sumir rekkar reynast verst þeim Kára [er þeir] renna að baki. Bessi verður að vera sama, sem Björn í Mörk. En hver er Bóni? Kvæðið er til með hendi Boga sýslumanns, sonar Bjarna.

26—28. bls. Pensill minn. Seinni hluti 4. erindis er óljós, en á líklega að skiljast svo: en binda skaltu saman á henni nefið, höku og smá hlýra vænar Venus og Hebe; vænar hlýtur að eiga að vera miðstig atviksorðs, nema prentvilla sje í 1. útg., en handrit eru engin til af kv.

28. bls. Vísa. Löguð eptir hdr. Bj., sem þó sýnist að hafa heimakomu, en plágur er skýrt.

28—29. bls. Staka. Eigi áður prentuð. Hjer tekin eptir eiginhandarriti Bj. á litlum snepli, sem liggur innan í uppkasti þeirra Dr. Schevings og hans að latneskri málfræði í Raskssafni Nr. 19. 4to.

29. bls. Til Jóns Þorlákssonar. Eiginhandrit Bjarna hefir: en er hún angrar þig; er hefir fallið úr í prentaninni. Sbr. Ljóðabók Jóns Þorlákssonar II. 496—497.

30. bls. Vigfús „fótur“ hafðist við í Reykjavík þegar Bjarni var þar assessor (sbr. Espólíns árb. XII. 110.). Vigfús var kallaður níðskældinn, en þá gamall orðinn og haltur. Einu sinni staulaðist hann út úr búð, þar sem Bjarni gekk framhjá, og gjörði þá fyrri part framanprentaðrar vísu. Sumir segja að Kristján Björnsson á Hrafnhólum á Kjalarnesi, sem kallaður var „Kjaptur“, hafi gjört fyrri partinn, en það er ólíklegra, af því að hann mun um þessi ár hafa verið ungur, og deyr eigi fyrri en nál. 1865. Vísan er eigi áður prentuð

og eru ýmsar heimildir að henni, og þar á meðal safn Jóns Sigurðssonar. Sumir hafa fyrri partinn svo:

Hold er beinum horfið frá,
hrörnar líkams kraptur.

Og í seinni partinum hafa sumir:

skrokknum tórir ekkert á,

eða tórir fyrir lifir.

30—31. bls. Lausavísur II. Bornar saman við hdr. Bj. Þar er seinni vísan svo:

Öðruvísi óskin getur orðið valla;
bakkrossinn því ber hann illa,
brjóstkrossinn mun sæmd hans gylla.

38—42. bls. Jón Jónsson.

Í Klausturpósti I. 7—8. segir svo frá láti Jóns (sbr. og IV. 50—51)

„Þann 13. mars lagði út frá Hafnarfirði Íslands póstskip, slupskipið Dorothea kallað, fært af skipara Knúti Klausen, á heimleið aptur til Danmerkur. Ofsastormar, sem af útsuðri strax eptir uppákomu, gjörðu, að þetta skip skamt eptir, nefnil. á skírdag (3. apr.) fannst strandað, sundurliðað og nokkrir partar þess fastir í bjargskorum, við Saxhólsbjarg hjá Öndverðarnesi undir Snæfellsjökli. Menn allir, sem á voru, týndust með því, alls 9, þar á meðal einn af kennendunum við Bessastaða latínuskóla, adjúnkt Jón Jónsson, sem mælt var, að í áformi haft hefði að sækja um Breiðabólstað í Fljótshlíð. Hann ljet eptir sig ekkju með fjórum ungum börnum. Af líkömum skipverja fannst ekkert, nema ein hönd ...“ Hjer segir svo, að hann hafi ætlað, að mælt var, að sækja um Breiðabólstað í Fljótshlíð, en það hefur líka verið mælt, að hann hafi verið í óvináttu við Geir biskup og hafi hálfvegis hrokkið af landi burt fyrir ofríki hans, og lýtur sumt í kvæðinu, ef til vill, að einhverju

slíku. Jón adjúnkt var faðir Bjarna rektors. Kvæðið er hjer borið saman við frumrit Bjarna, og það, sem útgáfunum ber á milli, stafar þaðan.

42—43. bls. Þjófabæn. Sbr. klpóst I. 77—78.

43—44. bls. Ísland. Klpóstur I. 162. hefur byrjun 5. erindis svo:

Ef slepjuskapsódyggðir ....

44—47. bls.

Delavísur. Þessir kveðlingar eru hjer einu nafni kallaðir Delavísur, en annað kvæðið í röðinni Delaóður eins og Jón Espólín nefnir það í árbókum sínum, og heimfærir hann upptök þessara kveðlinga til sama árs sem „Hólmsvísna“ eða 1818, og fellur frásögnin hjá honum mjög saman um hvoratveggju kvæðadeiluna; er því nokkuð óljóst hjá honum sagt um orsakir þessara deiluvísna og auðsjáanlega sagt á huldu frá því og sneitt hjá ýmsu. Frá upptökum fyrsta kvæðisins, sem Delavísur Bjarna eru svar uppá, er sagt á þá leið í handriti af þeim í safni Jóns Sigurðssonar, að Stefán amtmaður Stephensen á Hvítárvöllum hafi sótt um ölmusu handa sonum sínum, en hafi verið synjað, og hafi menn haldið, að hann kendi Bjarna um það, sem þá var í stað Kastenskjölds stiptamtmanns; hafi því amtmaður reiðzt Bjarna fyrir það og fengið Jóhann Tómasson, er seinna varð prestur á Hesti († 1865), en sem þá var skrifari amtmanns, til þess að yrkja um Bjarna. Jón skáld Thoroddsen hefur skrifað þetta handrit, og gerir hann þá athugasemd, að S[r] Jóhann muni eigi hafa ort braginn, heldur Stefán amtmaður sjálfur og synir hans, en að þeir muni hafa fengið S[r] Jóhann til þess að lagfæra hann. Hvað er hið sanna af þessu eða hvort þetta er hið sanna er hjer látið ósagt. En bragurinn, er Delavísur spunnust út af, er svo:

Gjörðu mig, faðir, jeg girnist ei meir
af gæðunum heimsins þess arna,

iðinn sem Magnús og góðan sem Geir
og grobbinn sem assessor Bjarna,
á svo ei skorti, þó vanti mig vit
að völdunum meðan um tíma jeg sit,

Lesinn sem Hallgrím, lærðan sem Jón,
lipran að tala sem Arna,
hverra lofstír um heilt Ísafrón
hljómar af mergð skólabarna,
hálsliðamjúkan sem Halldór valdsmann
hjerna í sýslu um tíma settan.

Jeg ríkdóms ei óska, því rembast þá má
við reikninga klárast að geta,
styrk þú mig, faðir, í flöskuna' að fá,
falin skal sú býfógeta,
þegar jeg dey burt að þrátta um lán
það, sem mjer unnt var við þjófnað og rán.

Lækningar þínar jeg lítið um gef,
þó linur í bakinu verði,
flöskuna kærsta fulla jeg hef,
frískar hún sinnið og herðir;
þó meyjarnar hafni, hefnist jeg á
hinum, sem lægri metorðin fá.

Öðlist jeg alt, sem um beðið hef,
ánægður lifi' eg og dey jeg,
Oddi og Gunnari góðan dag gef,
gamla við Skapta vorn segi' eg:
Farið burt allir, sem fúskið í bæ,
fljótari' og vægari dauða jeg fæ.

Þetta kvæði er hjer prentað eptir tveim handritum, og er annað komið frá Sr Þórhalli Bjarnarsyni í Reykholti, og átti það faðir hans Sr Björn í Laufási, en hitt er í safni

hins íslenzka bókmenntafélags hjer nr. 19. 8vo. og er þar kallað: „Vísur eptir Anonymus". Orðamunur er nokkur, en hjer eigi tilfærður. Sr Þorvaldur Bjarnarson á Melstað segir við afskript sína af Delavísum, að tilefnið til fyrsta kveðlingsins, sem hjer er prentaður sem I. sje svo: „Bjarni settur í stiptamtmannsstað tekur ekki til greina meðmæli Magnúsar conf. r. Stephensens með skjólstæðingi við prestakallsveitingu, og þykkir Magnús það, en Bjarni kennir undirróðri hans níðkveðlinga þá, er þá fóru að koma upp Bjarna til hnjóðs. Bjarni kvað o. s. fr." Hjer er því nokkur munur á og því sem áður er getið. Sr Þorvaldur segir og, að vísur þær, sem hjer eru prentaðar sem Delavísur III sjeu svar á móti því sem „Skjöldóttur" kvað (sbr. Árb. Jóns Espólíns XII. 110—111), en það er þetta:

Þá vindþrota orðinn minn vindbelgur er,
en vindhana hver einn mig sannar,
í vindfjaðra snýkjur á vinda jeg fer
vængjum til álptanna ranna,
á bala svo trítla jeg, bý þar um menn,
af bala, þá sigað er, geltandi renn.

Jeg ræð þjer loks, deli, að renna þinn veg,
og reyna ei lengur að gjamma,
annað ef vogar þú, urra fer jeg,
hinn æfðasti kappi til skamma;
ef'veizt, sem deli, hver virðing oss ber,
þjer vitanlegt gjörum jeg skjöldóttur er.

Vísur þessar eru hjer teknar eptir handriti í safni Jóns Sigurðssonar. Sömuleiðis þessar:

Delaljóð í delatón
dela gó forsprakkinn,
siðu góða þessi þjón
þekkist miður en rakkinn.

Hundar prísi hunda móð
hundum líkjast bráðum,
háðung vís er hundsins óð;
hann spangóli' í náðum.

Sumir eigna Bjarna vísurnar, en þær eru líklega ekki eptir hann. Ýmsir tóku og þátt í þessum kveðlingum, Bjarna til varnar fleiri, er kvæðadeilan hafði staðið um stund. Þetta er eitt af þeirra kvæðum:

Neytir hvopta ara á
arsins hnylla tekur
þeytir hvopta (sic!) glanni grá
gumsið illa vekur.

Efra (Ofsa) vizku iðrið sprakk,
ældi langri rollu,
ótæpt því að aptur drakk
úr Gunnlaðar kollu.

Stebbi' eða Jón hvort stafur sá
styrjar kann að heita,
skráðan þennan óðinn á
ekki' er vert að skeyta.

Vísurnar eru hjer eptir handriti í safni Jóns Sigurðssonar og að nokkru eptir handriti frá Sr Þórhalli Bjarnarsyni. Fyrsta vísan er auðsjáanlega eitthvað afbökuð. Vísur þær, sem hjer fara á eptir, sýnast að vera gjörðar móti bragnum: „Gjörðu mig, faðir, jeg girnist ei meir o. s. frv., og eru svo:

Um assessor ljóð að yrkja meiri
ei verður stórum hagnaður,
því skáldskapur þinn er helzt, jeg heyri,
hræfugla skitu magnaður,
nýlega frá þjer kom í kring
kasúldin bölvuð svívirðing.

Heyrðu dansandi dönsku söngur,
sem diktar lygi, skömm og hrak,
í Vík þú áður vandir göngur
og varst í dorgum hjá Javinak(?),
þá brast hryggurinn þvert um lið,
þar máttu binda spelkur við.

Síðan mórauði moldarkinni,
músgráa dyggð, sem hefur þú,
vikin lygi af vanart þinni,
verður til skammar, reyndu nú,
þitt hvort slaður að þanninn er
það vita margir betur hjer.

Fyrst áður vildir flösku nefna
og færa' í kvæði brigzlyrðin,
sjálfan þig gjörir glöggt á stefna,
en gáðir ei að því heimskinginn,
muna til kvartils þegar þá
þú lást svínfullur hundi hjá.

Æ, sjertu nú í enda ræðu
ataður bleytu fyrr og síð,
úr arnar bakhluta fá þjer fæðu,
fullur svo getir kveðið níð:
þú segir hún sje heiðarlig,
og hafi opt svangan mettað þig.

Kvæðið er tekið hjer eptir afskrift frá Sr Þórhalli Bjarnarsyni af handriti, sem faðir hans átti. Kveðlingar þessir eru kannske fleiri.

Heimildir þær, sem eru fyrir Delavísum I hjer, eru þessar: Safn Jóns Sigurðssonar = J. (í orðamun) og hdr. Sr Þorvaldar á Melstað = M.; hdr. frá Guðmundi lækni á Laugardælum = L.

Orðamunur: 1. er. l. 1. Mig í fyrra Mörður bað M (í orðamun).
— l. 3. því ei var gott að fela L.
2. er. l. 1. Espaðist hann þá við það J.
Mörður reiddist ... M.
— l. 2. ... digran bela M.
— l. 3. svo mjer gjörði siga að J.

L hefur seinni vísuna svo:

Illskaðist svo af því hann,
að ekki vildi' eg stela,
síðan á mig siga vann
sínum kontórdela.

Heimildir þær, sem hjer eru fyrir Delaóð eru:

Safn Jóns Sigurðssonar = J.
Hdr. frá dr. Grími Thomsen = Gr.
Hdr. frá S^r Þorvaldi á Melstað = M.
Hdr. frá S^r Þórhalli Bjarnarsyni = Þ.

Orðamunur:
1. er. l. 1—3. Oss að nefi eitt sinn þefi illum brá. Gr.
— 4. rann honum slefa af köldu kvefi Gr.
... slefan kvöldum ... J.
2. er. l. 1. Hrygginn sveigir hann og teygist J M.
... teygir hann og sveigir Gr.
— 3. rakkabeygjan bist var þá Gr.
— 6. fötu fjekk hann sjá. J Gr M.
3. er. l. 1. Hafði' hana setta Gunnlöð gretta. Gr.
— 3. Suttungs mett af miði lá. Gr.
— 4—6. í hana detta aptangretta
enda sín ljet frá,
laust þá líf nam fá. J.
í hana sletta aptanskvetta
enda sín ljet, þá
laust hún líf nam fá. Gr.
í hana detta aptan gretta

| | |
|---|---|
| | enda sín ljet frá |
| | laust þá líf nam fá. M. |
| | í hana detta apturþjetta |
| | enda sín ljet frá |
| | laust þá líf nam fá. Þ. |
| 4. er. l. 5. | fólinn þar af ná. Þ. |
| — — | fýlan þar að ná. Gr. |
| 5. er. l. 2. | seppa frá. J. |
| 6. er. l. 5—6. | tíðkar gjálfrið há . . |
| | bíta menn ei má. Gr. |
| 7. er. l. 1. | Hundadaga heyrast bragar. JÞ. |
| — 4. | batnar saga, ef hann agað. Gr. |

Heimildin fyrir Delavísum III. er safn Jóns Sigurðssonar og handrit frá S[r] Þorvaldi á Melstað, og ber þeim alveg saman.

Þeir, sem nefndir eru í bragnum: „Gjörðu mig, faðir, jeg girnist ei meir o. s. frv.“ eiga að vera: Magnús Stephensen, Geir biskup Vídalín, Bjarni Thórarensen, Dr. Hallgr. Scheving, Jón Jónsson lektor, Árni biskup Helgason, Halldór sýslumaður Thorgrímsen, Oddur apótekari (?), S[r] Gunnar í Laufási (?) og Skapti læknir (?). Svar uppá þennan brag er Delaóður eins og dr. Grímur Thomsen segir. Eptir sögn Gísla Konráðssonar, hins fróðasta manns, er svo að sjá sem S[r] Jón Hjaltalín hafi tekið þátt í þessum kveðlingum, sbr. athugasemd við bls. 47—48.

47—48. bls. Vísur þessar kvað Bjarni um mál Sæmundar prests Hólms á Helgafelli eptir að þau voru dæmd í synódalrjettinum 13. júli 1818 af honum og Geiri biskupi. Gísli Konráðsson segir svo frá þessum kveðlingum:

„Við málslok þessi undu all-lítt þeir, dæmt höfðu mál Hólms í hjeraði, að hann skyldi halda bæði prestskapnum og staðnum, og kölluðu að Bjarni assessor og Geir biskup hefði mjög mýkt mál Hólms prests, er hann skyldi sleppa auðveldlega. En þótt margt mætti finna að framferðum Hólms prests, virtist sumum hann afarfreklega sóttur, og allt til

tínt, þótt miður væri saknæmt. En er máli Hólms var lokið, kvað Bjarni assessor gamanvísu þessa:

Sæmundur Magnússonur Hólm-
vindanna vængjum á
vatt sjer málunum frá.
Forlög [þá] hann ásóttu ólm
aurinn hann óð í kvið,
óvinir skelfdust við.

Jóni presti Hjaltalín, sem verið hafði meðdómsmaður í málinu við undirrjettinn, þótti vanvirða, að dómur sá, er dæmdur var í hjeraði, ónýttist, og orti því á móti:

Sæmundur Magnússonur Hólm
vindanna vængjum á
vill sjer hásæti fá.
Málasókn hans þó opt sje ólm,
ei veður hann í kvið
sanngirni, sátt nje frið.

En sumir hafa þessar vísur fyrri, og eigna Hjaltalín presti:

Þórarinsniður þannig kvað,
þegar hann hafði dæmt
Hólmsmálið harla ræmt.
En hvað er að ösla hundavað,
hafi það ekki skeð
þinglokum þessum með?

Brandur[inn] og hann Bangsi reið
brögðóttan lagahnút,
hertan í Hólmagrút.
Themis á vængjum vinda beið,
var þá ösluð í kvið
leirbleytan lögberg við.

Ljótt er að draga lagaþráð
í löð ranglætis inn,
svo rými rjettvísin.
En gjöra svo að öllu háð
[eða] svo heyri þjóð
að yrkja þar um óð.

Þessu er sagt, að Bjarni assessor vildi eigi svara. En Sigurður hreppstjóri Daðason kvað þessa vísu, að því er ritað finnst:

Sæmundar Magnússonar Hólm
suður varð för á land
að fanga sitt fyrra stand.
Stiklaði svo í Stykkishólm;
makt við það missti hinn
millibilsklerkurinn.

Hjaltalín prestur kvað og um Gunnlaðarkollu, er sagt er sje á móti vísu Bjarna assessors:

Á ýmsu þykir í veröld velta,
var ei sem núna fyrrum sjónin stýf,
þar hlandkollu Gunnlaðar helztu menn elta
og hafa á gát nær þunnt fær hún líf.
Hver mundi trúa að hefði stað nú
á hæsta landskontóri nærfærnin sú?

Þessa stöku kvað og Jón prestur Hjaltalín:

Ýrs þá göndum enn er hjer
ei sá vottur þrotinn,
það í löndum öllum er
einhver pottur brotinn.

En þessi vísa var með hendi Jóns prests Hjaltalíns:

Ekki er vert að yrkjum vjer
um annara tal nje verk,
þó miður virðist merk.
Bernsklega einatt börnum fer;
börn eru allir menn,
svo var' og verður enn.

En staka þessi er í dagbók Hólms prests:

Þó að yrki þar um vess
þessi rokna-gáli,
ei er víst hvor æðri sess
á að loknu máli.

Þar er og þessi staka, og líklega báðar eptir Hólm prest, þó vjer vitum eigi hversu á þeim stendur:

Hafði' á borði heitan grút
og hálfan kola steiktan;
hún Þórdís ekki þenur hann út;
þurra fjölina sleikti' hann.

Í dagbókarskræðunni eru, með annari hendi en Hólms prests, vísur þessar, og svo fyrir þeim skrifað: „Svar upp á kvæði það, sem ort var um Sæmund prest Hólm“:

Sæmund prest þeir sverta út
og sæmdum gefnu brjála,
hefur þá klessta í Hólmagrút
höfuðefni mála.

Mest þeir gjörðu' í manndyggð [brák],
minning löng sú vakir,
þegar nefndu herra Hák
hann fyrir öngar sakir.

þó á kvæðum láti ei lon
og lituðum kjól á dragni,
fara mun sem Faëton,
þá fjell af sólarvagni.

Að tylla hjer á tæpan fót
títt kann menn að svíkja,
alt, sem hefur illa rót
ending finnur líka.

Hafa sumir eignað Jóni skáldi Hákonarsyni undan Jökli vísur þessar".

Gísli Konráðsson „Söguþáttur Sæmundar prests Hólms" kap. 19. Gísli nefnir eigi nje tilfærir fleiri kveðlinga, sem spunnizt hafi út af „Hólmsmálinu". En þar sem hjer er bent til, að mótstöðumenn S^r Sæmundar hafi kallað hann Hák, mun þessi kveðlingur vera hafður í hyggju:

Bjarni og Geir þeir bættu' úr skák
sinni og Sæmundar;
sú tríúmf básúnar.
Drumb tók Hjeðinn af herra Hák,
getur svo gengið enn,
góðir það viti menn.

Horprís er stór og húmvegsemd,
sem vinda vængjum á
vilja sjer hrósun fá.
þeir sjer álíta þetta fremd,
en hjer á skýjum sken
skjót rýrð á tign. Amen.

Eigna sumir S^r Jóni Hjaltalín þessar vísur, og sýnast þær þá að eiga heima meðal þeirra, sem Gísli tilfærir eptir hann með sama bragarhætti. það er ekki ótrúlegt, að þær sje afbakaðar. þó Gísli nefni hjer eigi nema tvær vísur, er

Bjarni hafi gjört um þessi mál, mun það víst að hann hafi gjört þessar fjórar, sem hjer eru prentaðar. En eigi varð það að áhríns orðum, sem Bjarni kvað, að „prosessunum" linnti fyrir S^r Sæmundi, því að litlu síðar komst hann í hið svo nefnda „Tíkarmál" við Gísla aðstoðarprest sinn, en það kemur hjer ekki við að skýra frá því.

S^r Sæmundi var flest vel gefið. Hann var snillingur í skript og dráttlist, prýðilega að sjer í náttúrufræðum, syndur eins og selur og allra manna beztur söngmaður, mátti ekkert aumt sjá, og hataðist þess vegna við marga heldri menn, af því honum fannst þeir ganga bezt fram í því „að sjúga blóðbenjar aumingjanna", eins og hann sjálfur komst að orði. En vel var hann þokkaður af öllum bænda múga, og svo er að skilja, sem hann hafi haft mikla þjóðræknis tilfinningu. Hann var skáldmæltur vel og sárorður opt í kveðskap um óvini sína. Hann var völundur að smíða, og var í stuttu máli sýnt um flest, en sjervitur var hann. Sæmundur er fæddur 1749 á Hólmaseli í Meðallandi.

Afskr. af öllu málinu fyrir báðum rjettum er í Bókmenntafjelagssafninu hjer Nr. 54. fol. Sjá og um mál þessi Klausturp. IV. 37—42, Sbr. Esp. Árb. XII. 109—110.

49. bls. Til Dr. Hallgríms Scheving er eigi prentað áður, en hjer tekið eptir handriti frá Guðmundi lækni Guðmundssyni á Laugardælum, en hann segist „hafa lært hjá ættingjum skáldsins, en eigi sjeð neitt handrit af þeim" og er það svo um allar þær vísur Bjarna, sem frá honum eru komnar.

50—53. bls. Kvæðið er borið saman við frumrit Bj. og afskr. Boga sonar hans. Næst eptir því stendur í Boga hdr.: Frýsandi dragi þig o. s. frv. (bls. 67), en á undan „Til Finns Magnússonar" (bls. 66—67).

53—58. bls. Sigríður Thórarensen systir Bjarna dó ung; I—II. er áður prentað, nema seinasta vísan af II., sem er brot, og er hún prentuð eptir eiginhandarriti Bj. III. er eigi prentað áður, og er tekið hjer eptir afskript Hannesar Hafsteins af eiginhandarriti Bj. í safni Jóns Sigurðs-

sonar. Fyrirsögn er þar engin, en kvæðið hlýtur að eiga hjer við.

59—61. bls. Vigfús Thórarensen f. 1. maí 1756. Sumir segja að Steinunn móðir Bjarna hafi gjört I.; II.—III. er borið saman við frumrit Bj.; III. er brot. Seinasta línan sýnist vera svo í frumritinu: leita brott en brautir ...

61—62. bls. Dauðinn. Kvæðið er borið saman við frumrit Bjarna og eptir því er breytt fyrsta erindinu.

Gottfried Wilhelm Leibnitz (f. $^{6}/_{7}$ 1646 í Leipzig, d. $^{14}/_{11}$ 1716 í Hannover) einhver hinn mikilhæfasti og marghæfasti maður, sem verið hefur.

Immanuel Kant (f. $^{22}/_{4}$ 1724, d. $^{12}/_{2}$ 1804) heimsspekingur mikill þýzkur; var prófessor við háskólann í Königsberg í lógík og metafýsík.

Jóhann Gottlieb Fichte (f. $^{19}/_{5}$ 1762,. d. $^{27}/_{1}$ 1814 úr pestinni í stríðinu, sem þá var) þýzkur heimsspekingur, prófessor í Berlín. Kom til Khafnar á árum þeim, sem Bjarni var þar, og hefur Bjarni, ef til vill, sjeð hann.

62—66. bls. Jónas Stephensen. Barn f. 4. júní 1814 d. 22. maí 1820. Ólafur, sem nefndur er í kvæðinu bls. 65, er Ólafur stiptamtmaður. Þar var Hans fyrir ... Hans var bróðir Jónasar, sonur Stefáns amtmanns á Hvítárvöllum, f. 23. sept. 1809 † 31. jan. 1819.

Sbr. Klp. II. 47, III. 104.

Kvæðið er hjer borið saman við frumhdr. Bj., og eptir því er það tekið, sem munar frá 1. útg.

66—67. bls. Til Finns Magnússonar. Orðbreytingin í 2. er. er eptir hdr. Bjarna. Í 3. er. 5. l. hefur Bjarni: þeir Freyju fjandans kettir.

68—70. bls. Sigrúnarljóð. Þau munu ort um það leyti, sem hjer er sett. Þau finnast ekki í eiginhandarriti Bjarna, en í afskript Boga sonar hans, og eptir henni er tekin breyting upp í textann í 5. er.

71. bls. Kvæðið finnst í hdr. Bj. og afskr. Boga og ber þeim saman við útgáfuna. Kvæðið er brot.

72. bls. Kossar. Hdr. Bj. hefur hjer nokkurn orðamun:

1. er. l. 3. sleppir fyrst.
2. er. l. 4—6. ei annað er að sjá
en askan ljót og grá,
og bogi Amors er brostinn í sundur.

Annars sýnist kvæðið að vera þýðing, þó frumkvæðið hafi eigi fundizt, og er eins og Sigurður Breiðfjörð hafi þýtt sama kvæði. Kvæði Sigurðar heitir „Ástir“ og er svo:

Þegar mað'r við mær
magnað ástir fær,
eldur kviknar upp í brjósti hreinu
beggja hjörtu hlý
hitabaðinu' í
bráðna svo að bæði verða' að einu.

En laus er logi' úr stað,
löngum sannast það;
óðum slokknar ástarneistinn bleikur;
þá er öllu eytt,
ekki verður neitt
eptir nema aska tóm og reykur.

Æfiminning Sig. Brfj. Rkvík 1878, bls. 57.

72—73. bls. Grautar-Halli. Þriðja vísan er eigi áður prentuð, en stendur í handriti Bj. og er því tekin hjer eptir því. Í er. 2. l. 2. er fylldur breytt í falldur eptir hdr. Bj.

75—81. bls. Sæmundur Magnússon Hólm. Breytingar á kvæðinu eru eptir hdr. Bjarna.

82—87. bls. Íslands riddari. Kvæðið er borið saman við frumhandrit Bjarna. Í Sagnabl. VI. bls. 75 segir Finnur Magnússon fyrir framan kvæðið:

„Fríherra, majór og riddari de la Motte Fouqué, eitt hið frægasta þjóðskáld og mannvitringur á Þýzkalandi, sendi í fyrra fjelagi voru drápuljóð á þýzku, kölluð Ísland, er miða því til mikils sóma og virðast harla snoturlega kveðin. Landsyfirrjettar assessor Bjarni Thórarensen hefur

nú svarað þeim, lands vors og fjelags vegna, með eptirfylgjandi ljóðmælum“.

88—90. bls. Ísland. Uppkast Bjarna er til af kvæðinu. Í 1. er. er spurnarmerkið á sama stað og hjer í því, en eigi eins og í fyrri útg.; sömuleiðis er þar frá brám. Í 2. er. er næst seinasta orðið ólæsilegt, en sýnist sem í því muni vera 8 stafir og enda á — engi. Fyrir því er eyða með púnktum hjer í útg. 4. er. þar hjá Bj. fyrir 1. útg. þegar 5. er. þau f. 1. útg. þeir. Kvæðið er brot og sýnist vera þýðing, en er þó sett í þennan flokk af því að frumkvæðið fannst ekki. Kvæðið er og til í afskript Boga sonar Bjarna og þar sem brot.

90. bls. Jón á Móhúsum (sbr. Ísl. þjóðs. I. 361—362) er eigi áður prentað, og er hjer tekið eptir afskript í Jóns safni Sigurðssonar. Gísli dósent Brynjólfsson segir, að vísan sje ort, þegar Bjarni var sýslumaður í Árnessýslu á árunum 1820—1822. Bjarni hafði þá einhvern tíma stungið upp á því við Jón í gamni, að hann, annar eins maður, sæi sjer í lifanda lífi fyrir almennilegum legsteini yfir sig. En það hafði heyrzt á Jóni, að honum þætti það meiri kostnaður en svo, að það borgaði sig, því steinninn mundi ekki verða gefinn. Til þess að kostnaðurinn skyldi eigi standa í veginum, gaf Bjarni Jóni það þjóðráð, að stela legsteini handa sjer, og átti þessi vísa að vera rist á þann stein. Jón var orðlagður auðmaður, en þótti íheldinn og ágengur. Jón var þórðarson.

90—92. bls. Eyjafjallajökull. Kvæðið er hjer borið saman við hdr. Bjarna og breytt dálítið eptir því. Í Klp. V. 26. stendur svo í 2. er. 1. l.:

Spyrjir þú svo, því hann hljómi svo hart.

Kvæðið er ort á fæðingardag Friðriks konungs sjötta 28. jan. 1822. Þá var Eyjafjallajökull að gjósa.

93—99. bls. Stefán Þórarinsson f. 24. ágúst 1754. Föðurbróðir Bjarna. Amtmaður norðan og austan. Talinn eitt hið bezta yfirvald, sem verið hefur á Íslandi. Kvæðið er borið saman við eiginhdr. Bj. og þaðan stafa breytingarnar.

99—102. bls.

Þórarinn Öfjörð. Bjarni og hann voru bræðrasynir og Þórarinn átti Rannveigu systur Bjarna. Honum var veitt Rangárvallasýsla 1822. Hann var settur sýslumaður í Skaptafellssýslum 12. júlí 1823. Hann bjó á Skammbeinsstöðum í Holtum. Hann reið samsumars austur í Skaptafellssýslu. Það ár gaus Katla [26. júní, segir Þorv. Thoroddsen í Oversigt over de isl. Vulkaners Historie bls. 92]. Með Þórarni sýslumanni reið Sr Páll Ólafsson í Guttormshaga austur. Hann hafði fluzt um vorið frá Ásum í Skaptártungu. Hann var sonur Sr Ólafs í Eyvindarhólum Pálssonar klausturhaldara á Elliðavatni († 1819) Jónssonar, en faðir Sr Ólafs, sem lengi var dómkirkjuprestur í Reykjavík. Sr Páll var prúðmenni mikið og hvers manns hugljúfi. Í vesturleið fóru þeir Mýrdalssand, og var þeim þó ráðið frá því, því að vatnið á sandinum þótti ótryggilegt, og ferðir yfir sandana í Skaptafellssýslum eru mestu hættu og glæfra ferðir, þegar jökulhlaup eru nýafstaðin. Með þeim slóst og í för Benedikt skáld Þórðarson. Þeim var fylgt úr Skaptártungu út á sandinn, en fylgdarmenn fóru eigi lengra en að vatninu, og ætluðu að bíða á bakkanum á meðan hinir færu yfir um. En vatnið var strangt og „drildi“ ákaflega og fleygði hestunum flötum, og drukknuðu þeir þar Þórarinn sýslumaður, Sr Páll og Benedikt, og horfðu fylgðarmenn á, en gátu eigi bjargað. Benedikt var gáfaður maður vel, skáldmæltur og ráðvendnismaður mikill, sbr. sjálfslýsing hans:

Eins og votta augun blá
ei kann brögð nje hrekki,
myndar bögu, má þó sjá,
að maðurinn kann það ekki.

Og enn:

Er á róli einsamall,
ekki trúi' eg hann steli,
bugðulegur barnakall
Benedikt frá Seli.

Hann bjó áður í Herjólfsstaðaseli eða Selhólmi austan til á Mýrdalssandi. Þar er nú enginn bær. Hann átti heima á Flögu í Skaptártungu þegar hann drukknaði og var þá rúmlega sextugur. Eystra er enn í manna munni allmargt af gamanvísum hans. Sr Páll hafði fimm um þrítugt. Hann hefur hálfgjört búizt við að hann mundi drukkna á sandinum í þessari ferð, því að hann lagði undir, ef svo færi, að flytja lík sitt austur að Ásum og var lík hans og Benedikts flutt þangað, en sýslumanns vestur. Sveinn Pálsson læknir bjó þá í Vík. Hann þótti forspár um marga hluti. Þegar Sr Páll flutti frá Ásum um vorið og vestur á Holt, kom hann að Vík, og var þar vel fagnað. En þegar prestur kvaddi lækni, segir hann: „Jeg sje þig ekki aptur, sjera Páll,“ og rættist það. Frá þessu heyrði jeg segja Sigríði, fósturmóður mína, dóttur Sveins læknis. Hún lifir enn í Hlíð í Skaptártungu og var þá í æsku (f. 1815) og heyrði föður sinn segja þetta, og er þess getið hjer af því að það þykir eptirtektavert.

Vísan II. er aptan við grafminning í Klp. VI. 163. Það, sem helzt er eptirtektavert við grafletrið er það, að því ber eigi saman um fæðingarár Þórarins Öfjörðs við lögfræðingatal Magnúsar assessors Stephensens í tímariti hins íslenzka bókmenntafjelags III. bls. 259. Grafletrið segir hann fæddan 17. júlí 1793, en lögfræðingatal 8. október 1793, og er það rjett, sbr. Klp. VII. 83. Þar er grafletur eptir Bjarna á legstein yfir Þórarinn Öfjörð og börn Sigurðar prests Thórarensens, sem Sr Sigurður ljet reisa í Stórólfshvolskirkjugarði. Aptan við grafletrið stendur þetta:

Unnust þessir ættmenn
ofanjarðar,
samsofa vært und jörðu,
og vona' að vaknaðir
verði ei að skildir.

Sveinn læknir Pálsson bætti þessu aptan við kvæði Bjarna III:

Gegndi þá duna frá Öræfaás:
Vjer ætlum sú muni hjer forlaga rás,
að stjórnsemi lengi ei festi sinn fót
unz fremur á mörgu fyrst ráðin sje bót.
Ó, hví dó hann Öfjörð svo ungur?

Bregður upp röddum úr ýmissi átt,
eldfjallatindar þeim bergmála hátt,
er sem að hrikti í alheima grind,
innan um þetta má heyra sem vind:
Látum oss halda burt hjeðan.

þessar vısur eru hjer teknar eptir minni Sigríðar dóttur Sveins læknis.

þórarinn Öfjörð III. finnst í frumriti Bjarna, og hefur það verið haft til samanburðar. Eptir því eru teknar hjer smávegis breytingar inn í textann. Helzti orðamunur úr frumritinu er þessi:

| | | |
|---|---|---|
| 1. er. | 4—5 l. | ... en ólga fram sjest<br>fljót undan fjalli' yfir sanda. |
| 2. er. | 1. l. | Jökulfljót rennur af ... |
| 3. er. | 5. l. | og ýta ... |

103—106. bls. Yfirskriptin hjer höfð eins og hún stendur í frumhdr. Bj. Kvæðið er ort þegar þórarinn Öfjörð maður Rannveigar drukknaði á Mýrdalssandi 1823.

107—109. bls. Marðarvísur. I. finnst ekki í hdr. II. finnst þar á móti bæði í frumhandriti Bjarna sjálfs, og breytingar þær, sem það hefur hjer tekið frá fyrri útg. eru eptir því. Enn fremur er það til í afskript Boga sonar hans. Frumrit Bjarna er á sama blaði og eptirmælin eptir Sæmund Hólm. Auk þess hefur nefndin fengið afskript af því frá Sr þorvaldi á Melstað og er þar orðamunur þessi:

| | | |
|---|---|---|
| 3. er. | l. 1. | Skröggur af skuldunautum. |
| 4. er. | l. 5. | þrífætt náttskrín þannig stár. |

III. er hjer prentað orðrjett að mestu eptir handriti frá Guðmundi lækni á Laugardælum. Auk þess hefur nefndin haft handrit af vísunni frá Sighvati Grímssyni og úr safni Jóns Sigurðssonar og ber þeim báðum að mestu saman, en hafa hana öðruvísi en Laugardælahdr. Hún er svo í Jóns safni:

þinna hvarmljósa týrur tvennar
tindra af eldi guðdóms sízt,
úr þeim helvítis hrælog brenna
harla ófríð, og það er víst,
að djöfullinn fyrir innan er,
ekki' eru fagrir gluggarner.

Seinustu línuna hefur Laugardælahdr. svo:

hvar eru slíkir gluggarner.

Vísan, segir Laugardælahdr., að hafi átt að finnast í borðskúffu í Landsyfirrjettinum. En Sighvatur Grímsson segir, að Bjarni hafi í Landsyfirrjettinum horfzt í augu við manninn, sem vísan er um, og þá kveðið hana. Magnús Stephensen konferenzráð var þá justitiarius.

112—114. bls. Rannveig Filippusdóttir. Borið saman við hdr. Bj. og orðabreytingar gjörðar eptir því.

114. bls.

Um brestinn í Dómkirkjunni segir svo í Klausturpósti VIII. 101—102 (1825):

„Vor nýi biskup hra Steingrímur Jónsson, sem eptir áður boðuðu í Klpi, vígðist á annan dag jóla, kom út í Hafnarfirði þ. 20. maii. Var hann viðstaddur hátíðar embattisgjörð í Reykjavíkur dómkirkju á fyrsta dag hvítasunnu ásamt miklum manngrúa, hvar af margir flykkzt höfðu upp á framlopt kirkjunnar. Vildi þá svo til um miðja prédikun hra stiptprófasts Á. Helgasonar, að í bita undir framloptinu tók hátt að braka. Fólk þar uppi og fyrir neðan hélt bitann vera að brotna, loptið að síga niður og

hrapa, og ruddist því með ys miklum og hljóðum ofan og út, hver um annan þveran, svo margir tróðust undir, því allir vildu, sem fyrst ná út, mölvuðu því með höndum og fótum flesta glugga kirkjunnar úr, stungu börnum og unglingum út um þá, og forðuðu sér þanninn, máske um þarfir fram, ímynduðum háska í ofboði. Enginn skaðaðist samt þar við, nema hvað sumir blóðguðust á höndum af rúðna brotum, og varð embættisgjörð um daginn þar með lokið."

115. bls. Fljótshlíð. Ártalið 1827 er eigi alveg víst. Það stendur í hdr. Boga sonar Bjarna með spurnarmerki.

115—118. bls. Gísli Brynjúlfsson. Gísli Brynjúlfsson háskólakennari hefur sagt mjer, að þegar Bjarni frjetti lát föður síns, hafi hann skrifað Þórarni Thórarensen í Skjaldarvík og sent honum í brjefinu fyrra kvæðið: Föðurlands hlíða beltin bláu o. s. fr. eptir sjera Gísla; segir hann þar að sjer hafi dottið þetta í hug, þegar hann frjetti lát doktors Gísla Brynjúlfssonar. Nefndin hefur eigi sjeð brjefið og er kvæðið prentað eptir fyrri útgáfunni en síðara kvæðið hefur verið borið saman við handrit Bjarna og óverulegar breytingar teknar eptir því. *B. Th. M.*

122—123. bls. Steinunn Bjarnadóttir móðir Bjarna, en dóttir Bjarna landlæknis Pálssonar og Rannveigar Skúladóttur landfógeta. I. er borið saman við hdr. Bj. og orðbreytingin hrynji f. renni tekin eptir því. II. er eigi áður prentað, og er aptan við grafminningu, sem þó er eigi með hendi Bjarna.

124—128. bls. Kvæðið er hjer borið saman við eiginhandarfrumr. Þar er þessi fyrirsögn: „Kvæði við brúðkaup prinzessu Vilhelmínu Maríu og prinz Karls Kristjáns."

130—136. bls. Kláusar vísur.

I 4. „Kærir sig bölvaðan". Málsháttur Kláusar, þegar hann var drukkinn.

II 2. Kambsleira er djúpmið frá Innnesjum á Faxaflóa.

V 1. Kláus kallaði staupið, sem hann var vanur að fá í, kollu. Eitt af staupunum var Pínan, og hún tók pela.

VIII 5. Svið er eitt af djúpmiðum frá Innnesjum.

IX. Kláus kom sunnan úr Hafnarfirði lítið kenndur; var þá Bjarni að drekka tevatn. Kláus segir: „Hvað eru þjer að drekka, húsbóndi?" Bjarni svarar: „Tevatn; langar þig í það?" Kláus segir: „Nei, heldur volgan dropa í Pínunni." Fjekk hann þá sjö Pínur af púnsi, og fór það eins og sagt er í vísunni.

X, 5. Kláus sagði, að í sjer væri „þutur", þegar illa lá á honum, og hann langaði í Kollu.

XI. Seinustu hendingunni sagði Bjarni, að Kláus hefði bætt við.

XII. Í þessa vísu vantar tvö vísuorð, því að heimild fyrir henni hjer var ekki önnur en fyrri útg. Tilefni vísunnar er þetta: Kláus var sendur með kút fram í Reykjavík; voru trjetappar í kútnum og skröltu. Kláus átti að gæta að hrossum á leiðinni í Laugamýri, en komst ekki að þeim, því þau fældust skröltið í kútnum; varð Kláus svo að fara heim svo búinn.

XIV, 1. Kláus veiddi kóp í hrognkelsanet.

XVII. Þegar Kláus hætti að róa á djúpmið fyrir elli sakir, fleytti hann sjer út á Viðeyjarsund á daginn og hafði þá kamarinn á Gufunesi fyrir mið. Hamarinn er djúpmið á Faxaflóa.

XIX, 4. Hyrna var brennivínstunna.

Kláus þessi var vinnumaður Bjarna, þegar Bjarni bjó á Gufunesi. Dr. Grímur Thomsen fer hjer um bil þessum orðum um Kláus í „Gæa" 1845 bls. 197: „Kláus var fremur skoplegur maður, ákaflega geðgóður, en smáskrítinn, skrækhljóða og afar hár og gildur. Hann hafði þann kost, sem er mikilsvirði fyrir vinnumenn, að hann gat aldrei orðið ölvaður af víndrykkju, en að eins saddur. Einu sinni gaf Bjarni honum 30 glös af ósviknu púnsi, og þegar hann bauð honum hið 31., svaraði Kláus ósköp stilltur: „Nú er jeg saddur, húsbóndi góður". Einu sinni talaði Kláus dönsku. Hann fór í myrkri með Bjarna yfir mómýri og datt ofan í mógröf fulla af vatni. Bjarni rjetti honum höndina til þess að hjálpa honum upp úr. Þá sagði Kláus,

og brá sjer hvergi, þessi merkilegu orð: „Hold nu fast, assessor Bjarni.“ Bjarni spurði hann, þegar hann var kominn upp úr gröfinni: „Hvar hefurðu lært að tala dönsku, Kláus?“ Þá svaraði Kláus: „Það kom einhvern veginn yfir mig í hættunni.“ Kláus talaði aldrei dönsku endranær, hvorki fyrr nje síðar.“

137. bls. Þorkötluvísur. I, 1—4. Þorkatla hjet fjósakona á Gufunesi, sem Kláus átti í brösum við og kallaði hana þá Kálu. Bjarni kallaði Kláus Skut og Karlskut.

II, 1. Kolfagta. Orðskrípi Þorkötlu.

137—140. bls. Sigurðarvísur. Þær hafa eigi verið prentaðar áður í heild sinni og eru að þeim ýmsar heimildir, sem nærri má geta, þar sem hver maður svo að segja kann þær og veit hvernig á þeim stendur. Við fyrstu vísuna (I, 1) er meðal annars höfð hdr. frá Guðmundi lækni á Laugardælum og úr safni Jóns Sigurðssonar, og er í henni ýms orðamunur, svo sem

1. l. Hann Sigurður sjera, eða:
Sigurður minn sjera,
3. l. mylkingur fyrir mildingur
6. l. klækjum, eða: af klækjum
7. l. og ágirnd ...

Önnur vísan (I. 2) er tekin eptir einu hdr. frá Boga Melsteð.

II. Kveðin, þegar Sigurður sjera hugðist að flytja sig til Vestmanneyja. Vísan er prentuð hjer eptir því, sem Lárus sýslumaður Blöndal hefur hana, en sumir hafa þó heyrt 5. línu svo:

af fiðri líka ærinn plógur.

III. er meðal annars tekin eptir handriti frá Guðmundi lækni. Orðamunur:

2. l. ... verð jeg ...
3. l. vestur á .... (Laugardælahdr.)
7. l. önd minni ... (Laugardælahdr.)

IV. Heimild meðal annars, handrit frá Guðmundi lækni og Ólafi stud. mag. Davíðssyni og ýmisl. fl. Helzti orðamunur er þessi:

1. l. Við bakkann Eyrar ..., eða:
Á Bakkanum neðra (syðra) ..
2. l. af boðaföllum ..., eða:
í boðaskellum ...
6. l. herfilega því ...

og sagnirnar: hlunkar og dunkar settar á víxl.

V. Hljóðið úr Hruna. Finnst í eiginhdr. Bjarna og í afskript með hendi Sr Jóns Sveinssonar á Mælifelli, og er fyrirsögnin tekin eptir Sr Jóni, en orðbreytingin í textanum eptir hdr. Bjarna. Sr Þórhallur í Reykholti hefur og sent afskript af vísunni. Hann segir svo frá tilefni vísunnar: „Sjera Guðmundur Torfason kvað um Bjarna, til þess að hefna fyrir sjera Sigurð Thórarensen:

Níðhöggur býr í norðurátt,
norður þar horfa dyrnar,
alt, sem að norðri að snýr þrátt,
örmagnast, frýs og stirðnar,
en að nokkurri manns þar mynd
megi takast að leysa vind
mig allra mest á firnar.“

Eptir sögn hans er því vísa Bjarna svar upp á þessa vísu. En jeg veit ekki hvers vegna Bj. kallar vísu Guðmundar prests „hljóð úr Hruna.“

140–141. bls. Það má sjá af Klausturpósti VI, 32, hver alvara Bjarna hefur verið með vegabætur. Þar segir svo:

„Loksins lýsir Klpóstur þessi, að bón sýslumannanna herra Jóns Espólíns og Blöndals, þeirra opinberri þökk til herra assessors B. Thórarensens, vegna sýslubúa þeirra, sem ferðast kunna um Kaldadalsveg, fyri góða vegabót,

er hann á eiginn kostnað hefur látið gjöra með ruðningi á þessa dals lakasta óvegis parti, Skúlaskeiði svo nefndum."

142—145. bls. Veturinn. Borið saman við eiginhandr. Bj. og orðabreytingar teknar eptir því.

149—156. bls. Vísur til Odds Hjaltalíns.

1. vísuna eru menn beðnir að leiðrjetta þannig, að fella aptan af henni 3 línur, er í ógáti hafa verið prentaðar í textanum. Vísan á að vera alveg eins og í fyrri útgáfunni, því svo er hún í frumriti Bjarna, en aptan við 3 seinustu línurnar, eða seinni helming vísunnar, hefur hann dregið strik og skrifað þar til hliðar.

Öllum heillum hamingjan
í hverjum rann
yfir þig á að pissa,

en síðan strikað yfir þær; bendir það eigi á annað, en að honum hafi dottið í hug að svona gæti líka verið seinni helmingur vísunnar, en hefur þó eigi ætlast til þess að hann væri svo, heldur eins og hann orti hann fyrst.

2. vísan er prentuð eptir hdr. Páls Melsteð; og segir hann svo frá: „Oddur Hjaltalín sendi Bjarna góðar óskir í ljóðum og var þetta eitt þar í:

Feitin þjer flói um munn,
farðinn þjer dylji sig,
lífsýkis lepran þunn
láti í friði þig.

Bjarni kvað í móti og er þetta þar í:

Ein tunna o. s. fr.

Páll kveðst hafa lært þetta af Jóni Hjaltalín landlækni, þá er þeir voru báðir í skóla, eða um 1830. Alllíklegt er, að þessi vísa frá Oddi til Bjarna sje ein af þeim góðu óskum, sem Páll getur um.

Vertu, þess óska eg,
óvinur hryggðanna
ranglætis rumba treg,
reiðhestur dyggðanna
rjettlætis sóma sár,
siðgæðis bytna held,
gæfunnar lyppu lár,
lastanna baula geld.

5. Vísan er prentuð eins og í fyrri útgáfunni, og sem frumrit Bjarna, en Páll Melsteð hefur skrifað mjer hana þannig:

„Þó tungla teljir klasa,
er tindra' um himinbaug
og getnaðarlimu grasa
og gorkúlur í haug —
um það varðar ekki mig,
þekking lítils þín er verð,
þú þekkir ei sjálfan þig.

„Svona sungum við vísuna", segir hann, og mig minnir með Bjarna í Nesi við Seltjörn. En hann mun síðar hafa breytt henni". Sem kunnugt er hefur Oddur meðal annars ritað „Nýtt lesrím, sem kennir að útreikna ársins aðskiljanlegar tíðir, tunglkomur og annað" (Beitistöðum 1817) og íslenzka grasafræði, er bókmenntafjel. gaf út 1830.

7. vísan er prentuð eptir frumriti Bjarna; önnur línan er eigi sem greinilegust í því, en á þó líklegast að vera svo sem hún nú er prentuð.

Í 8. vísu er einu orði breytt frá fyrri útgáfunni eptir frumriti Bjarna.

9. Þetta brjef sýnir ljóslega hve góðir vinir þeir Oddur voru. Það segir að einhver harmur hafi fengið svo mjög á Odd, að hann sjálfur gat eigi skrifað Bjarna hann, en hafi látið annan gjöra það fyrir sig. Bjarni svarar Oddi aptur og segir: Þinn kvelur harmur svo mitt sinn o. s. fr.

Í fyrri útgáfunni var næst seinustu vísunni slept, sem nú hefur verið prentuð eptir handriti Bjarna, sem er fyrsta frumrit, eins og flest öll handrit hans, er nefndin hefur haft. Að eins fá kvæði eru hreinrituð af honum. Í 3. línu í seinustu vísunni hefur verið misprentað lystugur í staðinn fyrir líflegur, sem er í fyrri útgáfunni. Lystugur finnst í einu handriti Bj. og hefur því slæðst hjer inn í ógáti.

10. er eins í frumriti Bjarna og í fyrri útgáfunni.

*B. Th. M.*

157. bls. Vísur. Bornar saman við hdr. Bjarna. Hann hefur: smjúga skyldi heldur háll, eins og nú er hjer prentað.

157. bls. Baldvin Einarsson. Þetta er að eins brot, og er til í eiginhdr.

161—163. bls. Þórður Björnsson. Er eigi til í hdr. og breytingin í 2. er. er því heimildarlaus.

163—165. bls. Guðný Högnadóttir. Eptir hdr. Bj. er tekin breytingin á síðasta er.

165—166. bls. Samkvæmisvísur. Bjarni og Bogi sonur hans kalla kvæðið „Selskapsvísu“. Orðabreytingar eru teknar eptir hreinskript Bjarna. Steingrímur biskup segir við afskript af þessum vísum í safni Jóns Sigurðssonar: „Þegar kom í kring, að ofvel þótti drukkið á Möðruvöllum um sumarið 1834, kvað B. Th.“ Guðnasteinn [Goðasteinn? (sbr. Goðaland), nú altaf Guðnasteinn] er klettur efst á Eyjafjallajökli.

170. bls. Um Björn í Lundi. Björn Jónsson í Lundi í Fnjóskadal var einhver merkasti bóndi á Norðurlandi á fyrri hluta þessarar aldar. Hann var albróðir Kristjáns á Illugastöðum, föður Kristjáns amtmanns, sjera Benedikts í Múla, sjera Jóns á Breiðabólstað og Björns umboðsmanns, sem var alinn upp í Lundi hjá nafna sínum. Björn var gáfumaður mikill, sem þeir frændur, en undarlegur í lund nokkuð svo, orðhvatur og drykkfeldur. Hann var góður öllum aumingjum og fátæklingum, en glettinn og óvæginn í orðum við yfirmenn, einkanlega við Gunnlaug sýslumann Briem og Grím amtmann. Glettingar voru með þeim Bjarna og Birni í

orðum, en þó er talið, að þeir hafi verið vinir góðir, og að allt þessháttar hafi verið í gamni. Ýmsar fleiri vísur mun Bjarni hafa gjört um Björn en þessa, sem hjer er prentuð. Sumir eigna Bjarna þessa vísu:

Sagði guð við söfnuðinn,
sem á jörðu undi:
Allt er gott, nema' andskotinn,
og hann Björn í Lundi.

En Andrjes á Hvítárvöllum sagði mjer, haustið 1877, að hún mundi vera eptir Jón Thoroddsen, og er það, ef til vill, eins rjett. Þessi vísa gizkar Jón Sigurðsson lauslega á, að muni vera eptir Bjarna um Björn:

Absalon í Lundi
lengi kenna vann
svik sín svörtum hundi,
sem með honum rann,
allt eins gjörir gás við hjall,
hann eignar sínum helgum hjúp
hróðrarsvall um brall.

Vísan er í kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum, en er auðsjáanlega afbökuð. Björn í Lundi var hagorður og meinlegur í kveðlingum og einkennilegur (Sbr. Snót Rvík 1865, bls. 376 og 389). Einkum orti hann um yfirmenn og þá sem honum þóttu spjátra sig. Menn segja Björn hafi gjört þessa vísu um sjera Sigurð Árnason á Hálsi († 1849):

Á Hálsi situr hálfærður,
hreifir ennis brúski,
nefndur sjera Sigurður,
svíðingur og húski.

En þegar prestur vildi krefja Björn reikningsskapar fyrir vísuna, hafði Björn heyrt hana svo:

A Hálsi situr hálærður
hirðir drottins sauða
nefndur sjera Sigurður,
sálum forðar dauða.

Sumir eigna Birni hina svo kölluðu „ný-eddu vísu", sem byrjar svo: Fleinahóll og faldaþúfa o. s. frv., og margir kunna. Aðrir eigna hana Jóni Jóhannessyni á Beinakeldu. Björn orti og margar skopvísur um Árna nokkurn, sem kallaður var „ríkismannakrassi", sagði mjer Halldór snikkari Björnsson umboðsmanns Kristjánssonar á Illugastöðum. En mest mun kveða að kveðlingum Björns við Ara Sæmundsson.

170—175 bls. Aravísur. Þær eru kenndar við Ara umboðsmann Sæmundsson. Ari var blestur á máli og átti örðugt með að nefna suma stafi, svo sem *r*, og hafði þá *l* í staðinn (sbr. sjera Eggert Bjarnason í Stafholti); var hann því stundum kallaður Ali í gamankveðlingum þeim, sem hann átti í við ýmsa, og kveðlingar þeir af sumum kallaðir Alavísur. Ari var hagmæltur og fróður um margt. Hann var vel að sjer í söng, og gaf út bók um langspil. Hann var maður raungóður. Hann var, að jeg hygg, úr Mýra eða Borgarfjarðar sýslu. Kveðlingar hans og þeirra Norðlinganna stóðu sem hæzt á dögum Bjarna, og tók Bjarni þátt í þeim, eins og menn vita. Vísur þær, sem hjer eru prentaðar, eru teknar eptir afskriptum í safni Jóns Sigurðssonar og handriti sjera Stefáns á Völlum í Svarfaðardal (í Bmfjel. 340. 8vo).

I. Administrator Arius = Ari umboðsmaður; dromedarius er einskonar úlfaldi (sjá dýrafræði Bened. Gröndals bls. 49); vafer og varius = grár og marglyndur; secretarius = skrifari.

III. Er höfð á ýmsa vegi. Helzti orðamunur er þessi: 1. l. Eg hef heyrt ...; 5. l. sannast að litla þúfan ...; 6. l. þungu veldur opt ... eða: þungu opt veltir ...; 7. l. eg vil hann þetta akti ...; 7. ei sje sem blauður ... eða: ei sje blauður hjassi.

IV. Í samkveðlingum þessum gjörðu þeir eins og nokkurs konar erfiljóð hver eptir annan. þessi vísa sýnist vera ein af því tagi. Orðamunur: 1. l. Í dögg þá hátíð...; 5. l. merar gneggja, en... þetta gjörði Björn í Lundi, segja menn, um Ara, og eiga það að vera erfiljóð:

:|: Ari dó :|: æ, æ, æ;
dysjað var hans, en hvar
hræ, hræ, hræ.
Langt fyrir ofan bæ, bæ, bæ,
burt skrapp önd í sæ, sæ, sæ,
og fór í skötu :|: hæ, hæ, hæ. :|:

:|: Dyggðasmár :|: hann dó, dó. dó,
margskonar mennt hann bar
þó, þó, þó;
yfir synd hann bjó, bjó, bjó,
sem bezt kvað við hann ró, ró, ró,
en sveik og drap hann :|: ó, ó, ó. :|:

:|: Ari reið :|: á Náströnd,
háðsleg hvar hulin var
hans horgrind vönd,
í hrossaskellu hleyptist önd,
hún var dregin vítt um lönd,
en þótti engum :|: þæg í hönd. :|:

En Ari kvað þetta um Björn [Björn hjelt geitfjenað]:

Geitnahirðir gamall vor
gekk nú loks frá heimi,
til Valhallar tölti spor,
taptur auð og seimi,
af víni opt var ær,
guðlöstunar gamlan kropp
gnaga lýs og flær,
en sálin varð að hvekk í kopp
hvers manns nær og fjær.

Og ennfremur þessa vísu, sem flestir kunna:

:': þar fór Björn :|: þei, þei, þei,
hann sökk á kaf í synda haf,
svei, svei, svei.
Hvernig var hann? Grey, grey, grey:
Góðhjartaður? Ei, ei, ei.
Varð hann hólpinn? :|: Nei, nei, nei. :|:

Sumir eigna Bjarna vísuna. þessar vísur Ara og Björns eru hafðar á ýmsan hátt, en orðamun er hjer slept.

V. þessar þrjár vísur eru hjer teknar eptir hdr. í safni Jóns Sigurðssonar, og að nokkru bornar saman við handrit sjera Stefáns á Völlum (í Bmfjel. 340. 8vo.), en í þeim er enginn verulegur orðamunur. Við afskriptina í safni Jóns er sagt, að tildrögin til vísnanna væri þau, að sjera Hallgrímur Thorlacius í Miklagarði lýsti eitt sinn með hjónaefnum, sem áttu heima á Hólum í Eyjafirði, en gleymdi að til greina hvar þau ætti heima, áður en hann sagði amen, og bætti svo bæjarnafninu aptan við og sagði: „Amen á Hólum“. Ari var við messu og hjelt hann þessu á lopt og gjörði skop að, en skáld Eyfirðinga hentu aptur gaman að því, og höfðu í ýmsum „Aravísum“. Sjera Hallgrímur frjetti þetta, og einu sinni í brúðkaupi, sem stóð í Miklagarði, las prestur borðsálminn, en um leið og hann endaði hann, sneri hann sjer að Ara, sem líka var þar, og sagði: „Amen í Miklagarði, en ekki á Hólum, herra Ari.“ Ari þekkti skeytið, stóð upp undan borðum og hvarf úr veizlunni. Yndis-svaviolum = yndis-yndi eða þvíuml, diabolum = djöful og filiolum = litla son. Fyrsta vísan finnst í eiginhandriti Bjarna og er hjer prentuð eins og hún er þar Neðan undir henni stendur V. Reykdal, einnig með hendi Bjarna, og er það, ef til vill, að skilja svo, sem hún sje gjörð undir nafni sjera Vigfúsar.

VI. Er ort þegar Ari flutti frá Munkaþverá að Melgerði. þá var maðkur í Munkaþverártúni.

VIII. Bjarni sjálfur hefir í eiginhandarriti sínu fyrirsögnina: Florilegium Arianum. En í Skírni (IV. 34) og 1. útg. stendur: Blumenlese, eða lítilfjörlegt florilegium. Sömuleiðis hefir eiginhandarritið: Akureyri á (3.1.), og „við svik“ [(7.1.) sbr. d. veð svig].

IX. er hjer prentað eptir handriti í safni Jóns Sigurðssonar með hendi Árna biskups Helgasonar. Við þá afskript stendur: „þegar fleiri en eitt skáld, og þar á meðal Ólafur Briem, fóru að taka þátt í kvæðum um Ara, þótti Bjarna nóg um og kvað.“ Vigfús, sem hjer er nefndur, er sjera Vigfús Reykdal; Jón er Jón Jóhannesson á Beinakeldu; Láfi er Ólafur Briem á Grund, og Björn er Björn Jónsson í Lundi.

Kveðlingar þessir allir, sem sumir kalla einu nafni Aravísur, eru afarmargir, og getur verið að fleiri af þeim sjeu eptir Bjarna, en þeir, sem eru tilfærðir hjer.

176—177. bls. Þórunn Bjarnadóttir. Kvæðið er borið saman við eiginhandarr. Bj. og afskript sjera Jóns. Sveinssonar á Mælifelli, sonar Þórunnar, og hafa þau bæði: *á* þrönghýsi grafar.

177. bls. Jón Espólín. Fylgir grafskript: Orðin fyrir ofan strykið er byrjunin, en fyrir neðan niðurlagið. Samanborið við eiginhandarrit Bj.

178—180. bls. Ísleifur Einarsson, ágætur maður, justitiarius síðast í landsyfirjettinum. Hann er orðlagður fyrir þrek sitt við „Jörund hundadagakong“. Bjarni og hann voru lengi saman dómendur í landsyfirrjetti, og voru góðir vinir. Sumir segja, að Bjarni hafi gjört þessa vísu um Ísleif, er honum þótti hann vera sjer mótdrægur um eitthvert mál:

Illa verði Einari kút,
aldrei það votum myggli,
sem til bölvunar ungaði' út
eitruðum brekkusnigli.

Ísleifur bjó á Brekku á Álptanesi. Gísli docent Brynjúlfsson segist hafa heyrt vísuna eignaða Benedikt Gröndal

eldra. — Kvæðið er hjer borið saman við eiginhandarrit Bj., og breytingin hjó (2. er.) f. bjó tekin eptir því. Auk þess er í eiginhdr. þessrar f. hennar (9. er.).

182. bls. Sveitarlýsing. Bogi sonur Bjarna hefir þessa fyrirsögn. Vísan er, ef til vill, um sömu hjeruð og næsta kvæði á eptir.

182—183. bls. Er hann Eyjafjörður. Þær 2 vísur fjekk jeg einu sinni hjá skólakennara Steingrími Thorsteinson, og sagði hann mjer að þær væru eptir Bjarna. Þær eru eigi í handritum Bjarna. *B. Th. M.*

184. bls. Ríkir suður í Reykjavík. Bjarni sendi Runólf Magnús Ólsen stúdent einhverra erinda til Þórarins Thorarensens frænda síns í Skjaldarvík. Um kveldið þá er Ólsen kom aptur og inn til Bjarna, sagði hann, að hann hefði drukkið „skyrblöndupúns í Skjaldarvík“, en Bjarni stóð upp og tók ljósið og lýsti framan í hann, og sagði að hann væri kenndur, og kvað þá brosandi þessa vísu. *B. Th. M.*

184—186. bls. Vísur um sjálfan sig. Fyrsta (I.) vísan af þeim mun vera ort, þegar Bjarni var erlendis. Seinasta vísan (V.) hefir þessa fyrirsögn í hdr. sjera Jóns Sveinssonar: „Þá sverðskeiðar skáldsins biluðu, orti hann þetta“; illa f. ekki (l. 3) er tekið eptir hdr. sjera Jóns og hdr. Bj. sjálfs.

190. bls. Vísa. Bj. hefir í eiginhdr. sínu í „pastri“, en ekki pústri eins og stendur í útg.

191. bls. Vetrarkoma 1837 er brot og finnst nú ekki í hdr.

192. bls. Lausavísur. Breytingarnar á fyrri (I.) vísunni eru teknar eptir hdr. Bj. sjálfs.

192—193. bls. Margur heimsins girnist glis o. s. frv. Sumir segja að Bjarni hafi gjört seinni partinn, og sögnum ber eigi saman um tilefni vísunnar. Sumir segja að þeir Bjarni og Hjálmar hafi hittst uppá Yxnadalsheiði, og hafi með Bjarna verið ýmsir heldri menn og allir vel búnir, og hafi þeir verið stignir af baki og setið og verið að fá sjer hressingu og verið glaðir. Hafi þá Hjálmar

komið þar að á einni bykkju, og kastað fram fyrri hlutanum, og Bjarni þá svarað, og segja menn að svarið lúti að því, að Hjálmar ætlaði þá að fara að leggja ofan af heiðinni. Aðrir segja, að þeir hafi mætst í gili, og hafi Bjarni verið að fara ofan en Hjálmar upp. Með Bjarna var glæsimanna föruneyti. Hafði Hjálmar verið að tuldra, svo að lagði í eyru hinum, að þessir ljetu ekki lítið yfir sjer og bærust á einhverja ögn eða því um líkt. Þá hafði Bjarni átt að kasta fram fyrri hlutanum, og Hjálmar að svara. Enn aðrir segja að vísan sje gjörð heima á Friðriksgáfu, er Hjálmar hafi verið þar gestkomandi.

Seinni vísan (á bls. 193): Vondir menn með vjela þras o. s. frv. er prentuð eptir því, sem Ólafur stud. mag. Davíðsson hefir hana, og segir hann tildrög þau til hennar vera, að Hjálmar hafi komið að Friðriksgáfu, og hafi vinnumenn Bjarna staðið úti og horft á kallinn, og hafi verið að gjöra gis að honum. Bjarni hafi sjeð það, og hafi kastað fram fyrri hlutanum, þegar Hjálmar kom, en Hljálmar þá þegar svarað.

Annars eru sagnir um, að þeim hafi ekki verið vel til vina Bjarna og Hjálmari. Hjálmari eru og af mörgum eignaðir hrakkveðlingar þeir, sem gjörðir voru við lát Bjarna, og þetta er upphaf að:

Nú er amtmann Bjarni burt,
braga fagnar gyðja,
að einum hefir fækkað furt
foldar grófu niðja.

Þetta er og í þeim um Bjarna:

Gáfum hans ei gjaldast laun,
þær glöppuðust ófimlega,
um ráðgátna hrjóstrug hraun
hrufluðust (eða: hrossuðust) alla vega.

Vizkan eins og dís í draum
dró honum svipul gæði,
ef hann sleppti slökum taum
sló og jós hún bæði.

Þessum kveðlingi hefir Gísli Konráðsson svarað. Móti þessum kveðlingi hefir og verið ortur „Æruþjófsspegill", langt kvæði. Þessi kvæði eru öll til hjer í safni hins íslenzka bókmenntafjelags.

194—195. bls. Fyrirsögn Bjarna er þessi: „Vitnisburður gefinn studioso R. M. Olsen dat. á brúðkaupsdegi hans, af hans fyrverandi húsbónda

B. V. Thorarensen, amtm."

Kvæðið er prentað áður í Tímariti hins íslenzka bókmenntafjelags I. 271, og er hjer prentað eptir því, sem það stendur þar. Þessi grein stendur aptan við í tímaritinu: „Runólfur Magnús Ólsen var skrifari hjá Bjarna árin 1834 til 1837, kvongaðist 26. júní 1838 og setti bú að Efranúpi í Miðfirði."

198. bls. Um sjera Vigfús Reykdal. Vísurnar eru úr safni Jóns Sigurðssonar. Seinni vísan er gjörð þegar sjera Vigfús flutti vestur að Höskuldstöðum frá Möðruvallaklaustri árið 1839. „Gáfa" hjer sama og Friðriksgáfa. Ari sjálfsagt Ari Sæmundsson.

199—200. bls. Um Tyrkjaveldi 1839. Breytingarnar eru eptir hreinskript Bjarna, og munar henni frá frumritinu, sem og er til.

202—203. bls. Sveinn Pálsson f. á Steinsstöðum í Yxnadal 1762. Gáfumaður mikill og hinn lærðasti Íslendingur á sinni tíð í náttúrufræðum. Hann var fjórðungslæknir syðra og eystra og bjó í Vík í Mýrdal. Hann átti Þórunni móðursystur Bjarna.

Bautastein Bjarna þú reistir
og bautastein Jóni ...

Bjarni er Bjarni landlæknir Pálsson tengdafaðir Sveins læknis. Jón er Jón Sveinsson (lögmanns Sölvasonar) landlæknir næstur eptir Bjarna Pálsson. Sveinn Pálsson var settur landlæknir um tíma. Kvæðið er borið saman við eiginhdr. Bj. og er breytingin eptir því.

204—207. bls. Oddur Hjaltalín. Hann var fæddur 12. júlí 1782 á Kálfafelli, sonur sjera Jóns Oddssonar Hjaltalíns og bróðir dr. Jóns Hjaltalíns landlæknis, var hjeraðslæknir í vesturamtinu frá 4. des. 1807 til þess er hann fjekk lausn 21. sept. 1839, dó 12. maí 1840 í Bjarnarhöfn.

Þeir Bjarni voru aldavinir, og hef jeg heyrt að Oddur hafi beðið Bjarna að yrkja eptir sig, ef hann lifði sig. Þessi brjefkafli Odds til Bjarna bendir og á að svo hafi verið. ...„Það er þar næst að frjetta, að allur minn skáldskaparandi er burtu floginn, svo nú kem jeg ekki ferskeyttri bögu saman, þó, þar jeg veit þú mundir eptir mig gjöra lofsöng, ef jeg dæi, hef jeg verið að baglast við, að gjöra annan um þig — ei er ráð nema í tíma sje tekið. Jeg hefi vandað kvæði þetta sem bezt jeg kunna, og stælt eptir beztu skáldum, til dæmis vil jeg setja hjer 4 erindi, er standa mitt í lofi þínu. Þau hljóða svona:

Mun ær andskoti
og allir djöflar
dýrðar fyr
djásnið hljóta,
og englar fyr
aptur hrökkva
dýkið í,
en dáð hans gleymist.

Mun sól fyr
svín örg eta,
tunglið ill
tröll fyr bryðja,

birtu fyr
beggja erfa
naðurs egg,
en nafn hans deyi.

Mun fyr barn
munni þyrstum
hafið allt
hirða' í sopa,
lús ein fyr
lypta jökli,
orðs — en — tír
öðlings rofni.

Mun fyr hrafn
miskunn rækja,
tóa lymsk
tryggðum unna,
hákarl fyr
hvergi bíta
bráðir, en
hann bresti hróður.

Brjefið er dagsett í Grundarfirði 3. nóv. 1827. Í frumriti Bjarna er björgum í 2. línu í 1. vísu í staðinn fyrir hömrum; í 4. vísu 7. línu er hans biðu í st. f. biðu hans; í 7. vísu 8. línu er þá í st. f. er. Að því er gætandi við þetta kvæði, þegar um orðamun er að ræða, að Bjarni hefur sjálfur sent það til Skírnis og þar er það prentað eptir handriti, sem ætla má að hann hafi lagt á síðustu hönd. Svo er um fleiri kvæði hans er prentuð eru í Skírni og öðrum íslenzkum tímaritum. *B. Th. M.*

208—209. bls. Bæn. Af feigðarheima o. s. frv. Borið saman við hdr. Bjarna. Orðam: 2. er

l. 2—3. þó á því skíni, ei
á því hrína

3. er. l. 2—3. grimmu grandi', en
guðs að landi.

211. bls. Sker hefir skrapið í firði ... Breytingarnar eru eptir hdr. Bj. Vísan er á sama blaði og: Guð sendi' oss góðan kong ... og: Stari jeg fram ... Þar er og kvæði á dönsku með hendi Bjarna, og heitir það:

Stærkodders Svanesang.

1. er. Saavidt paa Jorden
til Syd fra Norden
sig frejdig drog,
hvorfra jeg stævned,
mit Sværd jeg hævned,
og Fjenden slog.
Mig Vikar skyldte
sit Banesaar,
da knap jeg fyldte
mit tolvte Aar.

Kvæðið er 6. err.

211—212. bls. Til Finns Magnússonar. Breytingar hjer gjörðar eptir eiginhdr. Bjarni á hjer við „Rúnamó", þar sem Finnur las rúnirnar og ritaði um lærða bók og mikla. En seinni fræðimenn hafa viljað sanna að þar hafi engar rúnir verið, heldur regnrákir eða því um líkt.

212—213. bls. Alþingisvísur. Þú, sem fyrir skemmstu o. s. frv. Hjer átt við sjera Tómas Sæmundsson á Breiðabólstað. Hann vildi hafa alþingi á Þingvöllum við Öxará eins og Bjarni. Tómas var nýlega dáinn (17. maí 1841) þegar þessar vísur voru ortar. Sbr. Ljóðmæli og önnur rit eptir Jónas Hallgrímsson bls. 394 og Andvara II. 128. Vísurnar eru eitt með hinu seinasta, sem Bj. hefur gjört.

218. bls. Harðan mótvind að hreppa. Hjer orðrjett eptir eiginhandarriti Bj.

219—220. bls. Herferð til Spánar. Breytingar þær,

sem hjer eru, eru teknar eptir eiginhandarriti Bjarna. Það er óvíst, hvenær kvæðið er ort, og að hverju það lýtur.

220—221. bls. Guð sendi' oss góðan kong. Eigi prentað áður. Hjer tekið eptir frumriti Bjarna á brjefumslagi.

222. bls. Karlagrobb. Fyrirsögnin svo í hdr. Bj. Ber annars saman.

224—225. bls. Langloka. Borið saman við eiginhandarrit Bj. og breytingar eptir því.

235. bls. Drottins volaðra ef að art. Hjer gjörð breyting eptir hdr. Bj.

238--239. bls. *Perssii prologus.* Borið saman við eiginhandarrit frumritað og hreinritað, og ber útg. saman við hreinskriptina, en frumitið er dálítið öðruvísi.

240—243. bls. Æstus erat. Eptir eiginhdr. Bjarna.

4. Fyrst hefur Bjarni skrifað Corinna og svo gjört úr því Kolfinna.
3. eða mæni dagblik. Hjer má og lesa mæri.
8. okkrum stóð. Hjer mætti og lesa ossum.

244. bls. Brotin: Skiptast honum um o. s. frv. er á sama miða og þýðing Bj. af „Æstus erat" og er hvorttveggja frumrit. Brotin sýnast vera þýðingar tilraunir.

245. bls. Við Helga skulum búa. Samhljóða hreinskript Bj. í „Syrpa mín".

246. bls. Epigrammata eptir Martialis er hjer tekið eins og það stendur í „Syrpa mín" með hendi Bjarna.

247. bls. Meðlæti og mótlæti eptir Óvíd samhljóða hreinskript Bjarna í „Syrpa mín."

249—251. bls. Ódáinsakur. Kvæðið finnst með eiginhendi Bj. í safni hins íslenzka bókmenntafjelags í ónúmereruðu handriti, sem er allt í blöðum og sitt úr hverri áttinni. Kvæðið heitir hjá Schiller: „*Elysium*". Þýðingin er brot og endar í miðju kafi. Í frumritinu samsvarar þetta seinasta erindinu í þýðingunni:

*Hier strecket der wallende Pilger die matten*
*Brennenden Glieder im säuselnden Schatten.*

251—253. bls. *Weg der Liebe.* Frumrit Bjarna af kvæðinu er við haft. Fyrir ofan stendur: „*English*“ eins og það væri þýtt úr ensku.

260—261. bls. Darthula. Niðurlagið er til í hdr. Bj. og hefir það verið við haft.

262. bls. Til latínunnar eptir Tegnér. Borið saman við eiginhandarrit Bj. og afskr. S^r Jóns á Mælifelli og ber öllu saman.



# EFNISYFIRLIT.



## KVÆÐI.

*a) Eptir fyrirsögnum.*

### b) *Eptir upphöfum.*

